# Mag. Peturs Herslebs,

fordum Biskup yfer Sælande

# Sio
# Prædikaner

ut af þeim

## Sio Liiffens Ordum

a

## Daudastunduñe,

a Islendsku utlagdur og i styttra Maal
samandregnar

af

Petre Þorsteinssyne,

Syslumañe i Nordur-Parte Mula-Syslu.

---

Prentadar i Kaupmañahøfn 1770.
Af Brædrunum J. C. og G. C. Berling.

Stoorgøfige Høfdinge!

Herra

# Olafur Stephansson

Konglegrar Majestatis yfer Danmørk og Norvege ꝛc.

Amtmadur a Iislande!

# Gunstige Velunare!

Ad jeg hiermed tek mier þad diørfung, ad tilskrifa ydar Stoorgiøfigheitum þessar faau Liinur, þar til eru hinar fierlegustu Orsaker þessar.

Fyrst veit jeg ad Gud og hañs Ord er i ydar Huuse i so stooruṁ Metuṁ og Vyrdingu sem vera byriar.

Þarnæst vil jeg med ydar npparlega Nafne tilleggia þessum Bækling eina þad veglegustu priide, er jeg

hygg mier nu til boda standa af þess-
konar iñanlands gædum; og

J þridia Lagie ad jeg ei Omañlega ur hende sleppe einu so hendtugu Tækefære til ad giora heirum kuña, mina allra makleguſtu Vidurkieñingu fyrer Ydar stooru Velgiørder; þaa dyrfest jeg ad biooda Ydur þeñan Bækling, sem ad soñu er ein audvyrdeleg gaafa, epter ytra aalite, þvi hañ er ei utañ faaein Pappirs Ørk, þar aa moot er hañ meir eñ Gullvægur epter iñvortes aalite, þar hañs Jñehálld, þaug Sio Jesu Ord aa Kroſſenum eru ad aaliita sem su heila Biblia i eiñe liitellre Nyt, er hiñ mikle Guds Madur Biskup Hersleb (loflegrar Miñingar) hefur fyrer øllum Guds Orda Elskendum so aagætlega opnad med harla andrykuñ og Hiartnæmum Prædikunarhætte; og er þad
riett

rjett frааleitt, ad aungvar af hañs mørgu ypparlegu Prædikunum, (er jeg varla hygg ad eiga mune sina Liika) hafa fyrr vered ad lesa i voru Moodur-Maale, hvar i, jeg oska ad þesse miin Fyrertekt mætte Vidkomenduñ nockra upporvun giøra.

I Tillite til Fyrrgreindra þriggia Orsaka er ad endingu miin Osk eirneñ þrefold.

Fyrst, ad miklu mege ætiid tilleggiast meira, hiaa ydur og ydar i Elsku Guds og hañs Orda, epter þvi sem Aldur og aar framar aafærast.

Þarnæst, ad ydar Nafn, sem vid ydar priisverdugu Landstioornan i faa aar, sovel utañlands, sem innañ, allareidu er Goodfrægt Orded, mege til Fødurlandsens, samt ydar

og ydvarra Æru og Gagns med sama hætte vardveitast og eblast, til stærstu Fullkomnunar.

Og endelega ad jeg og miiner, er þier (sem kuñugt er) ollum ødrum framar, þær stærstu Velgiorder audsiint hafed, i vorum þyngstu Mañraunum; kynnum þañveg ad skicka oss ad þier fiñdud oss aldrei Overduga ydar framhaldande Gunstar og Velñunar; med hvørre Osk Eg er alltid

Ydar Stoorgøfigheita

Ketelstødum at Wellum
þañ 20 Sept. 1769.

audmiukaste þienare
Petur Þorsteinsson.





# Goodfuusum Lesara, Hvørskonar Heiller!

Fyrer mørgum aarum þaa þessar dyr-mætu Prædikaner mier fyrst fyrer Siooner komu, og jeg hafde þær yferlesed, took jeg mier strax fyrer hendur ad utleggia þær, og hefe siidan brukad þær fyrer mitt Huus, til Lestrar a Fostunne. Nu voru þær i heilu Liike mikels til oflaangor-

dar,

dar, til þeirrar Bruukunar og Hlaut Eg þvi ad færa þær samañ, ad ollum þridjunge sem Lesareñ sia kañ, ef hañ ber utlegginguna samañ vid þañ Danska Texta; Aungvu ad siidur eru þær þo lengre eñ þeir flestu Helgedaga Huuslestrar sem hier a Lande hingad til Tiidkast hafa; jeg hefe ad soñu med þessare Utleggingar adferd hloted ad utelykia margt og miked gott, eirneñ allviida fylgt ei so vel Ordunum sem Meiningunne, eñ ad þvi leite, sem jeg hiermed hefe giort Bookena til Huuslestra þienañlega og undañfeldt þad jafnañ, sem helst siindest missast mega, eñ læted mier þar jafnframt umhugad vera ad ei yrde stoor afdrattur a þeim helstu Maalsgreinaña atridum, edur misssmiide a þeirra samfeldne, so þykest jeg hierfyrer ad miñsta

koste

koste Velbyrdingar maklegur. Min Ætlun i fyrstuñe sem og fram til Naalægs Tiima var (sem sagt er) ad bruka þessar Prædikaner einasta fyrer mig og mitt Huus medañ a þyrste ad halda; Nu med þvi þær vid greinda idkun hafa morguñ, hier uñ hverses, Kuñugar Orded, sem aasamt mier hafa daadst ad Prædikarans stooru Yferburdum, i þeirra Andlegu hluta, so gegnum-þreyngiande og Lærdooms-Riikuñ, sem Skiiruñ og Fordilldarlausum Mælendes-Krapte, er hroosar sier einkar vel so vel i þessum, semølluñ odrum hañs Viigslu- og Helgedaga-prædikunum, so hefe jeg af nockruñ Guds Orda Elskenduñ þar til aasiistur vered ad laata þær a prent utganga; Hvad jeg nu þessvegna med goodra Vina og Naaunga adstod hefe a hen-

dur

dur tekest, þaa so marger. Meñ er þetta Handarvik var betur tiltruande, hafa lated mig og adra þess so lenge forgefeñs af sier vænta. Gud laate þad verda siinu Haaleita Nafne til Dyrdar, og Saaluhiaalplegra Nota hañs litla Søfnude hier a Lande.



# Fyrsta Prædikun
ut af
# Pvi fyrsta Christi Orde
# a Krossenum.

Luc. XXIII. v. 32.

Og Jesus sagde: Fader fyrirgef þeim, þvi þeir vita eige hvad þeir giora.

## Ingaangurinn.

Time er til ad tala, og Time er til ad þegia, seger hiñ vise Salomon Præd. 3. v. 2. Aller hluter hafa siñ Tima. Pad være morgum stoor Lucka, ef þeir hefdu lært þaa Kunst rett ad tala þaa aaliggur, og i aññan Stad ad þegia, þaa so til hlyder. Miked giæ- fution hafa marger þar afhloted, ad þeir hafa þagad i Otima, og eige talad þaa þeir þo hofdu efne og Orsok til ad tala; eñ þo hafa fleire i ogiæfu ratad fyrer jafnvel eitt Ord', sem af þeirra Munne i Ogaate og af rasanda Raade he- fur framkomed, sem þeir giarnañ hefdu viliad apturkaupa fyrer allt þad þeir aattu; eñ med þvi

 þad

þad var eige mogulegt, kañ þvilikt Ord ad hafa gilldt þeirra æru og likamlega Velferd, ja jafnvel þeirra Lif. Svo þad kañ ad vera skadlegur hlutur ad þegia, þegar Madur a ad tala, og eñ þa hættulegra ad tala þa Madur skal þegia.

Vor Endurlausnare hefur vitad þañ retta Tima til ad þegia og tala: Af hans Munne hefur alldrei eitt oþarft Ord framkomed. Þar fyrer spaaer Esaias soo um hañ: **Drottinn, Drottinn hefur gefed mer vellærda Tungu, svo eg vite i rettañ Tima ad tala vid þa sem mæddir eru. Es. 50. v. 4.**

J hans Pinu var Time fyrer hañ ad þegia; hañ var þa sem eitt Lamb, er ecke upplykur sinum Munne þa þvi er slatrad, og svo sem sa saudur; er þeger, fyre þeim er hañ Klipper Es. 53. v. 10. Aull þaug hordu Ord, allar þeir bitru Pinsler, og aull þaug smaanarlegu brixle, sem han matte lida, i Sal þess ypparsta Keñemañs og i Pinghuse Pilati, hvar hañ var aaklagadur, spottadur, Hudstryktur og þyrnum kryndur. Allt þad Spott, aull su Pina, og allar þær aareitingar gatu ekke utlokkad eitt oþolenmædes Ord af hans Muñe; ecke eitt hotunar Ord af hans Tungu, og ecke eitt hefndar Ord af hans Vorum; hañ formælte ecke i gegn þa honum vær formælt; eige ognade þa hañ leid, eñ hañ yfergaf þad Honum sem rett Dæmer. 1 Pet. 2. v. 23. Efter þad hañ vid

hiñ

hiñ fyrsta Pustur i Sal þess ypparsta Prests hafde med sinu allra hogværasta Andsvare: **hafe eg sagt rett, hvar fyrir slær þu mig?** Advarad þar, ad þeir skyldu eige forgripa sig a siñe heilogu Personu, efter þad, sege eg, mættu þeir hrækia i hans Andlit, slaa i hans Hofud, þyrnum kryna hañ, Hudstrykia og gera honum svo miked illt sem þa lyste; hañ vilde ecke framar tala, þvi þad var nu þeirra Time og Magt myrkrañа, og soleides audsynde hañ hermed sina Þogn i rettan Tima; sa Time, þa aller adrer hefdu hellst viliad tala, hellst vitna þeirra Sakleyse, hellst klaga yfer þeim orette sem vid þa være frameñ, og hellst kresia Gud til Hefnda yfer sinum Ovinum, sa Time var sege jeg hans rette Time ad þegia. Eñ nu umsider kom hans Tid til ad tala, nu ad þeir hofdu giort allt þad illt vid hañ sem þeim var mogulegt; nu þa þeir varu bunner ad hengia og negla hañ a Krossen, þa var komeñ Tid til ad tala, og þa talade hañ þaug Ord, sem aldrei kuñe noogu opt ad talast, alldrei noogu vel ad utleggiast, og alldrei noogu gudrækelega ad yfervegast, þa var þad Tid til ad tala. Eñ hvad þa? Hvers Munder þu nu hafa viliad vænta af hans Muñe? Og hvad synest þer ad þu munder talad hafa? Skylde hañ nu, med þvi hañ var komeñ ur þeirra hondum, og þeir kuñu hañum eige framar illt ad giora; skylde han nu, sege eg, hafa hefnt sin a þeim, kallad þa fyrer Guds Doom, formælt þeirra

Vondsku, og brixlad þeim um sitt ogudlegt athæfe? O nej! Vor Endurlausnare var eige þañeg skape fareñ: Nu var sa Time komeñ ad hañ talade og bæde fyrer sinum Ovinum, ad Jorden a sama auga bragde, upplete ecke siñ Muñ ad svelgia þesse Mordingia, edur Elldur felle nidur af Himne til ad tortyna þeim, svo ad þad sem Salomon seger um eitt Ord, talad i rettan Tima, þad megum ver med rettu segia um þad Ord sem Jesus talade a sinum sidsta Lifsens Tima: **Eitt Ord talad i Tima er sem Gull-Eple i Silfur-Skaal** Prov. 25. v. 11. Jesu Ord eru aull sosem Gull-Eple; David seger um aull hans Ord, ad þau seu kærare eñ maurg Stykke Gulls og Silfurs. O! ad vor Hiortu være þær hreinu Silfur-Skaaler, i hveriar þesse Eple mætte leggiast og þar vardveitast.

Job sagde fordum i siñe augist: O! ad mitt Maal edur Ord mættu verda uppskrifud og setiast i Book med Jarnstiil; eñ um þesse sidustu Jesu Ord maa segia med miklu meira rette: O! ad þaug mætte verda skrifud, ja iñskrifud i allra vor Hiortu med Guds Fingre, ad vier þeim alldrei gleymdum.

Þad sem Postuleñ Petur sagde um øll Jesu Ord, þad megum ver serdeiles segia um þesse hans sidustu Krossens Ord: Herra, sagde hañ til hvers skulum vier fara? Þu hefur Ord þess

eilifa

eilifa Lifs. Joh. 6. v. 68. Hañ vilde segia: Vissum ver einhvern, sem hefde betre Lærdoom, kroftugre Ord, saalu hiaalplegre Huggun og vissare Veg til Himensens eñ þu, þa vildum ver þig yfergefa, hvert skulum ver fara? Seg ockur eiñ af morgum, sem ver skylldum hallda oss til. Skylldum ver forlaata þig þa lifande uppsprettu, og giora oss adra Bruña, sem eige kuña vatne ad hallda? Jer. 2. v. 20.

Spyrium i sama maata siaalfa oss, miner Elskañleger, hvort edur til hvers Skulum vid nu fara a þessum kostu-Tima? Hvar skildum vier heldur forlysta vorar Saaler? edur vid stærre Andagt og unadsemd leita vorrar Uppbiggingar eñ i Jesu og hans Orde? Þaug Sio Ord Jesus talade a Krossenum, eru rett Lifsens Ord, þaug voru tolud a Lifsens Daudastundu, og af Lifsens Hertoga sem deide til þess ad giora oss lifande. Þesse Sio Ord eiga ad vera oss dyrmætare og kiærare eñ oll oñur Jesu Ord, ej alleina þessvegna ad þaug eru fram-geingeñ af hans Muñe i hveriuñ eingen Svik eru fundeñ, og oss a ad vera kiærare eñ aller Adrer Muñar, þvi þad kuñum vier ad seigia um oll oñur hans Ord, heldur þessvegna ad þaug voru hans sidurstu Ord; og hans Andlaats Ord; þaug Ord sem ein Mañeskia talar a siñe Daudastundu plaga oss alltid ad vera hugfastare eñ hvor oñur, efter þvi vier vitum ad ein Mañeskia þa talar; af Root Hiartans fy-

rer utañ alt fals, Hræser, og Jferdrepskap, og þessvegna fiñast vyda i Skriftene uppteknud med större Gaumgiæfne, þaug sidurstu Ord þeirra heilogu Guds Maña, sosem Moisis, Josuæ, Jacobs, Davids, Samuels og fleire; hier ad auke so plagar Guds Andi ad auglysa sig hvad kroptugast i Hiortum Guds Barna a þeirra Daudastundu, riett Lyka sem eitt Lioos giefur fra sier skiæra Geitsla nær þad utslocknar; þegar Guds Born eru stödd likasem mille Timans og Eilifdareñar, skiin oft þeirra Truarlios hvadskiærast, og giefur af sier, ei einasta med Hugsvalun i Hiartanu, heldur og med Ordum Muñsens næst fagra Geitsla: Sieu nu daudlegra Maña Ord so kroftug nær þeir deja, hvad munu þa sialfs Guds Ord vera vigtug og kroftug, nær hañ skal deja, þad hafa so morg Guds Born reint satt ad vera, vid ad endurnæra sig med þeim a þeirra Daudastundu; ja þesse Sio Jesu Ord mega vel lykiast vid þær Sio Stolpa, Salomon seger ad Visdomureñ hafe sett under sitt Hus. Prov. 9. v. 1. Þa Josua efter Guds Befalning hafde laated blaasa 7 Siñum i Baasunurnar um: hverfes Borgena Jericho, þa fiellu nidur heñar Murar. Þa Jesus hafde talad þesse Sio Ord, hrundu og Murveggerner nefnelega Laugmaalsens Bolvan og Magt Helvites Jorden; Skalf skalf og titrade þar vid, og hvad skal jeg framar seigia? Oll þesse Ord eru Lifsens Ord. Sa gamle Jacob liet under sitt Andlaat kalla oll

oll sin Born til siin, og sagde: Komed tilsa-
mans þier Jacobs Born og heired ydar Fo-
dur Israel. Gen. 49. v. 1. 2. Hier haanger nu
æ Krossenum ecke einasta ydar Fader, heldur
Eiliifdareñar Fader, komed tilsamans þier Guds
Born, og heired hvad þesse ydar Fader, Frel-
sare og Gud vill seigia, vilium vier ad hañ hei-
re oss i vorre Neid, æ vorre Daudastundu, so
læatuñ oss nu heira hans sidurstu Lissens Ord.
Jotham sagde forduñ; heired mig þier Meñ i
Sichem, ad Gud heire ydur aptur Jud. 9. v. 7.
Mier vyrdest nu sem Jesus i siñe Sæalar ængist
vilie hroopa til vor og seigia, heired mig aller
sem bued i Sion, heired min sidurstu Ord; so
ad jeg heire ydur aptur. Heired min Ord sem
jeg tala æ Krossenum, ad Gud vilie heira ydar
Ord nær þier standed under Krossenuñ. O!
jeg bid, læted hans Hiartans ængist og marg
falda Kvøl hræra ydar Hiørtu til ad heira þes-
se hans sidustu Ord! Jesus hefur so stoora Laun-
gun ad heira vora Raust, vorra Bæna og þack-
lætes Raust: Syn mier þyna æsynd seiger hañ
til siñar Brudar, og lat mig heira þyna Raust,
þvi þin Raust er sæt. Cant. 2 v. 14. O! syn
mier og miñ Bloodbrudgume þyna blodugu
Asynd þvi þyn Raust er sæt, og gledur mina
Sæalu; Og hvorsu gledelegt er ecke hans fyrsta
Ord fyrer alla Sinduga: **Fader fyrergief
þeim, þvi þeir vita ecke hvad þeir giøra.**
Hvar J vier nu yfervega viliuñ.

I. Hvorsu Riærlega hañ bidur fyrer þeim.
II. Hvorsu Nædarsamlega hañ þa afsakar.

Drotteñ hialpa þu! Drotteñ lat þu þad vel lykkast, Amen.

## Utleggingen.

Þad hefur vyst vered næsta vegsamlegt tilsyndar i gamla Testamentenu, þegar sæ ypparste Prestur Aaron, skylde fyrer Drotteñ iñgaanga i þad Allrahelgasta; ad forlika Folksens Sinder einu siñe æ aare; (optar leisdest honum ecke þar iñ ad koma). Hañ var skryddur sinuñ Dyrmæta bunade, og nedañ uñ faldeñ æ Kirtlenuñ voru Biollur og Granata Eple, ad meñ mættu heira Hlioomen þaraf þegar hañ geinge ut og iñ i Helgedoomeñ. Hañ gieck þar iñ bæde med Reikelses-Kier til Uppliptingar i Nadarstoolnuñ, og med Blood til ædreifingar fyrer Nædarstoolnum: Nu hefur Postuleñ Paull sovida vottad, ad þess N. T. ypparste Prestur sie Kristur, og ad þess ypparsta Prests Iñgangur iñ fyrer Fortialded, i þad Allrahelgasta hafe fyrer mindad Kristi Dauda, hefur hañ utþrikkelega sagt oss i Pistlenuñ til Ebr. 9. v. 11. 12. Christur er komeñ þad hañ sie Biskup efterkomande Audæfa,

dæfa, og iñgieck einu siñe i þad Heilaga ecke med Hafra og Kaalfablood, heldur med sitt eiged Blood, og fañ eilyfa Endurlausn. Biollurnar a Aarons Klæduñ nær hañ gieck in i Helgedomen, giefande Hliom fraa sier so aller heirdu, sinast mier vel svara til þeirra Sio Orda sem Jesus talade a Krossenuñ, sem eru þær i vorum Eiruñ, so fagurt klingiande Biollur og yndislegur hlioomur; og sosem Aaron ecke einasta iñgieck med Blood, til at forlika fyrer Folksens Sinder heldur og med Reykelses Kiered, og vier vituñ ad fyrer Reykelsed a adskiliast Bæneñ, sem þessvegna kallast Reykelses Offur firer Drottne; so siaauñ vier i Dag vore ypparsta Prest og einasta Endurlausnara, ad hañ nu fyrer Daudañ a Krossenuñ er fyrer Gud iñgeingeñ, ecke alleinasta med Blood, sitt eiged Blood, i Stadeñ fyrer Kaalfa og Hafra Blood, heldur og med Reikelses Kiered til ad bidia fyrer Folksens Sinder; i Dag i þvi fyrsta Orde hañ talade a Krossenuñ siaauñ vier vore Aaron med sit Reikelses Kier, standa fyrer Naadarstoolnum, og bidia þañveg fyrer olluñ og til allra eilifrar Blessunar: Fader fyrergief þeim, þvi þeir vita ei hvad þeir giora; i Dag siaauñ vier hañ likasem Aaron fordum i gamla Testamenteuu standande med Reikelse imillum þeirra Lifendu og Dauda, so Plaaguñe mætte liña Num. 16. v. 2. ad ecke Guds breñande Reide yfer þessu O-

gudlega Foolks oogudlegu Athæfe og Dæma Lausum̄ Misgiørninge, ad afliita Guds eigen̄ Son, ad ecke seige jeg Guds Reide skylde verda so bræd yfer þvi sem forðum̄ yfer Chore, Dathan og Abyram. Vor ypparste Kien̄e-Madur geingur nu i Dag millum Guds og Þeirra, millum Þeirra Daudu og Lifendu, han̄ stendur hier mille Himens og Jardar, mille Guds og Man̄a, til ad stilla Reidena, og afvenda Straffenu fyrer sitt Blood, sem nu utflaut af hans allraheilagasta Lykama, og med sin̄e fyrerboon sem han̄ nu giorde med sinum̄ blessudum̄ vørum̄: **Fader fyrergief þeim, þvi þeir vita ei hvad þeir giora.** Þetta fyrsta Lifsens Ord æ Daudastundun̄e hofum̄ vier nu æ sett ofs ad athuga, og yfervega þaraf

I. Hversu han̄ bidur fyrer þeim, og
II. Hversu han̄ þær affsakar.

Hvad þvi fyrra vidvjkur, þa koma mier fyrst i huga Pauls Ord, og sie eg þad er satt sem han̄ hefur sagt, **ad Christi Blood tale betur en̄ Abels Blood.** Abels saklausa Blood hroopade Hefnd yfer Cain, so ad siaalfur Gud sagde til hans: **Hvad hefur þu giort? Raustin̄ þyns Broodurs Bloods hroopar til myn af Jordun̄e; Bolvadur siertu af Jordun̄e sem upplauk sinum̄ Mun̄i, og took þyns Broodurs Blood af þin̄e Hendi.**

Hendi. Gen. 4. v. 10. 11, hañeñ talade nu Abels Blood, eñ Jesu Blood talar betur, þad hroopar ecke Hefnd heldur Naad: **Fader fyrergief þeim:** Blood añara er saklauser drepner eru hroopar og lætur ei af at hroopa i Himeneñ, þar til þeß verdur hefnt. Johannes saa under Altarenu Saaler þeirra lyflaatnu og ad þeir kølludu Haarre Roddu: **Drotteñ þu hiñ heilagi hvorsu leinge hefner þu ecke vors Bloods.** Openber. 6. v. 9. 10; þañeñ giører ei Jesu Blood, þad hroopar og lætur ei af ad hroopa fyrr eñ Gud slepper Hefndeñe. Allar hans Bloodædar voru nu opnadar, hans Hendur og Fætur igiegnum̃boradar, hans Blood rañ og streimde nidur af Kroßenum, eñ hvad seiger þaa hans Blood? Hvad talar þad? Þad fyrsta Ord sem hans Blood talar var þetta: **Fader fyrergief þeim! O!** eina gruñlausa Miskun og furdanlega stoora Hogværd; fyrr eñ hañ þeinker til Siaalfs syns, ad befala sina Saal Gude aa Hendur, fyrr eñ hañ þeinker til siña Vina sem stoodu Sorgbitner under Kroßenum̃, jaa fyrr eñ hañ þeinker og talar um̃ Nockurn anañ Hlut, þeinker hañ allrfyrst til siña Oovina, ad hañ faae þaa fridþægt og beded þeim Naadar þad laa honum helst aa Hiarta, þad var og saa hlutur sem eingvañveigeñ maatte undañdra. gast, þvi þad var ad ottast, at Gud ecke leingur kyñe þola ad horfa uppaa sliikt Oogudlegt athæfe.. Nu þa þeir hofdu fullgiort Syndena,

var þad ad hrædast Gud vilde fullgiora Straf-
fed. Nu yferstood sem hædst Pyna vors En-
durlausnara, og Dauden took meir og meir ad
Naalægiast, i hveriu Aasigkomulage Mañeskiañ
plagar ad gleima ollu odru, og þeinkia mest
uppa siaalfa sig, huñ gleimer þaa jafnvel sinum
bestu Vinum, þekker þa varla, jaa maa ei þo
vilde vid þaa tala fyrer Soott og Verkium; Je-
sus þar aa mote aa siñe Daudastundu huxar ei
alleina til siña Vina, heldur siña Oovina, hañ
huxar til Peirra, ecke til Ills, sem David aa
siñe Sottarsæng þeinkte til sins Ovinar Simei,
hañ minntest þess Vonda hañ hafde giort Ho-
num, og þad eingvañveigeñ til gooda, þvi hañ
baud sinum Syne Salomon ad laata ei Simei
koma med Fride i Grøfena. 1 Kong. B. 2. v.
8. 9. Jesus þar aa mote þeinkte uppa siña Oovi-
ne þeim til gooda, honum var þad ei noog, ad
hañ siaalfur fyrergiæfe þeim af Hiarta Peirra
stoora Glæp, heldur bar hañ einkanlega um
sorgun fyrer þvi ad hans himneske Fader þeim
vilde ogso forlaata og fyrergiefa. **Fader fyrer-
gief þeim** seiger hañ; hañ var ei so Siñadur
sem margar Maneskiur eru; þeir kuña ad ko-
mast so laangt, ad þeir ei vilia hefna sin Siaal-
fer, og segiast ad soñu vilia forlaata, eñ Gud
skule betala, segiast ei vilia hefna eñ Gud skule
hefna; þvilikt er ein Sindsamleg Hræsne og
Yferdrepskapur, og ei breitte vor Endurlausna-
re þañig, hañ bæde fyrergaf þeim Siaalfur
og bad siñ Fodur ad fyrergiefa; hefde ei þesse
hans

hans fyrer Bon og ærnadarord komed i Veigeñ, hverſu Munde þad geinged hafa hans Mordingiuñ. Su yfer þeirra hofduñ formirkvada Sool var eitt viſt Merke til þeſs, ad Guds Reide-Skii Took ſaman ad draga, ad Biorgen rifnudu, Grafernar lukuſt upp, og Jordeñ ſkalf, hvad var þad añad eñ eitt augliooſt Teikn, Guds breñande Reide ſynande jafnframt hvilik laun þeir hofdu forþient, og hvorſu ein nalæg Braad Hefnd og oognarlegt Straff þeim var bued: Eñ þvi lætur Gud þad ei framkoma, hvar er nu alt hans ſtraanga Riettlæte, ſem hañ ſo oft plagar ad ſyna? og hvar er nu hans ſtoora Vandlæting? æ nej, jeg kañ ecke, vill hañ ſeigia, jeg mæ einaſta læta mier linda, ad ſina hvad jeg kañ med rettu giora, nær kañ jeg ei ad komaſt, mins Sonar Blood þad hroopar, og hans Bæn heldur mier aptur, hefde hañ ei ſo iñelega beded, O! hvorſu ſkylde jeg ei hafa vid ydur hondlad? So er þæ þeſſe Jeſu Fyrerboon ein Sañarleg Corona allra hans Digda og furdanlegrar Hogværdar; af hans bleſſada Muñe fiell ei eitt ooþoleñmædes eñ ſidur Reide-Ord; han formæler ei i ſiñe Kvol og Aangiſt ſinuñ Fædingardeige, eins og giorde ſæ Þolenmoode Job; nej hañ þeiger leinge, og nær hañ lokſens talar heiter þad, Fader fyrergief; han hafde nu ſo leinge geinged uñkring, giort Ollum gott, Einguñ illt, eñ hans Fætur og Hendur, ſem hañ hafde þar tilbrukad, voru nu bundnar, og med Jaarn Nogluñ vid

Kroſſeñ

Krossen festar; Tungan var einasta Laus og Lidug, med henne vilde hann giora gott, þar hann gat þad ei med ødru, med henne huggade hann sina Moodur, med henne hughreiste hann Ræningiann, og med henne bad hann fyrer sinum Ovinum; O! einn Oranssakanlegann Miskun semdanna Afgrunn! Þeir særdu hann, hann vilde lækna þaa, þeir aflifudu hann, hann vilde giora þaa lifande, þeir hotudu hann, hann elskade þaa, þeir giordu honum þad versta þeir kunnu, hann bad fyrer þeim, þad beste hann kunne; þeir vildu ei burtganga fyrr enn hann være Daudur, og hann vilde ei deja fyrr enn hann hafde fridþægt þaa vid Gud! Hann seiger allrafyrst, **Fader!** þetta Ord Fader var þad fyrsta Ord hann nefnde aa Krossenum, þad var og þad sidarsta med hverju, hann endade sitt Lif aa Krossenum. **Fader i þinar Hendur fel eg minn Anda;** i þvi fioorda Orde hvar Jesus talar umm sig sialfann og sina Pinu, þaa kallar hann ecke Gud sinn Fodur, heldur sinn Gud. **Minn Gud! Minn Gud! þvi hefur þu yfergiefed mig!** Enn þa hann talar og bidur fyrer sinum Ovinum, þa brukar hann þad Ord, **Fader!** ad hann þvi naakvæmara mætte hræra Guds Hiarta. **Fader fyrergief þeim!** Hann vilde seigia: Jeg hefe eina Bæn til þin kiære Fader, aadur enn eg dej, einne dejande Manneskiu plaga, menn ei ad sinia sinnar Bænar, so vona jeg ad þu sinier mier ei minnar; Nej **Fader! þu hefur ætyd** heirt

**heirt mjna Bæn.** Joh. 11. v. 42. Miñſt þeſs ad þu ert miñ Fader; æ **Fader fyrergief þeim.** Sieu þeir ſøkum ſins Ogudlegs athæfes þyner Ooviner, þa ertu þoo miñ Fader, lát þitt Fodur-Nafn, lát mitt Sonar Nafn gáuga þier til Hiarta, ad þu ſiiner Nad og Miſkun þeſſum minum Kvølurum; þad er ad ſoñu ſatt, jeg hefe lided þeſſe Saar af þeim, og þad er þeirra Synd, eñ ælſt þad ogſo, at jeg hef feinged þaug þeirra vegna og fyrer þeirra Skuld, lát þaug þarfyrer vera þeirra Fridþæging! Þad ſyneſt riett ſem Jeſus hafe geimt ſier þeſſa Bæn þar til hañ hafde feinged øll ſin Saar, og ad þaug nu øll voru opeñ, nii og driupande, þa for hañ ad bidia, og þad ei med morguñ Ordum, þvi nu ſkyldu hans Saar tala meir og framar eñ hans Ord, hañ ſætte þeim allra hentugaſta Tima, hier til, nu þa hans Saar vardu og toludu under eins; hañ bad og ſo án alls Forords; eñ þa hañ bad fyrer ſialfañ ſig, bad hañ med Fororde: **Fader ef þu vilt, þa tak þeñañ Kaleik fra mier, þoo ecke miñ, heldur verde þeiñ Vilie;** hañ ſeiger ecke Fader ef þu vilt, ſo kañtu ad fyrergiefa þeim, heldur **Fader fyrergief þeim.** So elſkurikt ſem nu þetta Orded hans er, **Fader**, ſo Nardarikt er þad Ord **Fyrergief.** Þeir hroopa yfer Honum, Kroſsfeſtu, Kroſsfeſtu hañ; hañ hroopar yfer þeim, **Fyergief, Fyrergief þeim.**

þeim. Þeir færdu hañ fyrer eir Rang
lætan Domara og æklogudu hañ falskelega, hañ
þar æ moot færer þa fram fyrer eiru Nardugañ
Fødur, og bidur fyrer þær iñelega, hver hefur
heirt þvilika Elsku og Kiærleika? Øllu þvi illa
sem þeir hofdu forþient, allre þeirre Ølukku,
sem yfer þeim hieck, og ollu þvi Straffe sem
þeir Sialfer ooskudu sier, vilde hañ eirn afven-
da, þeirra Hendur nærdu nu ei leingur til ad
slæ hañ, edur þeirra Muñur til ad hrækia æ
hañ, þeir giordu samt hvad þeir gætu, þeir
skooku hosudeñ yfer honum, þeir gnistu samañ
toñunum af Grimd, jæ þeir leitudu lags ad
storka hañ upp med sinum Hæadyrdum. Svei
hvørsu ægiætlega nidurbritur þu Mu-
stered. Ef hañ er Guds Sonur, hiælpe
hañ sialfum sier; bidum vid lætum siæ hvort
Elias kiemur ad taka hañ ofañ. J ollu þessu
þa þeir eñ nu giordu honnm allt þad Jllt þeir
gætu, bad Jesus fyrer þeim, Fader fyrer-
gief þeim, betur gat hañ ei fyrer þeim beded,
Fyrergiefningeñ er þad allrastærsta og besta Gud
kañ ad audsina einum Sindara, hun er su all-
rastærsta Sæla Madur kañ sier ad æskia;
þarfyrer seiger David Psalm. 32. v. 1. Sæll
er sæ Madur hvers Synder eru fyrer-
giefnar. Um añad betra gietur ei Mañeskiañ
beded Gud og añad betra kañ hañ heñe ecke ad
veita, eñ Fyrergiefning Sindaña: Sæ krap-
tur sem var i Jesu Dauda og Pjnu hana ad
afreka,

áfreka, skilde sig nu allrafyrst augljsa œ þessum storu Sindurum, fyrer hverium hañ nu so iñelega Fyrergiefningar bidur hiœ sinum hiartkiæra Faudur. Eñhver er þœ su retta Meining i þessare Jesu Bæn? Þeir foru fram i Forherdingu, eñ mun hañ hafa viliad, ad Gud skylde strax utsletta þeirra Sind? Vilde hañ ad Gud skylde fyrergiefa þeim siñ Misverknad, eñ þo þeir hañ ei þeckia nie medkieña vildu, þad sie langt fra! Jesus kuñe ecke ad bidia um þad sem aldeiles var gagnstædt Guds heilaga Vilia og Veg Sœlu hialpareñar. Gud fyrergiefur aungvum Mañe hans vitañlegar Synder œn Jdrunar og Yfer-Bootar; Johannes seiger: Ef nockur sier siñ Brooder sindgast ein hverre Synd, eigi til Dauda, sœ mœ bidia, og mun hañ giefa þeim Lifed, er Sindgadi ecke til Dauda. Þar er Synd til Dauda, eg seige ecke, at Nockur fyrer henne bidie. 1 Joh. 5. v. 16. J þessum Ordum synest mier Postuleñ giore Greinarnum œ Breiskleikans Syndum, sem Gud tilreiknar ecke þeim truudu, og daudlegum Syndum fyrer hvoriar giorast hlytur ein stærre Jdran, œdur eñ þær fyrergiefnar verda, eñ synest þad ad vera nockud hart, ad Madur meige ei bidia fyrer þeim er dria Daudlegar Synder, so lœtum oss athuga um hvoria Bæn Johannes hier talar; hañ talar um vissu Mañsens uppœ Bænheirsluna, þarfyrer seiger hañ: Ef vier

bidium Nockurs epter Guds Vilia, þaa heirer han oss, og vier hofum þær bæner, hvoriar vier høfum beded af honum. 1 Joh. 5. v. 14. 15. Þarfyrer ef vor Brooder fremur eina Synd, eige til Dauda, heldur af Breiskleika, af Vanvitsku edur ovitande og vier bidium fyrer honum, ad Gud vilie fyrergiefa honum, og ei tilreikna þar somu Synd, so hofum vier vora Bæn, Gud fyrergiefur þeirre Maneskiu sina Synd fyrer Saker vorrar truadrar Bænar, þoo aldrej vite su Maneskia þar af ad hun hafe syndgad, og þessvegne kune ei sina Synd sialf ad afbidia. En drige nockur Synd til Daudans, edur vitanlega Synd, fyrer þeim seigie jeg ecke ad þier skul ud bidia, seiger Johannes, þad er adskilia, ecke soleides sem fyrer hinum odrum, ecke ad Gud skule ogso fyrergiefa honum hans Synd aan Jdrunar og Yfer-Botar; þvi þad er ad bidia moote Guds Vilia, þad er ad bidia ei aa þann haatt, ad vier kunnum vera visser um Bænheirsluna, en þvi neitar hann ei, ad vier meigum bidia Gud ad giefa þvilikum Naad til Umvendunar; hier af Kunnum vier þaa adskilia, hver ad sie su rietta Meining i þesare Bæn vors Endurlausnara, ecke ad Gud skylde fyrergiefa þeim þessa Synd, sem var vissulega til Dauda, hvert sem þeir giordu Jdrun edur ecke, heldur bidur hann i fyrstu, Gud vilde giefa þeim Tima til Jferbotar, hann bidur Gud ad laata ei sinn

stranga

stranga Riettlætes Dom strax yfer þar gaunga, ad hañ nu ei i siñe bræde Vilie þa uppræta, sem þeir forþienad hefdu, midt i þeirra Syndum, ædur eñ þeir feinge Stund og Tima til Umvendunar; ad þetta sie Meiningeñ i þessare hans Bæn, þad hefur hañ oss sialfur kiendt i Efterlikinguñe um Vingards-Mañeñ, sem strax vilde upphøggva þad Aavaxtar-Lausa Tre. æ! Nei Herra, laat þad eñ nu standa eitt Aar, ef ad þad vilde so ævøxt færa. Luc. 13. v. 8: Og ad visu var þesse Jesu Fyrerboon Orsok til þess, ad Gud þar efter i Heil 40 Aar beid med Straffed, ædur eñ hañ liet sina riett visa Hegning gæanga yfer Jerusalem og heñar Iñbiggiara. Þarnæst vilde Jesus ei einasta afreka þeim Tima til Umvendunar, heldur og Naad til Umvendunar, ad Gud ei i Reide vilde snua fra þeim siñe Aasioonu, ecke eñ nu siñ Anda, sitt Ord og Medøl Saaluhialparenar fra þeim taka, heldur eñ nu nockur Aar, nockurn Tima tilbiooda þeim Naadena, og þessvegna hefdu Postularner Befalning efter Christi Dauda, ad boda Evangelium fyrst Gidinguñ, hvar vid morg þusund af þeim leiddust til Umvendunar, hveria Naad þeir odludust alleina fyrer þesse Jesu Aarnan og Fyrerboon. Ad sidurstu vilde Jesus med þessare siñe Fyrerboon afreka þeim ei einasta Tima, ei einasta Naad til Umvendunar, heldur og sialfa Fyrergiefninguna, med þeirre Ordu og Atride, ad so marger sem sier snueru og bruka vildu þañ yvorunar Tima er

þeir fyrer þessa Jesu Bæn ødlast høfdu til Velferdar þeirra Salum, so marger af þeim skyldu vissulega verda Saluholpner; med einu Orde: Jesus bad þesse þeirra hrædelega og vidurstiggelega Synd hvorrar like aldrei skied, ellegar heirst hefur ei mætte hindra edur fra þeim taka þaa Naad og Naadarmedol sem Gud aṅars plagar ad uṅa ødrum̃ Syndurum̃, jafnvel þo þeirra afbrot og yfertrodsla være laangtum̃ stærre eñ aṅara, hañ bidur ad ei aalyteſt Haatign Persoonuṅar aa hvorre þeir hefdu sig forgriped, ad þad mætte þoo ei framar reiknast þeim til eñ þoo þeir hefdu giort þad vid anañ Otignare, þvi hier ad luta þaug Ord er hañ seiger, **þeir vita eige hvad þeir giora**, þad er, þeir vita ei riett, hvad og hvor jeg er; ad Gud vilde ei vid þaa hondla, sosem þaa er hans eigeñ Son høfdu aflyfad, heldur sem þaa er høfdu myrdt einhvoria adra saklausa Mañeskiu, hvorium̃ stoorbrota Mañeskium̃ Gud eñ nu aa þessum̃ Døgum̃ plagar ad tilbiooda sina Naad, og giefa Tima til Jdrunar.

Vier hofum so yfervegad, hvad elskurikt ad sie þad fyrsta Ord i þessare hans Bæn, Fader: og hvad Naadarrikt þad aṅad Ord ed er, **fyrergief**: hañ bidur; **fyrergief þeim**. Vier vilum̃ þaa hier nærst athuga, hvad vidt þetta Ord **þeim**, nær og til hvorra Jesus mune þad talad hafa: Vist og oefaṅlegt er þad, ad hañ hefur þarmed meint alla, þaa er hañ Krossfestu,

alla

alla þar sem hañ hæddu, alla sem hroopudu Krossfestu, Krossfestu, fallsvottana sem bæru Falsvitne at mote honuñ, Pilatum sem fordæmde hañ, Hofudprestana sem voru upphaf og Orsok til alls þessa, med einu Orde, alla þa sem i Huxunuñ, Orduñ og Verkuñ hofdu at einhvorn Hatt auglyst sig ad vera hans Ovi- ner, þeir aller eru iñefalder i þessare Bæn, Fader fyrergief þeim, hañ seiger ei fyrergief minuñ Ovinuñ, O! nej, þar var oldunges eingeñ Ovinskapur i hans Hiarta, sosem þeirra. Fader fyrergief þeim: Hañ kuñe ei ad kalla edur halda þar fyrer Ovine, fyrer hvoria, hañ vilde nu deja og fyrer hvoria hañ nu var ad frambiooda sitt Blood til Forlikunar.

Eñ mun nu þesse Jesu Fyrerbon ei ogso heira os til? Hofum vier eckert hiaalpad til hans Dauda, so heirer hun heldur oss ecke til, eñ med þvi þad er vist og Omotmælanlegt, ad vier aller hofum vered Orsok i hans Dauda, so eiguñ vier aller hlut i þessare hans Fyrerbon, þvi hañ seiger ecke, fyrergief þessum sem eru hier tilstadar, þessuñ sem i Dag hafa so illa breitt og hondlad imoot mier, heldur fyrergief þeim ollum sem hafa hlutdeild i þessuñ minuñ Dauda. Nu miñ Vin hofuñ vid þa ei vered Orsok i þessuñ hans Dauda? Er ecke hvor Synd vid drigt hofuñ eiru Nagle i hans Krosse? Þyrner i hans Coronu? Ein Svipa at hans Hrigg? Gidingarner logdu ad soñu Hendur at Jesum,

eñ hefdu ei vorar Synder aasamt þeirra, jaa alrar Veraldareñar Synder þad giert ad hañ vilde deja, og hefde Gud ei alycktad ad þad mætte skie, so hefdu þeir ei maatt snerta eitt haar aa hans Høfde; þar fyrer so marger sem eru Syndarar so marger eru seker i þessum hans Dauda, og þessvegna i þessare hans Fyrerbonarnaad iñeluktez, hañ hefur fornfært sialfum sier fyrer alla seiger Paulus Ebr. 2 v. Eñ fyrer so marga hefur hañ beded, þad er fyrer alla Meñ sem fra Adam lifad hafa, og hierepter til þess sidarsta Dags Lifa munu. Not þessarar hans Fyrerbonar naa vissulega til allra sem þeim þar med afrekadre Nad ei sialfer þverudarsamlega mot þægia og hafna. Hier ad auk so hefur Jesus med þessum sinum Bænar Ordum, **Fader, fyrergief þeim!** Skriftena uppfyllt, sialfur sem saa ypparste Prestur med Blood iñgeinged, og beded fyrer Folksens Synder, hañ hefur offrad Bænum med sterku Kalle og Taarafollum Ebr. 5. v. 2-10, med Spillvirkium er hañ reicknadur, hefur bored margar Synder, og beded fyrer yfertrodslumoñumum Esa. 53. v. 15, og þetta er nu sovidt Jesu Fyrerbon ahrærer.

J añañ Stad vilium vier og yfervega, hversu hañ ei einasta bidur fyrer þeim, heldur og leitast vid ad affaka þaa. Han seiger **fyrergief þeim, þvi þeir vita ei hvad þeir giora.** Saasem bidur fyrer añañ plagar einasta ad framfæra

færa alt hvad heldst hañ veit og gietur þeim ses-
ka til afbøtunar, eñ um̃ sialfañ misverknadeñ
þeiger hañ, og sama giorer hier Jesus, þeir
høfdu litlu ædur hropad, hans Blood kome
yfer oss og Born vor, eñ Jesus hroopar at
moote, **þeir vita eige hvad þeir giora;** hañ
vill seigia: Æ! Fader, agta ei, hvad þeir sei-
gia, þeir eru rasande og fra sier numder, þeir
vita lited hvad þeir seigia, og skilja ei hvørs
þeir Oska. **Fader fyrergief þeim, þvi þeir
vita ei hvad þeir giora.** Eñ hier mæter oss
þrent sem vier vilium ad giæta 1. hvort þad
kuñe ad affaka þeirra Synd ad þeir ei vitad ha-
fa, hvad þeir giordu? 2. Hvort þeir þad ei
vissu? og 3. Hvert þesse assokun og Bæn kom
þeim til nockurs Gagns og Nytsemdar?

Hvad þvi fyrsta vidvjkur hvort þeirra þe-
ckingarleise kuñe þa aldeiles assaka? Hvort þeir-
ra Faavitska kuñe ad afreka þeim nockra Fyrer-
giefning? og hvort Gud var skyldugur ad fy-
rergiefa þeim þessvegna, at þeir ei betur vissu,
sem so af Christi Ordum̃ syneſt rauda meiga.
**Fader fyrergief þeim, þvi þeir vita ei
hvad þeir giora.** Han leggur þad sem
eina Orsok til, hvarfyrer þeim skilde fy-
rergiefast. Þaa er þad vist, ad þeirra þe-
kingarleise ecke kuñe affaka þa, þvi þeir bæde
maattu og aattu ad vita þa Sok betur, og sa-
ñarlega vissu þeir þad, ad þeir giordu Oriett,

þad var þeim so oft sagt, hvar Jesus var, hañ seiger sialfur, hefde jeg ecke sagt þeim þad, so hefdu þeir eingva Synd, eñ nu hafa þeir ecke þad þeir afsake Synd syna med Joh. 15. v. 22. Þarfyrer brukar Jesus þetta Ord, ecke so sem eina Orsok fyrer hvoria þeir hefdu Fyrergiefning verdskuldad, heldur miklu framar sem eina hrærande Orsok til Medaumkuñar hiaa Gude, ad þeir ecke visse sialfer, hvad stor þeirra Synd og Olukka være. Þesse þeirra Vanvitska var framar Orsok til ad Jesus vilde bidia fyrer þeim, eñ til þess, at Gud skylde fyrergiefa þeim. Hañ afsakar hier med framar sina Bæn eñ þeirra Synd. Hañ vill seigia; þoo þesse þeirra driigda Synd sie nu so stoor og mikel sem hun er, þaa samt maattu ei misvyrda, þad fyrer mier, hiartkiære Fader! ad eg bid fyrer þeim, þeirra mikla Ogiæfa Knyr mig þar til, þvi þeir vita þo ei sialfer, hvad þeir giora, hvorsu illt þad er sem þeir nu adhafast.

Hvad þvi odru vidvikur; hvort þeir vissu þad ecke? Hvorsu Jesus hafe maatt med soñu seigia, ad þeir ei vissu hvad þeir giordu? Vissu ei Hofudprestarner af, ad hañ var Saklaus? Hofdu þeir gleimt sinum Kaupskap vid hans Svikara, og ad þeir sialfer hofdu frañleidt Falsvotta aa mote honum? vissu þeir ei i þeirra Samvitskum, ad alt þad þeir aakiærdu hañ fyrer var Lige? Hvorneñ kuñu þeir þaa ad afsakast med Vanvitsku? Medkiende ecke sialfur

Pilatus, ad hañ var Saklaus? Vissu ecke Stridsmeñerner ad þeir pyndu Jesum meir og framar eñ þeim var befalad? Vissu þeir ei ad þad var Oriett ad giora einum Sakamañe meir Illt, eñ sem hans Domur hlioodar? og hvar fundu þeir þad i Jesu Doome, ad þeir skildu spotta hañ, hrækia a hañ, giefa honum pustra, þyrnum kryna hañ? so hvort sem meñ liita, þa maa auglioslega siaa og fiña hiaa þeim hatursfullañ Asetning meir eñ Faavitsku; eñ hvar fyrer munu þeir þa af Christo soleides vera affakader? Hiertil kuñum vier svara, ad þeir bæde hafa þad vitad, og ecke vitad, þar var eingeñ af þeim sem ecke visse, ad Jesum skiede Oriett, ad þeir giordu Synd; eñ þad vissu þeir ei, hvorsu stoor so Oriettur og su Synd var, þeir vissu hañ var Saklaus Madur, eñ ad hañ være allsvaldande Gud, vissu þeir ecke, og sosem hier voru adskiliañlegar Personur, adskiliánlegar Stietter og Folk tilsamanskomed, Gidingar og Heidingiar, andlegrar og verdslegrar Stiettar, yferbodner og undergiefner, so var og þeirra favitska adskilianleg, hiaa sumum meire, sumum miñe, eñ efter stærd þeckingareñar fer Stærd Syndarenar. Stridsmeñerner sem hañ Krossfestu hafa ad likendum vered Ofroodaster i þessu, og hafst þessvegna þaa miñstu Synd, þeir voru Heidingar, og Romverskt Stridsfolk sem lited edur eckert hafa vitad ad segia um Jesum edur Messiam, þartil maattu þeir giora sem þeim var befalad, þeir hafa af Dom-

num̃ aalicktad, hañ mætte þoo vist vera sekur, jafnvel þo þeir af Kringumstædunum̃ merkia mættu, ad hañ være af hatre ofurseldur, þeir saau ad soñu hvorneñ þad gieck til, eñ þeir þeinktu þad være ei þeirra Sok, þeir mættu þad aabirgiast sem hán dæmt hefdu, hañ mætte þoo ei vera aldeiles Saklaus; þeir hafa af ollum sidst vitad, hvad þeir giordu, hvarfyrer Jesus og i siñe Bæn hefur sierdeiles til þeirra meint og fyrer þeim beded. Þarnæst var ogsu Veraldlega Stietteñ Orsok i Jesu Dauda, saa mikle Skare Gidinga sem med sinu hroope baadu honum̃ Dauda, og med soddañ Grimd skooku siñ Hofud yfer honum, eñ hiaa þeim fiñst ogso faavitska, þeir voru tælder og lockader hiertil af þeim ædstu Prestum̃, þeir þeinktu, ad kieñemoñum̃ være tiltruande um̃ þaug riettu truarbrogd, þegar þeir hieldu Jesum ad vera Villumañ, so mætte hañ ogso vera þad, þeir hafa vist meint ad hans Lærdomur være falskur, og j mote Logmalenu, þokte þeim þvi ad þeir mættu vel til þess stilla, ad hañ yrde aflifadur: J þessare Veraldlegu Stiett-aatte Pilatus einkañlega heima, hiaa honum var ei ad sia so stoor Faavitska, hañ hafde sialfur rañsakad Maaled, og fañ eingva Daudasok med Jesu, hañ visse sialfur, sosem þar stendur, ad þeir ædstu Prestar hofdu af Hatre ofurselt hañ, þo var þar ogso hiaa honum̃ ad fiña Faavitsku, hañ hefur maatt þeinkia, ad Jesus være þo ei med ollu saklaus, epter þvi aller liksem med einum̃ Muñe aaklogudu

du hañ. J Maalenu framkomu og nockrer Postar seir syndust hættuleger, hvorium Jesus ecke vilde neita, nefnelega ad hañ hefde giort sig sialfañ ad Konunge, sagt sig ad vera Guds Son; Hvad alt Pilatus epter sinuñ Heiding leguñ Skilninge hefur meted ad vera stoorar Saker, þo þar j margañ mata maa fiñast hiaa honuñ vanvitska, og þessvegna seiger. Jesus: **Fyrer þvi hefur saa meire Sind, er mig ofurselde þier.** Joh. 19. v. 11. Þad tor veldasta Spursmaal synest ad vera uñ þar andlegu Stiettena, þaa yppurstu Presta, Pharisæos og Skriftlærda, hvort þad kuñe eirneñ uñ þa ad seigiast, ad þeir ei vissu hvad þeir giordu: Þeir vissu sialfer, ad þeir einasta af hatre ofsoktu Jesum, epter þvi hañ hafde opeñberad þeirra Hræsne og Ogudlegt athæfe, þeir ottudust einasta, ad þeirra Metord og Jñtekter Mundu af sier ganga ef hans Lærdomur feinge Framgang. Nicodemus hafde sagt under allra þeirra Nafne; Meistare! vier vitum ad þu ert eiru Læremeistare, komeñ af Gude, þvi eingeñ kañ ad giora þaug teikn sem þu giorer nema Gud sie med honum Joh. 3. v. 2. Jesus hafde einu siñe Sialfur hroopad i Musterenu, þier þeckied mig og vited hvadañ jeg er. Joh. 7. v. 28, hvorneñ kañ hañ þaa hieruñ þa segia, þeir vissu eige hvad þeir giordu; jeg medkieñe, ad þeirra Faavitska var miñst, og ad þeir drigdu Syndena med hiñe stærstu Forherdingu, þeir vissu fyrer vist, ad hañ var Spaamadur, utsendur

sendur af Gude, ja þeir flestu af þeim vissu eirneñ ad hañ var Messias, sem uñ var spaad, þo samt syneft sem i þessuñ eina Post hafe vered hiaa þeim ein slags Faavitska, edur ein olioos og ofullkomeñ Þecking, so þeir hafe vitad nockud hieruñ, eñ ei sosem þad var. Þeir vissu, ecke ad Christur var Guds Son, þvi þad giefur hveriuñ einuñ adskilia, ad hefdu þeir þad vist vitad, so hefdu þeir ei lagt Hendur aa hañ, þessvegna so oft sem hañ sagde, hañ være Guds Sonur, hroopudu þeir, hañ Gudlastar, og þarfyrer seiger ogso Petur: Nu veit jeg Brædur ad þier hafed giort þad Ovitande, likasem jdar Hofdingiar Post. gier. B. 3. v. 17, og Paulus seiger: Ef þeir hefdu þeckt hañ, þa hefdu þeir ei Krossfest Drotteñ Dyrdareñar. 1 Cor. 2. v. 8. Þeir vissu ad þeir voru Mordingiar, ad þeir uthelltu saklausu og heilogu Bloode, eñ ad þad var guddomlegt Blood, efast jeg miked ad þeir hafe vitad, þeir vissu ad þeir drigdu eina ofbodslega Synd, eñ ei hvorsu ofbodsleg hun var, og aa þeñan veg, sem þañ mildasta er verda kuñe, tekur nu Jesus þeirra Synd, og fær sier Orsok af þessare þeirra Faavitsku ad bidia fyrer þeim; og sosem jeg hefe þess aadur miñst ad vier sieuñ ogso i þessare Jesu Bæn iñelukter: **Fader fyrergief þeim**, so heira oss og þesse Ord til: **Þeir vita eige hvad þeir giora.** Vier voruñ eingu sidur eñ þeir seker i Jesu Dauda, eñ þo Ovitande, þvi vier voruñ þaa ei til og kuñuñ ei vita, ad vier hofduñ vered

red med ad Krossfesta Guds Son, og ei einasta þetta; heldur kañ þad ogso ad heita i voruñ ødruñ Synduñ, **þeir vita eige hvad þeir giøra**, jafnvel þeir sem sindga af äsettu Raade og vita ad þeir giøre illt, þä er þar þo hiä þeim ad fiña nockurskonar Vanvitska og Pecking arleise, þeir vita ei, þeir ætla ei, ad þeirra Synd sie so stoor; O! ef ad Syndararner vissu hvad þeir giøra, og hvad stoorar væru þeirra Synder, vissu þeir hvorsu þeir med þeim topudu, Gude ur Hiartanu, Jesu ur Saalune, og þar til allre Huggun, allre Hvild, allre Saaluhialp; vissu þeir j hviljka ogiæfu þeir sier steiptu, og vildu hugleida ad þeir vid Syndernar Krossfestu Jesum ad nju, og trædu Saattmalans Blood under Fotunuñ, O! þad være ei mogulegt, ad þeir hefdu Hug til ad giøra þad Vonda, eñ þeir vita þad ecke, og ætla þad ecke, og framfilgia so blindt þeirra eigeñ Vilia; visse Syndareñ hvorsu snart hans Syndamæling kiñe ad verda uppfild, hañ munde þä vel taka sier vara ad uppfilla hana med soddañ äkiefd, og leggia Synd ä Synd ofañ.

Ad sidurstu Viliuñ vier athuga, hvørt þesse Jesu Fyrerbon hafe fært äavøxt, og orded þeim til Nota; ad hañ hafe ei Bænheirslu odlast er Omøgulegt, þvi hañ seiger Sialfur: Fader jeg veit ad þu heirer mig Jafnañ. Joh. 11. v. 42; þarfyrer seiger Paulus, ad hañ hafe offrad Bænuñ og beidne med oflugu K--e og

Taaraf-

Taarafollum̃, og sie eirneñ bænheirdur. Ebr. 5. v. 10. Eñ munu þaa aller sem hafa Kross-fest Jesum, hafa orded Saaluholpner og od-last qvittun Syndaña? Þarum̃ mætte efast: Jesus kuñe ei sem adur er sagt, bidia um̃ no-ckra þaa hlute sem motstriddu Guds Dyrd og hans Riettlæte, hañ bad þeim Saaluhialpar, efter heñar riettre Reglu og nidurradan, ad Gud vilde giefa þeim Tima til Um̃vendunar, og ad ollum þeim veittest Fyrergiefning, sem þenañ Naadartima vildu fæta sier til nota, og j þañ mata er hañ vissulega bænheirdur, so ad marger af þeim, sem hofdu uthelt Jesu Bloode, voru sidañ hreinsader i hans Bloode; marger af þeim urdu og hluttakande i þessa sama Bloods stoora Kraft, þad beid ei heldur leinge ad þesse Jesu Fyrerbæn auglyste siñ Kraft og Verkan. Hofudsmadureñ under Krossennm̃ gaf Gude Dyrdena, og sagde: Sañarlega er þesse Guds Sonur. Folked sem stod þar hiaa, barde sier aa briooft, og snere heim aptur, ad eg ei tale um̃ Gidingana, sem morgum̃ þusundum̃ samañ sidañ tooku vid Truñe, og ad jafnvel marger Prestar giorduft Truñe hlyduger. Post. g. B. 6. v. 7: Hvad alt vissulega var aavoxtur þessa-rar Jesu Fyrerboonar, og fyrer þessa hans Bæn og uthellta Blood odlast eñ nu i Dag aller yd-rande Syndarar Guds Naad og qvittun Syn-daña.

Þetta

Þetta er soleides yfervegaduñ Jesu fyrsta Lissens Ord a Lissens sidstu Daudastundu: Eñ ad þad giere orded oss ølluñ ad hiaalpsamlegu Lissens Orde, so meiguñ vier vita, adfæra oss þad til Lærdoms, Trausts og Huggunar. Vor Lærdomur skal vera saa: ad soframt vier viliuñ verda hluttakande i þessare Jesu Fyrerboon, þessu Lissens Orde, soframt vier viliuñ ad Jesus eñnu þar hañ situr til Guds hægre Handar skule framgaanga og bidia fyrer oss; ef vier viliuñ, ad Jesu Blood skule fyrer oss tala uñ Naad og Fyrergiefning, so meiguñ vier vita, ad þesse hans Fyrerboon er oss eins vel til efterdæmes sem Fridþægingar, ad vier fyrergiefuñ voruñ Naaunga hans Breste, ad vier ecke hostuñ hañ þad miñsta i voru Hiarta, ad vier ei gioruñ meira ur hans Synd eñ hun er, heldur Læruñ af þessu Jesu Efterdæme ad færa fyrer honuñ alla hlute til betra Vegar, sovidt skie kañ, og assaka hans aavirdingar; vier eiguñ ad laata oss til Hugar koma, ad med þeim sama Mæler sem vier mæluñ odruñ ut, skal oss aptur iñ mælt verda; eñ allrahelst eiguñ vier af þesse Jesu Efterdæme ad læra, ad bera ei hatur til nockurs edur hefna vor Sialfer; Fyrergiefed, so skal ydur fyrergiefast, og þad einkuñ og serdeiles þegar vier skuluñ ut af Verolldeñe: Ecke laata Solena undergaanga yfer vorre Reide, og Gud varveite oss fraa, ad Lissens Sool oss undergaange fyrr eñ vier eruñ vid allar Mañeskiur velsorlikter. Vier hofuñ maskie ef

riett

riett ad giætum̃ meir ad þacka vorum̃ Ovinum̃, eñ vorum̃ Vinum̃. Vorer Viner hræsna fyrer oss halda med oss, og þeirra Vinskapur giorer oss athugalausare, vorer Oviner giora oss þar at mot gott, þeir koma þvi til Vegar, ad vier hegdum os forsiaallega, þeir giora þad, ad vier tökum̃ os vara, og oft og tidum̃ þa vorer Viner eru sem Sporar til vors eigeñ Vilia og hættusamlegs Sialfrædes, þaa eru vorer Oviner sem Bitell og beitsle ad halda oss aftur. Skulum̃ vier þaa ei giora þeim gott, sem vier hofum̃ gott af, og þiena oss til gods, eñ þo þad sie aa moti þeirra eigeñ Vilia, og bidia fyrer þeim? Hvar til bæde Guds Ord, og þetta Jesu Efterdæme oss skuldbindur; þarfyrer seiger Petur: Hañ hefur lided fyrer oss, og oss eitt Efterdæme efterlaated, ad vier skyldum̃ efterfilgia hans Fotsporum̃. 1 Petr. 2. v. 21. Vorer Oviner hafa langt fra ecke giort oss so miked illt, sem þeir giordu honum̃, þeir hafa ei ennu Krossfest oss, ecke ennu teked Lif og Æru fra oss, og þo þeir hefdu giort þad, þa er so langt fra ad vier kuñum̃ jafnast vid Christum, hañ er Gud, eñ vier syndugar Mañeskiur, laatum̃ Motgiordernar vera þærsomu, mun Syndeñ samt ei vera stærre þess tiignare Persónañ er sem er aa mote broted? Eñ viliuñ vier segia, ad þetta Efterdæme sie oss of haatt, þvi hañ hafe vered allsvaldande Gud, eñ vier sieum̃ vesælar Mañeskiur, þa er þad Jafnañ so fyrer oss, ad vier kostum Skuldene uppa Vanmaatteñ, þar oss þo meira van-

tar

tar uppa Viliañ. Gietum̃ vier i þessu ei efter-filgt Jesu, so efterfilgium̃ þo þeim, sem eins vel hafa vered Mañeskiur og vier erum̃; filgium̃ Mosi, sem bad so heitt og iñelega fyrer Israels Folke, er modgade hañ so tidt; filgium̃ Stephano, hañ var og Mañeskia, hvor þa hañ var Griote-Lameñ, fiell hañ aa Knie, og sagde: Drotteñ tilreikna þeim ei þessa Synd! Post. g. B. 7. v. 60, samt audrum̃ fleirum̃ er i þessu hafa vered Jesu Efterbreitendur, þarfyrer seiger Paulus: Vered miner Efterfilgiarar, sosem jeg er Christi. 1 Cor. 11. v. 1. Nær vid nu soleides laatum̃ Jesu Fyrerbon vera oss til Efterbreitnes og Liifsreglu, so skal hun og so i aññañ Maata vera oss til Obifanlegs Traustz og Huggunar. O! þad er oss ollum̃ ein eilif Hugguñ, ad vier vitum̃, ad Jesus eññu daglega bidur fyrer oss, hañ byriade ad bidia fyrer oss i Lifenu; jeg bid fyrer þeim, sem þu hefur giefed mier og ecke alleinasta fyrer þeim, heldur og ollum̃ þeim sem fyrer þeirra Ord munu aa mig trua. Joh. 17. v. 20. Hañ hielt vid ad bidia fyrer oss fram̃ i Daudañ, sem vier i Dag heirt hofum̃, og ad sidurstu er hañ til Himna uppfareñ, ad bidia fyrer oss, sosem Postuleñ Paull vottar. Hañ er til hægre Handar Gude, og bidur fyrer oss. Rom. 8. v. 34, og Johannes seiger: Ef nockur Syndgar þa hofum vier Talsmañeñ hiaa Fadurnum̃ Jesum Christum̃ hiñ riettlaata. 1 Joh. 2. v. 1. Hafe Jesus so heitt gietad beded fyrer sinum̃ Ovinum̃ aa Krossenum, hvad

skylde han þa ei nu giora fyrer sina Vine, sina truande og sin Born? Hafe hañ beded fyrer þeim, hañ spottudu og tøludu giegn hönum̃ alla Vondsku, hvad mun hañ þa nu ei giora fyrer alla þa, sem hañ þarum bidia, og reida sig uppa hans Fyrerboon? Hafe þar vered Sæluhialpar Von fyrer þa sem so herfelega Syndgudu, sem þar og vist var, þvi añars hefde Jesus ecke beded fyrer þeim, so læte Gud eingañ orvænta og seigia med Cain: Mjnar Synder eru stærre, eñ þær meige mier fyrergiefast. Gen. 4. v. 13. O eina yfermæta Huggun fyrer oss nær vier bidium̃, ad ef vier gietum̃ ei beded sem vier vilium̃ og eigum̃, O! þa bidur Jesus fyrer oss og med oss, sie vor Bæn ecke kroftug, þa er hans þess kroftugre, sie vor Bæn veik, þa er hans þess sterkare, lætum̃ os þarfyrer med Diorfung ganga fram̃ fyrer Nædarstooleñ, og vitum̃, ad vier høfum eirn so godan Talsmañ hia Fødurnum̃. Vier biggium̃ vora Bæn a hañs Bæn, og hañ bigger sina Bæn a sinu Bloode. Være þad ei so, ad Jesus ecke bæde med oss og fyrer oss, þa kyñum̃ vier aldrei ad hugga edur gledia oss vid vorar Bæner, edur til þess ætlast, ad þær nockud hia Gude gilda skyldu, eñ nu eru þær þooknanlegar i hans Nafne og fyrer hans Blood, og þo hesse sæta Huggun tilheire nu einkum̃ og serdeiles ollum Guds Bornum̃, so meigum̃ vier ei þarfyrer meina, ad Jesus sie aflæteñ ad bidia fyrer þeim Ogudlegu: Þad synest ad soñu a

mote

moote likenduñ fyrer oss, at hañ skule bidia fyrer þeim, sem jveria vid hans Nafn, og formæla, ad hañ tale gott fyrer þaa, sem illt tala at mote hönum, eñ þad er þo ei meira edur Olyklegra, eñ þad vier i Dag heirt hofum, ad hañ bad fyrer sinuñ Mordingiuñ, þeim allrastærstu Synduruñ, sem Jordeñ nockru sinne bored hefur, og gietuñ vier truad þvi, ad hañ sie daaeñ fyrer þaa Ogudlegu, þvi skylduñ vier þaa ei ogso trua þvi, at hañ kuñe ogso fyrer þeim bidia, ad hans Fyrerboon næe sovldt sem hans Fridþæging, þvi hans Fyrerboon er Grundvollud at hans Bloode, hafe hañ nu læted opna sina Sidu, og uthella sinu Bloode fyrer þaa, þvi skylde hañ þa ei ogso uppluka sinuñ Muñe fyrer þaa, og bidia fyrer þeim, þoo med þeim Mismun sem aadur er sagt, ad hañ bidur fyrer sinuñ Truande, ad þeir sokuñ hans Fyrerboonar ødlest sañarlega Naad og Fyrergiefning, eñ fyrer hinuñ Ogudlegu bidur hañ eins og fyrer sinuñ Mordingiuñ, med þvi Fororde, ad þeir uñwende sier, hañ bidur fyrer þeim uñ Tid og Toom, uñ sæluhialpleg Medol, Undañdratt af Straffenu, og hiaalp til Naadareñar.

O! Herra Jesu Christe, þu vor trufaste Frelsare og ypparste Prestur, þier sie Lof og Þacker fyrer þitt Blood og þiñ Dauda, Lof og Þacker fyrer þet-

ta þitt Lifsens Ord, Lof og Þacker ad þu villt bidia fyrer oss; fyrergief oss O! naaduge Fader alt þad vier høfum̄ þier imoti broted; fyrergief oss vorar vitan̄legar og Ovitanlegar Synder! fyrergief oss daglega, þvi vier sindgum̄ daglega, og þad er ennu so oft fyrer oss, ad vier vitum ei hvad vier giørum̄, laat þessa þyna Fyrerboon þad i oss verka, ad vier ad þynu Dæmi bidium̄ fyrer þeim, er oss hata; og blessum̄ þa er oss bølva: Virdstu framveiges ad bidia med oss, þaa vier bidium̄, og þaa vier gietum̄ ei framar beded, so bid þu fyrer oss; Laat þetta þitt sidarsta Ord vera vora Huggun aa vorri sidurstu Daudastundu: Styrk og endurnær oss vor Gud aa Tima Freistingarenar; blessa þu oss og gior vel vid oss, saker vorrar Bænar, en̄ þo allrahelst fyrer saker Jesu Bænar, hans Pynu, Dauda og Forþienustu. Amen.





# Onnur Prædikun
ut af
# Þvi ødru Christi Orde a Krossenum.

Joh. XIX. v. 26. 27.

Þa Jesus sa nu sina Moodur, og þann Lærésvein þar nærstandande, er hann elskade, seiger hann til sinnar Moodur, Kona! Siaa þu, þar er þinn Sonur: Efter þad seiger hann til Lærésveinsens: Siaa: þad er þin Mooder.

## Inngangurinn.

Efter þvi sem ein Manneskia hefur litad, efter þvi deir hun, aldrei deir sa illa, sem hefur lifad vel. Viliumm vier vera hia Drottne, so meigumm vier deja i Drottne, og viliumm vier deja i Drottne, meigumm vier lifa i Drottne, og lifa soleides, ad hvort vier lifumm eda dejum, þa sieumm vier hans. Rom. 14. v. 8. Þarfyrer aminner Christur oss og raadleggur, ad vier altid skulumm vera Reidu-

Buner, þvi Mañsens Sonur mune koma, a þeirre Stundu, sem vier ei ætlum. Luc. 12. v. 40. Være þvi so hattad med Daudañ, sem eiñ añañ likamlegañ hlut, er vier giætum um breitt nær vilduñ, og giort betur i añañ Tima, nær ofs i fyrsta siñ hefde ei so vel med hañ tekest, sem Byriade, þa være ei so stoor vande a ad deja; eñ þvi er ei so vared; oñur Mis-Smiide meiga bætast, eñ þesse alldrei; J hvoria att sem eikeñ fellur, þar liggur hun, Præd. 11. v. 3. Sa einu siñe er illa daudur, er eilisfega fordæmdur: Eckert er ofs so vist sem Daudeñ; um adra hlute kuñum vier ad seigia: Þad kañ ad skie, þad ma heuda sig, maaskie þad kuñe uppa ad koma; eñ um Daudañ ecke: Eingeñ Mañeskia hefur vered so blind, ad hun hafe ætlad þad mogulegt, ad umflia Daudañ; og so sem hañ er sa allravissaste hlutur, sem Mañeskiañ hefur til ad huxa, so er hañ og eirneñ sa allravigtugaste, og sa Viisdoomur og Konst ad deja vel, er þad allranaudsynlegasta, sem Madur ma ydka sig i, so leinge hañ lifer: Þarfyrer bidur David: Kieñ þu ofs ad huxa, þad vier hliootumad deja, so vier forsialer Verdum. Psalm. 19. v. 12. Eiñ Heideñ Madur hefur viturlega sagt, ad Liifed kynne ei ad brukast til añars betra, eñ ad ihuga Daudañ: og þar finnast Heidingiar, sem i þeirra Giestabodum hafa lated framsetja a Borded hofud af Daudum Mañe, ad Daudans Jhugan skyllde vera sa fyrste Riettur, sem þeir mettu sig med samt,

þad

þad fyrſta Fagnadar og Velliſtinga œvarp. Vier leſum̃ og, ad þæ eiñ heideñ Keyſare i Auſturhæalfuñe var kryndur, hafe vered ſtam̃borner margſlags Marmor-Steinar, og hañ adſpudur, hvoria Tegund þeſſara Steina hañ vilde utvelja, til ad læta giora af ſiñ Legſtad.

Hvaraf kiemur þad þæ, ad vier erum̃ ſo miøg huxunarlauſer, ad bua oſs under þad, er vier þo viſt vitum̃ ad fram̃ vid oſs ſkal koma, æ hvoriu oſs rydur ſo miked, ad þad ad lokum gillda ſkal vora eilifa Velferd: Ef vier i þeim likamlegu efnum Buum ſo vel, og vandlega ihag fyrer oſs, ad vier utveguṁ oſs jafnvel þæ hlute, ſem einaſta fyrer Happ og Hendingu kuña oſs til gagns ad koma, hvorſu læengtum̃ fram̃ar byrjade oſs, ad bua vel i hag fyrer oſs i þeim Andlegu efnum̃, og buaſt vid þvi, ſem oſs øllum er altid ſo viſt og yferhæangande ſem Daudeñ er.

Læatum oſs þarfyrer ſem optaſt ſagt vera, þad ſem i Nafne Drottens, og efter Drottens Befalning einu ſiñe ſagt var til Ezechiam Juda Kongs, hvor Ord, ſoſem næerſta merkeleg, og eptertekta verd, ad i H. Ritningu ſiñaſt tvi ſvar, og ſtanda ſkrifud bæde i 2 Kongab. 20. Cap. v. 1. ſem og Eſ. 38. v. 1. ſo hlioodande: Og Spæamadureñ Eſaias Sonur Amos kom til Ezechiam, og ſagde til hans, ſo

seiger Drottenn: Raadstafa þu þinu Huse, þvi þu skalt deja, og ecke lifa. J hvorium ordum er a þa einu Sidu ad aalijta eiñ nærsta hardañ Bodskap, og a þa adra, eina holla Raadlegging: Hvad þvi fyrra vidvikur, þa voru þessa Ord tolud til Ezechiam, sem var eiñ Goodur og Gudhræddur Konungur, eiñ þvilikur Konungur, sem Guds Ande giefur þañ Vitnesburd, sem vel fædster Kongar i Veroldeñe feinged hafa, ad hañ giort hafe, þad sem Drottne vel likade, og sette sina Tru til Drottens Jsraels Guds, so ad epter hañ var ei hans liike medal allra Konga Juda, og ecke heldur hafde vered fyrer hañ, hañ hielt sier til Drotteñs og veik ecke fra honum, og hielt hans Bodord, sem Drotteñ hafde boded Moisi, og Drotteñ var med honum. 2 Kongb. 18. v. 5. 6. 7. Hañ var eiñ Kongur, sem ei af farfeingre hroosan, heldur i oruggre Hiartans Fullvissu þorde ad seigia i sinum Siukdoome: O! Drotteñ miñstu þo, ad eg hefe geinged truelega fyrer þier, og med riett skickudu Hiarta; og eg hefe giort þad sem þier hefur likad. 2 Kongab. 20. v 3. Til þessa Konungs kiemur nu sa Bodskapur i hans besta Alldurs Blooma; Raadstafa þu þinu Huse, þvi þu skalt deja, og ecke lifa; hier er eingeñ vorn edur undañfære; sa megtuge skal eins deja og sa volade: J Orustur og Bardaga kuña Konungarner ad utsenda adra fyrer sig, og þursa ei ad hætta sinu life, eñ i Daudans Orustu skulu þeir siaalfer framganga:

Þad

Pað einasta Skiol og Skioldur fyrer Dauðanum er þetta; ad vera Daudur; þvi sosem Murvegger og Hervyrke gioraſt af Mold og Jordu, so er vor Mur og Hervyrke að moote Daudanum einaſta grøfeñ, þar hofum vier aungvañ Dauda framar ad Ottaſt, hañ kañ ei ad taka Lifed af oſs nema einu ſiñe; ſo leinge vier erum ei komner i vora Grof, heiter Boded ſo til allra, þeſs hæðſta ſem þeſs lægſta; raadſtafa þu þinu Huſe, þu ſkalt deja: Eg efaſt ad ſoñu ecke, ad være þar nockur giæde vid þetta Lif, og være þar nockur hlutur, ſem kyñe ad hindra og verja Daudanum, þar giæte Otte Drottens þvi tilvegar komed; eñ epter þvi þad gooda i þeſſu Life er ſo liited, eñ þad vonda mi-ked, ſo hefur Gude ei þooknaſt ad laata hierviſtar dvøl ſiña Barna vera laangviñare eñ a-ñarra, miklu framar flyter hañ Tiidum þeirra Burtfor: Bæde hans Miſkunſeme vid hans Elſkendur, og riettlæte til Hegningar þeim vondu giorer þad, ad hañ burt tekur þa goodu, ſem i Lifenu vered hafa ſem Stod og Stytta, edur ſem Mur og Verja fyrer Straffenu: Paulus ſeiger um þaa Truudu, ad Heimureñ ſie þeirra ei verdugur. Ebr. 11. v. 38. Hañ ſkiniar ei hviliker þeir eru, hvarfyrer Gud þeim i burt ſvipter, og giefur aftur eiñ Manaſſen fyrer Ezechiam, vondañ fyrer goodañ. Hans Miſkunſeme i þeſſu vid ſin Born er og Audſien, hañ vill ei ad þaug ſiaa ſkule þad yferhaangande vonda, edur af þvi tælaſt og lockaſt: hañ

tekur þaug eru eñ þar good; hañ sier þad fyrer fram̃, sem vier kuñum ei ad siaa, ad þaug kuña ad verda vond: Hefde Ezechias daaed, þaa hañ fieck þeñañ Bodskap, þaa hefde hañ daaed miked miked betur eñ Sidañ, og vered fri fyrer þeirre stooru Synd, er hañ fiell i Skömmu þarepter, og lesa maa i 2 Kongab. 20. v. 12. 13.

Godur Bodskapur er oss ætiid velkomeñ; eñ þvi var ei so vared um̃ þeñañ Bodskap; hañ hefur maatt vera nærsta Ofeigeñsamlegur, ei einasta fyrer þañ sem hañ var fluttur, heldur og þañ sem hañ fram̃bar; hvor vill efa ad þad hafe maatt gaanga Spaamañenum̃ til gieds, ad hañ vard ad kuñgiora þvilikañ Bodskap so gooðum̃ Koninge, einkum̃ þar merkia maa, ad Esechias hafe ecke einasta elskad Esaiam, heldur og, ad þeir vered hafe naaskyllder: Spaamadureñ hefur ad visu seigia viliad um̃ þesse Ogiedfelldu Tidende, sem fordum̃ Daniel: O! ad Draumeñ ætte þiner Oviner, og hans utþiding þiner mootstodu Meñ. Daniel 14. v. 19. Eñ hvad skyllde hañ giora: Herra-Boded er hartt, eñ Guds Bod er eñ þaa Hærra: Hañ maatte þarfyrer giora sig hardañ, og villde seigia sem Spaamadureñ Abia: Eg er sendur til þin eiñ hardur Sendebode. 1 Kong. b. 14. v. 6. Og til ad affsaka sig, leggur hañ þetta til: So seiger Drotteñ: Eg kiem ecke af siaalfum mier til, heldur er þad Guds Vilie og hans Uñsorgun fyrer þier, ad eg skal kuñgiora þier þvilikt fyrer

rer fram; eñ hafe nu Spamañenum vered so mootfalled, ad bera Þeñañ Bodskap, so hefur ei heldur Ezechiæ vered riett giedfeldt hañ ad heira: O! Þar eru so faaer sem hafa velÞoocknan a Daudanum, einkanlega Þeir voldugu, Þarfyrer seiger Syrach: O! Daude, hvad beiskur Þu ert Þeim sem hefur gooda Daga, og lifer fyrer utañ ahiggiu. Syrach. 41. v. 1. So Meñ hafa dæme uppa Þa, sem ei hafa Maatt heira Daudañ nefndañ, sem Þañ hlut, er Þeim giorde Hindran i Þeirra jardnesfre Glede og eyterlæte; og Þarfyrer maatte eingeñ iñganga um Assveri Port, sem eitt Sorgar-Klæde yfer sier hafde, Est. 4. v. 2. Vier siaum hier og med Forundran, ad Ezechias vard Skielfdur yfer Þessum Bodskap, hañ snere sier til veggiar, griet beisklega og bad til Drottens, hañ tiiste sem Tranañ og kurrade sem dufañ: Hañ Þeinkte: O! mætte eg eñ lifa til Morguns, eñ Þu giorer utaf vid mig a delgenum fyrer kvolded. Es. 38. v. 13. Þvi verdur añars ei neitad, ad Þesse Bodskapur kuñe alldrei koma a einum Ohentugre Tima eñ hañ kom: Þa Ezechias vilde hvad heldst lifad hafa, hiet Þad; Þu skallt deja: Eingell Drottens hafde barest fyrer hañ, og a eiñe Noot i hel sleiged hundrad Attattju og fim Þusunder i Herbudum Þeirra Assyrisku: Sa gamle Ovinur Zenacherib var daudur, muñur Spottarans Rabsakes var tilbirgdur: Allt var i kirdum, Ezechias fieck ein Gledetiidende a fætur odrum, og hañ took nu sosem fyrst til ad

lifa;

liſa; ſiaa, ſo koma þeſſe Sorgar-Tidende, þu ſkalt deja: Daudeñ kiemur alldrei i hendtugañ Tima, eg veit ei hvor ſaa Time vera ætte, ad Mañe ei ſyndeſt, ſem Dauden mætte eñ þaa nockud bijda, og ſnaraſt ſkal hañ til vor koma, þaa vier miñſt til hans þelnkiuñ: Þar i moot, þaa vier Oſkuñ epter Daudanuñ ſliir hañ fraa oſs; Daudeñ ſpyr ei epter, hvort hañs tilkoma er oſs med edur moot, og er oſs hvad hættulegaſtur, nær vier miñſt aa hañ þeinkiuñ.

Þar eru tveñ Slags Takmork ſett, voruñ lifdoguñ, edur ſem tvo Timaglos; þad eina er naatturlegt, i vorum likama, og riidur hier aa þvi, hvorſu þetta vort Moldarhreiſe er i fyrſtu giort, ſterkt edur veikt, og hvorſu vier ſidañ med þad foruñ; þad añad Timaglas er hiaa Gude og i hans Forſioon; þad naatturlega Timaglas kañ ſtunduñ ad vera ei meir eñ haalfruñed, þaa Guds Timaglas er ute; hañ ſtytter vort Lif añad hvort oſs til gooda, ad vier frelſunſt fraa þvi vonda i Veroldeñe, edur og til Straffs fyrer vort Ogudlegt framferdu, þeir Ogudlegu faa ei haalfnad ſina Lifdaga Pſalm. 55. v. 24. Þeir deja, þaa þeir epter naatturleguñ hætte kyñe þoo leingur ad liſa; og þvilikt ſkiedur opt og daglega: Hierad auk ſo ſtytter Mañeſkiañ tiduñ ſiaalf ſitt naaturlegt Lifs ſkeid, ſtormar uppaa ſiñ eigeñ Likama, ſpiller ſiñe heilbrigde og jafnvel tekur lifed af ſier, ſem þoo añars heſde ei orded ſo ſkamvint: Þetta naatturlega

lega Takmark, kann ogso ad leingiast, enn þad skiedur ei Tidumm, og þaa þad skiedur, er þad ei voru tilstille ad þacka, heldur einasta Gude, aller veralldarennar Læknes=Doomar megna ei einu Augnablike þarvid ad bæta: Og so var þad hier fyrer Ezechia, hans naatturlega Lissens Takmark var nu komed og hans Timaglas utrunned, enn Gud af sinu almætte lagde 15 Aar til hans Lifdaga, framm yfer þeirra naatturlega Takmark: Þvi egum vier og megum allt kapp aa ad leggia; ad vier ei styttumm sialfer vorar Lifstunder, enn so faavislega meigumm vier ei þeinkia, ad vier þær leingt gietumm framm yfer þad Guds fyrerhyggia hefur aakveded.

Su holla Raadlegging sem Ezechia var giefenn er af Spaamannenumm aavisud med þessumm Ordumm: Raadstafa þu þinu Huse; og maa þad skiliast bæde uppaa andlega visu, sem erad siaa fyrer sinne Saal, so vier kunnum ad vera visserumm Saaluhiaalpleganna vidskilnad, ad hreinsa vor Hiartans Hus fyrer sanna ydran og yferboot, ad hafa sina Tru, von, þolenmæde, Kiærleika, afneitun heimsens enn laungun til Himensens, ad hafa, seige eg, alla hlute fyrer framm tilreidu, og vora Lampa tendrada moot tilkomu Jesu.

Enn i þessumm Stad meinast eigennlega þess likamlega Huss Raadstofun, ad Ezechias i Tima skyllde giora Raadstofun i sinu Huse, og i sinu Rike, hvar aller hluter voru nu, epter þad

harda Striid hañ ætte i Oordu; med einu Orde, hañ skyllde giora sitt Testament, og fyrer skipa i Tima, hvorsu allt skylde tilgænga epter hañ latteñ, uppa þad su þunga veraldar ahiggia, skylde ei sem añar steirn liggia honum a Hiarta, nær hañ ætte vid adskilia. So byriar og einum Christnum Mañe ad raadstafa jafnvel sinu Jardneska Huse i Tima, ad hañ sidañ med stærre roosemd siñar Saalar giete vid veroldena skiled, nær sa þunge Steiñ, Sorg fyrer þessu timanlega er afveltur: Eñ hvad þvi liidur, þa er su andlega Hussens raadstofun, þad sem mest aaridur fyrer oss, storte nockud a raadstofun þess jardneska, þa eru Born þessarar veraldar noogu viis til þad ad lagfæra: Riett holdlega siñadar Mañeskiur kuña ad seigia soleides: Vier erum vaudleger, vier vitum ei hvad leinge vier kuñum ad lifa, þad tilheirer einum forsialum Mañe ad giora gooda raadstofun sins Huss i Tima, og fyrerbyggia alla Tvidrægne, er añars verda kyñe epter oss frafallna: Og þvilik frañisyne er aungvañveigeñ lastverd: Eñ þu goode Gud! hvar fyrer skyllde þa ei sama giora vid Saalena? Mun miña a þvi rijda, ad sia fyrer þvi eilifa eñ timañlega? Viliuñ vier meina ad þad sie sosnart giort? Skulum vier ottast vorra Erfingia maalasookner, og ei miklu framar þær stooru Sakargipter er mæta kyña Saalum vorum epter Daudañ? Þarfyrer Christner Meñ, veitum Forsioon voru andlegu Heimkiñe i Tima, vorre Sam-

Samvitsku, þvi hun er það Herberge til hvørs Saaleñ sliir og leitar huggunar, nær til heñar sagt verdur: Þu skalt deja.

Gaunguñ nu aptur uppaa fiallað Golgatha, að heira þaug siðustu Orð vors Endurlausnara: Mier vyrdest sem nu i Dag sie til hañs sagt, raadstafa þinu Huse: O Jesu! fullgior þaa þitt Testament, og seig til hvørsu, þu vilt hafa það með þina epterþrejande Moodur og vine, þvi þu skalt deja, og ecke lifa: Vier heirduñ þessu nærst hans siðarsta Vilia vidvikiande hans Vinuñ, að hañ þeim fyrergiefur og bidur Gud að fyrergiefa þeim. Nu i þessu hans ødru Orde siaaum vid hans Uñsorgun fyrer sinuñ vinuñ, og hvað hañ nu i skilnað giefeð hefur þeim tveinur Persoonuñ, er hañ hafde kiærastar i Veroldeñe, siñe eigeñ Moður og þeim Læresvein er hañ elskade: Eñ hvað feingu þær þaa? Hañ hafde eckert þeim að Testamentera þvi hañ atte eckert: J sinu lifanda Life hafde hañ ei hvar hañ mætte sinu høfde adhalla, og það hañ hafde, sem voru Klædeñ, maatte hañ horfa uppaa, að Stridsmeñerner skiftu imilluñ sin seur ødru herfaange, og at hans Kirtel kostnðu þeir hlutkeste. Matth. 27. v. 35. yfer hvoriu hafde hañ þaa Raad? Hans Augu voru eñnu i hans vallde, og með þeim aaleit hañ so mildelega sina Moodur; hans Tunga var eñþaa ei bundeñ af Dauðanuñ, og með heñe aavarpade hañ þaug so astsamlega: Það besta sem hañ hafde raad yfer

var Hiartad: Judas hafde Peningana, Stridsmeñerner Klæden, Likameñ var negldur a Kroſſeñ, hans Saal heirde hans Fodur til, ſitt Lif utgaf hañ til Betalings fyrer vorar Synder: Og hvad var þa epter fyrer hans Moodur? Hans Hiarta, hans aſtudlega Umſorgun: Og endelega hafde hañ eñnu eiñ hlut i eigu ſiñe, ſem hañ matte vera viſs uñ, eiñ trufaſtañ Vin, eiñ Læreſvein ſem hañ elſkade, og þeñañ Mañ, ſem af olluñ hans Læreſveinuñ var ſa beſte Teſtamenterar hañ nu ſiñe Moodur, ſeigiande: Kona! Sia þad er þiñ Sonur, Johannes ſia þad er þin Mooder, þeſser tveir hans beſtu Viner ſkyldu nu vera hierepter ſem Sonur og Mooder, og þetta er Jeſu Teſtament, hvad þvi likamlega vidviek; eñ nær vier tokuñ þetta hans Ord, og leggiuñ þad til hiña, þa finnum vier, hañ hefur i þeim tilſamans kient oſs þa riettu adferd ad raadſtafa voru Huſe, og buaſt vid Daudanuñ: Þad fyrſta Mañeſkiañ ſkal lata ſier uñhugad vera a ſiñe Banaſæng, er ad ſættaſt vid ſina Ovine, þvi añars ma hun ei vænta ſier Forlikunar vid Gud, og þeſsvegna var Jeſu fyrſta Ord, ad hañ bæde ſialfur fyrergaf og bad Gud, ad fyrergiefa þeim: Þar nærſt afgiører Mañeſkiañ þad likamlega, ſoſem þad añad Jeſu Ord var, ad raadſtafa ſinu Huſe: Nær þeſſu er afloked, a hañ epter þvi ad lijta, hvort þad nockud vera kuñe, er hañ eñ þa meige framkvæma til Guds Dirdar og naunganz Velferdar, ſem Paulus biidur,

fyrst ad vier hofuñ Timañ, þa giorum̃ gott hvorium̃ Mañe. Gal. 6. v. 10. So var þad þridia Jesu Ord eitt Miskunarverk, þa hañ gaf Ræningianum̃ eilift Lif og Saaluhiaalp. Nær ein dejande Mañeskia hefur nu soleides raadstafad sinu Huse, fyrergiefed sinum̃ Ovinum̃, skiled vid sina Vine, og giort þad gott, sem hun hefur viliad giora, þa byriar heñe allt fra sier ad giefa, eñ einasta hallda sier til Guds, so giorde Jesus i þvi siðorda Orde, sem var ein Bæn til Guds: Gud miñ! Gud miñ! þvi hefur þu yfergiefed mig: Sidañ þole hun og lide med þoleñmæde þad Gud aaleggur, so-sem Jesus i sinum̃ þorsta: Laate sig so længa epter Guds Tima, ad hun med honum seigia meige, þad er fullkomnad, og ad sidurstu med oruggu Hiarta giete befalad Jesu sina Saal, og med honum̃ beded: Fader i þinar Hendur fel eg miñ Anda: Og þañeñ hefur nu Jesus i so faaum orðum̃ kient ofs þañ besta maata vel ad deja, og þa bestu Adferd til ad raadstafa voru Huse; hvar utaf vier ad þessu siñe einasta yfervega viliuñ Christi Testament og sidarsta Vilia, hans Ætt og Naakomnum̃ epter holdenu vidvikande, og þar i þetta tvent ofs fyrer hendur taka

I. Um̃ hans syrgiande Moodur.

II. Um̃ hans elskande Læresvein.

## Utleggingen.

So hofum̃ vier þaa i Dag Jesu Testament og hans sidasta Vilia ad yfervega, eñ uppaa þad vier ei ætla skulum̃, ad hans Testamentis Giorningur hafe ei naad viidar eñ til Mariu og Johannem, so hofum̃ vier þess vel ad giæta, auk þess, sem aadur er sagt, ad oll Christi Ord aa Krossenum̃ eru ad aalita sem eitt Testament: Þviad riett eigeñlega ad tala, þaa er Christi Testament twofaldt, almeñelegt og sierdeileslegt: Pad almeñelega Testament stiftade hañ fyrer sina Kirkiu, og ollum til gagns og gooda; viliuñ vier þad siaa og heira, þaa lesum̃ þañ 17da Cap. Johañis, þaa dægelegu ræ du er hañ under siñ skilnad giorde til sins Fodurs, þar siaaum̃ vier hans Testament til vor, og medal añars þesse Ord: Fader! eg vil ad þeir þu hefur giefed mier, skule vera þar sem eg er, ad þeir siaae mina Dyrd: Hier ad liitur og þad Testamentum sem hañ giorde kvolded fyrer siñ Danda, eitt sañarlegt Testamentum, i hvoriu hañ hefur skeinkt oss eiñ Pant, uppaa þañ Arf, sem hañ testamenterade oss i Himnenum̃; eg meina Iñsetning kvoldmaaltidareñar, þaa hañ testamenterade siñe christelegre Kirkiu siñ Likama og sitt Blood, seigiande: Þetta er Kaleikur þess Nia Testamentis i minu Bloode. Hans sierdeileslega Testament þar imoote, var einasta vidvikiande hans eigeñ Huse, og þad er þad Testament sem vier i Dag hofum̃ ad yfervega

vega nefnelega, hans áñað Orð á Krossenuñ, so hlioodande: Þá Jesus sá nu sina Moodur og þañ Lærefvein þar nærstandande, er hañ elskade, seiger hañ til siñar Moodur, Kona? sia þu, það er þiñ Sonur: Epter það seiger hañ til Lærefveinsens, sia það er þin Mooder.

Það mætte einhvoriuñ vel synast, að þetta Jesu Orð sie ei so riett merkelegt, og að það kuñe ei að gagna oss til notkurs Traustz edur uppbygginar, það kome oss eckert við, heldur einasta þeim tveinur Persoonuñ, Mariu og Johanni, og að vier þessvegna ei uñ þetta Orð sagt gietuñ, sem það fyrsta að það sie riett eitt Lissens Orð: Eñ munuñ vier ei fara vilt i þessu, mun oss ei með rokuñ nockuð añað hier uñ synt verða? Það er satt, að Maria var Jesu Mooder, og þetta var ein Uñsorgun fyrer hans Moodur, eñ hefur þá Jesus aungva aðra Mooder eñ Mariu? Til þess að vier aðra betre þanka uñ þetta Jesu Orð oðlast meiguñ, og að vier kuñuñ að ihuga það og heira með stærre Andagt eñ so, þá læatum oss ihugkoma, það Jesus seiger hia Mattheuñ: Þeir sem giora vilia mins Foðurs þess a himnuñ er, þeir eru min Mooder, miner Bræður og minar Systur. Matth. 12. v. 48. Fyrer þvi nu að hver ein Christeñ Sál er Jesu Mooder, þá kañ hun að tileigna sier þá Uñsorgun, er Jesus

 sus

sus hier audsynde siñe Moodur, so fullkomlega sem hun sialf nærverande hefde heirt þesse Jesu Ord til sin tolud; þvi hañ sem hier gaf siñe Moodur eiñ Son til Hiælpar og Huggunar, hañ hefur og þvi heited ad vera hiaa oss i Neideñe: Hañ sem hier ecke villde læta sina Modder vera einmana, hañ hefur og sagt: Eg vil ydur eige fodurlausa epterlæta. Joh. 14. v. 18. Lætum oss þarfyrer i Trunne skignast nockud framar iñ i þesse Jesu Ord, einkum æ vorum eimda og Einstædingskapar Timum i Veroldeñe. Vilium vier meina, ad soframt þetta hefde vered ein Sok einasta Mariu og Johanni vidkomande, og ei æhrært fleire, ad Jesus þaa hefde talad þesse Ord opeñberlega aa Krossenum: Meinum vier ad hañ ei laungu ædur hefde vered bueñ þessu af ad luka, þaa hañ so optsiñes ædur hafde talad um siñ Dauda? Meinum vær ad nockurt Ord aa Krossenum aa hans Daudastundu sie talad forgiefens og aan vigtugra Ordsaka? Nej aungvañveigeñ: Þad fyrsta Orded: Fader fyrergief þeim, er ad soñu fyrer oss gledelegra i fyrsta alite, þvi neita jeg ecke: Eñ þar i moot maa þvi ei neita, ad þetta hans añad er oss þvi huggunarsamlegra, sem vier þad gior yferveguñ: Þaa talade hañ til sins himneska Fodurs, eñ nu til siñar Moodur; þaa fyrer sina Ovine, nu fyrer sina Vine og Nakomna; hans Ræda var þaa nm þad Andlega, nu um þad Timañlega: Hvaraf vier læra skulum, ad þo þad sie sierdeiles þad andlega gooda, sem Jesus

oſs heited, þar ſamt hefur hañ eñ ƒarſyrer neitad, ad bera Uñſorgun fyrer þeirre timanlegu Nauðþurſt; Þad ſkal kieña oſs; ad lata vora aðhiggiu ſeſta ſig vid þad Andlega framar eñ þad Likamlega: Og einkañlega að þeſſe Chriſti Orda Nidurradan ad giefa oſs þañ Lærdoom, ad jafnvel þo þad ſie vor Skyllda, ad elſka vora Vine og Naunga, þar ſkal þo Skyllda vor vid Gud alltid hafa Yferhond; ad vor Kiærleike til Mañaña, Elſka til Vinaña, Uñſorgun fyrer Naungunum, bliidne vid Forelldrana gyllde eckert, og ſieu aungvar chriſtelegar Dygder, heldur eintoomes Verkaner Natturuñar, nema þad allt ſramkome af elſkuñe til Guds, ſoſem eiñ Straumur af ſiñe uppsrettu: Þar er alldrei ſo good veluñan milluñ Vina, milluñ Hiona, Forelldra edur Barna, ad Gud hana bleſſa Vilie, nema hun ſie i ſiñe riettre Nidurradan og Ordu, og kome fyrſt að eptur elſkuna til Guds; likaſem Jeſus bar ei Uñſorgun fyrer ſiñe Moodur fyrr eñ hañ hafde giort Vilia ſins Fodurs i þvi ad lata negla ſig að Kroſſeñ, og fyrergiefed ſinuñ Ovinuñ. Eñ latuñ oſs vikia aptur til Textans.

Johannes ſeiger i nærſtundañgaðngande Orduñ, ad þar haſe ſtaded vid Jeſu Kroſs, hans Mooder og Moodur-Syſter, Maria Husfru Cleophæ og Maria Magdalena, og Mattheus og Marcus nefna eñnu fleire Kviñur, Salome Mooder þeirra Zebedæi Sona, Johan-

nam Husfru Chusæ, og margar fleire Konur er stoodu þar: Sañarlega, þad eru fyrer' vorum Augum stoor Undur, ad Kviñurnar voru hier standande hiaa Jesu Krosse, þaa Meñerner hlaupa burt; þaug breisku Kiereñ eru hier sterkare eñ þær sterku Hetjur: Petur hafde losad ad gaanga i Daudañ med Jesu, eñ nu þorer hañ ei nærre ad koma: Þeir sem hofdu heited ad vera stadfaster, þeir hlaupa, eñ þeir sem þvi ei hietu standa stoduger: Stodug lynde hafa Meñ asmaalad, sem eitt Biarg under Bilgium: Eñ vilium vier læra þad riettu christelega Stodug-lynde, so meigum vier yfervega þessar Kviñur under Krossenum; þær stoodu nu kyrrar, þaa adrer flia; þær saau Jesum, og alla þaa sem voru honum aahaangande ad vera hatada og fyrerlitna, þoo villdu þær hañ ei yfergiefa; nie diliast þeirrar elsku er þær til hans hofdu: Vier meigum giefa þeim þad epter, ad i Christi Piinu hefur eingeñ skickad sier betur eñ Kviñurnar, og allstadar i hans Piiningar Historiu Faa þær betra Vitne eñ Meñerner: Med goodgiordum eiñrar Kviñu byriadest hans Piina, hun smurde hañ med dyrmætu smirsla Vatne, og þetta giorde hun, seiger Jesus, ad eg yrde Greftradur. Matth. 26. v. 7. 12. Christi Piina endadest ogso med goodgiordum Kveñaña, sem geingu til Grafareñar og smurdu hans Likama; og nu standa þær og smiria hañ med Taarum under Krossenum; þær voru sidarstar vid Krosseñ, og fyrstar vid Grofena; þær villdu ecke burtgaanga fyrr eñ hañ

var

var daudur, og þa hañ var daudur, fylgdu þær honum epter, og villdu sia hvar hañ var lagdur: Eg seige ei þetta til þess, ad Kviñurnar stære sig, heldur þvi framar audmyke, med ad speigla sig i þessara Kveña dæme, og rañsake, hvorsu mikid þeim sie a faatt i Elskuñe til Jesum: Þvi verdur añars ei mootsagt, ad Kvinnurnar, ei alleinasta hvad utvortes Gudsþioenustu vidvikur, eru Kostgiæfnare i þvi ad heira Guds Ord, heldur og, hvad þad iñra ahrærer, þa er þvi mikeñ part so vared fyrer þeim, ad adur eñ þær hafa feinged Elsku til Jesum, þa eru þær hvad Breiskvastar i þvi ad ahaanga Verolldeñe, og elska þad fafeingelega, sem og i sinu Truartrauste til Guds og hans fyrerhyggiu; eñ þar þvert a moote, þa Jesu elska er ordeñ þeim Hiartgroeñ, bregdst þad traudlega, ad þeirra Christendoomur sie ei eñ þa hreinnre, og þeirra Kiærleike, froomlinde, hoogværd og llustlynde eñ þa þeckianlegra: Eñ hvad mun þad hafa vered, sem giorde þessar Kviñur, er stoodu vid Jesu Kross so styrkvar og Hughraustar? an efa elskañ til Jesum: O! miner Elskanlegar, þad sem skal giora oss styrkva, er Kiærleikureñ; epter þvi sem vier elskum Jesum, epter þvi Verdum vier styrkver; þvi seiger Salomon; Elskañ er so sterk sem Daudeñ, heñar glædur eru breñande, og eiñ Eldsloge Drottens Lofk. 8. v. 6. Laatum oss læra ad elska Jesum, og vaxa i hans Kiærleika, so verdum vier fyrer Jesu Hiaalp noogu styrkver til ad standa under

Jesu Krosse, og standast under voruṁ eigeñ: Saa kiærleike sem þessar Kviñur baaru til Jesum, giorde þær so traustar, ad þær ogtudu aungva hæskasemd, eckert Spott, ei Lijf eller Dauda, fyrer saker Jesu Kiærleika. Ein aa Medal þessara goodu Kveña var nu ogso Maria: J Paradis stood fyrruṁ ein Kviña, sem var Mooder til allra Maña, og under eins Mooder ad allra Maña Eimd og Ogiæfu, hun stood under þvi forbodna Trie, og hliidde Hoggormsens ordum̃, og þaug urdu heñe ein Daudans Ord. Hier stendur i Dag Mooder vors Endurlausnara under Krossens Trie, hlyder aa raustu Hoggormsens Foottrodara, og medtekur Lifsens Ord: Vier viliuṁ fram̃veiges oss til ihugunar leida, med hviliku Hiarta hun mune þar staded hafa; þarnærst þañ Titel er hun fieck hiaa Jesu, og i þridia maata þad Traust og Huggun, sem hañ gaf heñe.

I. Med hviliku Hiarta ad Maria hafe under Krossenuṁ staded, verdur ei so med Orduṁ utmaalad, sosem ihugad af ølluṁ þeim, sem vita hvad eitt Moodur-Hiarta er: Eingeñ hefur nockru siñe maatt so glod vera sem Maria, þaa hun fædde siñ Son, þad blessada Kviñuñar Sæde, fyrer hvert øll Veroldeñ skylde odlast Naad og Frelsun, þar imoot hefur alldrei nockur Moder maatt vera so Sorgbiteñ sem Maria, nu þaa hun miste þeñañ siñ Son, og med honuṁ meinte sig ad missa alla sina Unan og

Glede

Glede. Agar forduñ gieck lángt burt, og upphoof sina Rauſt med grát, ſeigiande: Eg giet ecke ſied uppá ad Barned deir; eñ Maria mátte ſiá uppá ſins Sonar, ei ad eins Piiſslar Fullañ, heldur og forſmánarlegañ Dauda, hun mátte heira allt þad Spott og Brixle, Kvalararner vid hañ toludu, oll Hamarſlogeñ, þá þeir negldu hañ á Kroſſeñ; mun heñe ei hafa fundeſt ſem hvør Nagle geinge igiegnuñ heñar Hiarta? Hun ſá hvort og eitt hans Sár, hun mátte telja oll hans Bein, hun kuñe ad heira hvoria eina hans Andvarpan; hun ſá hañ hánga, og kuñe ei ad hiálpa honuñ; Nakeñ og kuñe ei ad hylia hañ; hun heirde hañ þyrſtañ og mátte ei ſvala honuñ; ſpottadañ og mátte ei hañ forſvara: Hier hefur þad framkomed, ſem heñe var fyrerſpád af Simeone: Eitt Sveed mun þreingia ſier ſier igiegnuñ þina Sálu. Luc. 2. v. 35. Ei einaſta hvort eitt Ord ſem Gidingar toludu honuñ til Spotts, heldur og hvort Ord Jeſus talade, og hvort hans Sár hafa mátt vera ſem eitt tvieggiad Sverd og ſtingande Broddar i heñar Sálu: Jacob ſá einaſta ſins Sonar bloodugañ Kirtel, en hañ villde ei láta ſig hugga, heldur ſagde: Eg mun fara med Harme i Grøfena nidur til mins Sonar. Gen. 37. Hvorſu aumkunarlega bar ſig ecke David epter ſiñ Ohlidna Son Abſalon; Gud giæfe eg mætte deja fyrer þig miñ Son Abſalon, 2 Sam. 18. v. 33. Og hvorſu mátte þá ei Mariu til Hiarta gánga, þá hun ei

D 5 heirde,

heirde, heldur sa fyrer sinum augum, ecke eiñ Ohlideñ Absalon, sem David, ecke eiñ Son af Maurgum sem Jacob, heldur heñar einasta Son, jaa Guds og heñar Son deja, og þad einuñ so forsmaanarlegum Dauda: Vilie adrer Forelldrar klaga, þaa svarar Maria: Hvad er ydar misser a moote minum misser; hvad er ydar Sorg ad reikna a moote miñe Sorg? Aller þier sem framhiaa gaanged, skoded þad og hygged ad, hvort þar er nockur Sorg sosem min Sorg, sem eg hefe i ratad, þvi Drotteñ hefur fyllt mig med Eimd, a þeim deigenum siñar Grimdar reide seiger Jeremias: Harmagr. 1. v. 12.

Og sosem þessi var nu næsta Sorglega hættad fyrer Mariu, so var þvi ei ollu betur vared fyrer Johanne, hañ var sa Læresveirn sem J:sus elskade, og sa Læresveirn sem aptur a moot mest elskade Jesum; hañ laa a Jesu Brioste um Kvoldmaal-Tidena, og var riett sosem hans Kieltu-Barn; hañ hefur ad soñu asamt hinum Læresveinunum hueixlad sig a Jesu um Noottena, eñ nu hafde hañ reist sig aptur, og audsynde hier ollum, hvorsu hans Hiarta var iñelega sært af elskuñe til sins Meistara: Þegar David og Jonathas adskildu, þaa var þad eins og eitt Hiarta være i sundursliteð: So David sagde: Eg syrge þig muñ Brooder Jonathan, Eg hefe haft stoora Glede og unadsemd af þier, þiñ Kiærleike var mier sætare eñ Kveña Kiærleike. 2 Sam. 1. v. 26. Hier eru tveir utvalder

der Viner, jaa þeir allrabestu Viner er i Veroldene vered hafa Jesus og Johannes, sem aatt ad skilia; so þad er ei ad efa, ad aa Mariu og Johanne hefur leiged su stærsta Sorg og Hiartans-aangist, sem aa nockre Manneskiu liggia kunne: Enn er þad merkelegt, ad þessar Persoonur, riett þesser tveir Jesu kiærustu Viner i Verolldene, baaru þaa allrastærstu Sorg, hvornenn meigum vier þaa tilætlast ad vera af Gude elskader, og vera þosyrer utann Mootgaang, ad vier sieum Mariu og Johanni liiker i elskunne hiaa Gude, enn Oliiker i þvi einasta, ad liida Sorg og Hormungar. O nej: Vilier þu vera Guds Barn, vilier þu vera Christi andleg Mooder, og hans Læresveinn, þaa er þin Lectia, ad þu taker þinn Kross uppaa þig, og fylger honum epter; fyrst ad þu varst Gude kiær, sagde Eingelenn til Tobias, þaa hlaut þad so ad skie, ad fyrer utann Freistne maatter þu ecke vera, so ad þu yrder reindur. Tob. 12. v. 13. Gud hefur aatt einn Son aan Sinda, enn aungvann aan Kross og Mootlætinga. Vier siaaum hier hvorsu þad hefur geinged þessum tveimur hans kiærustu Vinum, þarfyrer seiger Paulus: Hvorn ed Drottenn elskar þann agar hann, hvorn þann Son hann ad sier tekur þann striker hann. Ebr. 12. v. 6. Laat þig þvi ei undra, siertu Gude kiær, þott þu nockud finna meiger til aangistar med Mariu og sorgar med Johanne; þad er þin Huggun, ad hann sem leit nidur til þeirra, liitur og til þin: Drottenn sier af Himnum ofann aa Jordena,

ad hañ heire andvarpan hins Hertekna, seiger David. Psalm. 102. v. 20. Hell minum Tar-rum i Þina Flosku, sañarlega Þar reiknar Þu Þaug. Psalm. 56. v. 9. Hañ huggar ofs i Sorgeñe, sem hier Mariu: Kviña, siaa Þad er Þiñ Sonur. Þad er Þaa

II. Jañañ maata saa Titell sem Jesus giefur heñe, Kona! Þad maa synast, sem i Þvi sie li-tell kiærleike, ad hañ nu i skilnad vill ei sæma Hana med Moodur-Nafne: ad hañ talar til heñar so Okuñuglega, Kona! Kañ Þaa ein Moo-der ad forgleima sinu Barne? Es. 49. v. 15. Eñ kañ ogso eitt deiande Barn ad forgleima siñe Moodur! Hefur Þu, O! Jesu gleimt, ad Þad er Þin Mooder, sem Þar stendur? Vier fiñum Þetta optar: J Cana i Galilæa brukade hañ sama Titel: Kona! hvad hefe eg med Þig? Eñ ad tala so hier ad Þeirra skilnade, er eñ Þaa underlegra: Sañarlega hefur Jesus i Þessu haft siñ vissañ Tilgaang, og vist er Þad, ad Gidin-gar brukudu Þad Orda-tiltæke og Konu-Nafn ogso til Mædraña, og Þetta Nafn Kona er i Skrifteñe eitt almeñelegt Nafn, sem aan Mis-munar giefed verdur haruñ og laagum: Eñ hier til eru adrar Ordsaker: Nockrer hafa meint, ad hañ sokum Foolksens so talad hafe, ad ei Þeir heidnu Stridsmeñ og Almuge, honum til eñ meire Kvala, skylldu giora heñe nockra Smaan, Þaa Þeir heirdu, ad hun være hañs Mooder: Epter Þvi Þeir nu ei leingur kuñu til hans ad naa,

þaa hefdu þeir þoo kuñad ad piina hañ eñ framar, med þvi ad giora heñe illt, hvoriu hañ med þeſſu Konu-Nafne hefde viliad afſtiira. Eñ þeſſe þeirra rokſemd nær ei riett langt, þvi auk þeſs ad Maria hefur ei vered ſo Oþeckianleg medal þeirra, ad þeir vel vita mattu, þad hun være hans Mooder, ſo kuñu þeir af þeim ordum Jeſus talade auovelдlega ad ſkilia, ad hun var hans Mooder. Adrer hallda, ad epter þvi hañ aadur i ſinu fyrſta Orde talade til ſins Fodurs: Fader fyrergief þeim, ſo hafe hañ nu ſtrax þarupþaa ei viliad Kalla Hana Moodur, ad þad ei ſynaſt ſkylde, ad hañ giørde Hana jafna ſinum Fodur, edur giæfe tilefne þartil, ad nockur ætla ſkylde, ad Gud være aa þañ hatt Fader, ſem hun være Mooder. Þad kynne og vel ad vera, ad hañ med þvi vidkvæma Moodur Nafne, hafe ei eñ þaa frāmar heñar Hiarta ſæra viliad: Eñ eg ætla, ad Jeſus med þeſſu Nafne, Kona, hafe viliad miña Hana aa þad fyrer heit, ſem Gud gaf i Paradis, ad Kviñuñar ſæde ſkylde i Sundurmeria Hoggormſens Hofud; ad i þvi Orde Kona ſie ein huggun iñefaleñ, ad hun ſkylde ei ſo miog ſyrgia ſiñ Dauda, helldur gledia ſig og hugga vid hans Nytſeme, hun ſkylde laata ſier i hug koma, ad hun nu være ſu Kviña, hvorrar Sæde ſkylde endurleyſa allañ heimeñ, og þarfyrer ei ſyrgia ſo miked ſem ein Mooder, helldur gledia ſig ſem ſu Kviña er nu ſæe Hoggormſens Foottrodara: En hiñ vigtugaſte hans Tilgaangur, hvarfyrer hañ nefner

Hana

Hana ei Moodur, er ad minuñ þaanka sia, ad hañ miñte Hana þess, ad hañ ecke være heñar Son alleina, hun skylde hugleida, ad hañ einkanlega være Guds Son, og hvad hañ nu lide, þad lide hañ ei raunar sem heñar Son edur eintomes Mañeskia, heldur lide hañ nu sem eiñ sañur Gud; riett nu være hañ ad sinu forliikunar Embætte, hañ være nu i þeim hlutum, sem være hans Fodurs, og þarfyrer kyñe hañ ecke ad tala til heñar sem Moodur, heldur miklu framar sem siñar Dottur, eiñrar Kviñu, sem hañ ææsamt ollum odrum være nu ad endurlejsa: Hañ villde seigia: Eg hefe hingad tll vered þiñ Sonur, og sem þu veitst, eiñ hliideñ Sonur, eñ nu mæatt þu ihuga, ad eg er Guds Sonur, sem giore mins Fodurs Vilia, og i þessum gjørninge hefe eg ei ad giora med þig sem Moodur, og ei hefur þu ad syrgia so frekt miñ Dauda sem Mooder, heldur sem ein truud Saal, gledia þig yfer þeirre Saaluhiaalp, sem þu og allt mañkin hefur sier ad vænta af minuñ Dauda: Þarfyrer, sosem Paulus seiger: Vier þeckium ecke Christum leingur epter holdenu. 2 Cor. 5. v. 16, so þeckte og Jesus ecke, so leinge hañ var i sinu Medalgaungu Embætte, sina Mooder epter holdenu; i þessu hafde hañ ei ad ææliita Hana sem Sonur, heldur sem eiñ Endurlausnare og nææðugur Fader, ad hañ giæse heñe nockra Huggun, hvarfyrer hañ seiger til heñar:

III. Sem

III. Sem er ſu Þeidia greineñ, Kona ſiꝏ Þar er Þiñ Sonur: Mariæ ꝏſigkomulag var hier hid allra aumkunarverdaſta, ad Þvi leite ſem ſu tiimanlega Sorg mꝏ kallaſt eimd og volæde fyrer eiñe Chriſteñe Mañeſkiu: Pad mꝏ rꝏda fyrer viſt, ad hun hafe vered Eckia, Þvi i allre Piinuñe er ecke ad fiña eitt Ord uṁ Joſeph, og ei einaſta Þad, heldur getur hañs hvorge, frꝏ Þvi Jeſus var 12 Ara gamall, Þar Þo ſo opt talad er uṁ Jeſu Moodur og Ættingia, og mꝏ hañ nu eflauſt hafa Daudur vered, Þvi annars, Þꝏ hefde hun ei Þeſs vidÞurſt, ad Johannes veitte heñe Hiꝏlp og Forſtodu; hun var Eckia, ſeige eg, og hniigeñ til Aara, Þvi til viſſu, Þꝏ var nu heñar Sonur, Þriꝏtju og Þriggia Aara gamall, ef ecke elldre, hun hafde utſtaded miklar Offokner, og laudflootta orded fyrer Jeſu ſaker; eñ Þetta heñar Sorgar-ſꝏr tok Þo yfer, ad miſſa ſo aumkunarlega heñar einuſtu Glede, Trauſt og adſtod, og yfer Þviliku heñar ꝏſigkomulage hrærdeſt nu Jeſu Hiarta til Medaumkunar, hvarfyrer Þꝏ hañ leit hana med ſinuṁ bloodugu Auguṁ, og under eins med Þeim guddoomlegu ſꝏ iñ i heñar Hiarta, ſagde hañ til heñar: Kona; ſiꝏ Þar er Þiñ Sonur: Sem vilde hañ ſeigia: Eg veit ad Þu ert ſorgfull yfer minuṁ Dauda, eñ lꝏt Þina Sorg ei gꝏnga ofviidt; Þo ad eg nu ſem Þiñ Sonur meige deja, Þꝏ dei jeg Þo ei ſem Guds Sonur, heldur vil ætiid hafa eitt vakande auga yfer Þier: Og ad Þu haſa ſkuler nockurt ſynelegt athvarf,

ſo

so vil eg þig á Hendur fela minum Lærefvein Johanni, hañ skal vera þiñ Son i miñ Stad, hañ elskar mig og eg er viss um, ad hañ fyrer mina Skuld, skal elska þig og vera þier til adstodar; eg vil nu strax med einu Orde i hans Hiarta upplifga þvilikañ Kiærleika, ad hañ hiedañ af skal audsyna þier alla Dygd og Elsku, sem eiñ Sonur siñe Moodur, so ad þu sokum þessa mins timañlega vidskilnadar skalt einskes i missa: Jesus sosem gleimer hier siñe eigeñ eimd, og sorgar fyrer siñe Moodur, eins og David, þa hañ saklaus var offoktur af Saul, og rekeñ fra einum Stad til añars, og hans Forelldrar fyrer hans Skuld voru stadder i somu Neid, so sorgade David framar fyrer þeim eñ sialfum sier; hañ gieck burt til Mispa, og sagde til Kongsens i Moab: Kiære! Leif minum Fodur og miñe Moodur ad gaanga hier ut og iñ hia ydur. 1 Sam. 22. v. 23. Soddañ sonarlega umoñun ber nu Jesus fyrer siñe Moodur, þa hañ sialfur var bæde af Gude og Moñum yfergiefeñ, hvarepter hañ strax seiger; Sem er su.

## Oñur Høfudgreineñ.

Til sins elskande Lærefveins Johannis, sia þad er þin Mooder: Hañ hafde aadur giefed heñe þa Huggun, ad Johannes skyllde vera heñe eiñ trulindur Sonur; nu þar i moot vill hañ uña Johanni þess sama, ad hañ gaanga skule i siñ Stad, hañ skule vera siñ Brooder,

og

og Sonur sinar Moodur: Johannes hefde þetta Sitt umbod af hende læted fyrer noskur Veraldar Metord þo stærer hann sig ecke hier af þvi; hann nefner hier ecke sitt eiged Nafn, helldur einasta þann Læresvein sem Jesus elskade, sem var hans veniulegt Ordatiltæke, nær hann meinte sialfann sig, hann Oskade ei epter ødru Nafne; þetta var hanns stærste Æruntitell, ad hann var sa Læresveinn sem Jesus elskade; og var þessare Jesu elsku ei þannveg hattad sem elsku Manna, þvi þeirra Velunnan fellur tidumm eins og regned yfer Vonda Jord sem gooda; ei helldur var þetta einunges naatturlegur Kiærleike, med þvi þeir voru so naaskylder, þar Johannes var Sistur-Son Mariu, þri þar voru adrer Jesu eins naakomner; helldur var sin heldsta Ordsok hier til þesse, ad sosem Johannes elskade Jesum mest, so elskade Jesus hann mest; Jesus elskar þaa sem elska hann: Jesu Kiærleike var sa segulsteinn, sem droo Johannem ad Krossenum, þaa hiner adrer droou sig i hlie; og hans elska aptur til Jesum var sa segulsteinn, sem hneigde Jesu Hiarta enn framar til hans: Pad er eitt vist Merke uppa vora elsku til Jesum, ef vier, jafnvel i neid og hættu viljumm vid hann kannast, og þoo vier Vissumm, ad vier fyrer hans Saker Spott og Brixle liida ættumm; ennhvør sem eins og Nicodemus, vill einasta hallda sier til Jesum Heimuglega, Koma til hans a nætur þele, enn a Dagenn vera sem hiner adrer Pharisæi, þess Kiærleike er aungvanneigenn sannarlegur: Epter

 þvi

Þvi Johañes var hier stadfastur vid Jesu Kross, so var þad auglioft, ad hañ var sá Læresveiñ sem elskade Jesum, og Verdskuldade ad Jesus hañ aptur elskade, ad skilia, sovidt ein aum Mañeskia kañ þad ad Verdskullda, þar fyrer skal og Johañes Odlast þá vegsemd, ad vera Jesu Moodur i Sonar Stad; Johañes, siá þad er þin Mooder: Ordiñ eru nærstafá; þad hefde mátt ætla, ad Jesus hefde sierdeilislega beded um sina Moodur, þar til fært morg Ord og margar Ordsaker, ad hañ tæke hana ad sier, og lagt þad uppá hans Samvitsku; O! miner Elskanleger! Hvar sañarleg Elska er til Jesum, þar þarf ei morg Ord, og ei lángar Bæner: Jesus vilde seigia: Ad þu elskar mig þad veit eg, eg veit og, ad þu vilt audsyna vid mig þiñ Kiærleika; þar fyrer siá, þad er þin Mooder, gior vid hana epter þvi sem þu elskar mig, þu veitst, ad þar er eckert, sem þu gietur giort mier þægara, eñ ad vera Umsorgun fyrer miñe Moodur, þarfyrer, siá hvar hun nu er, og upp frá þessu ætlast eg til, ad hun sie þin Moder og þu miñ Brooder; og þetta var nu noog, já meir eñ noog sagt og talad til þvilikrar Sálar, sem Jesum hafde so kiærañ, til eins Læresveiñs sem Jesus so elskade: frá þeim Tima took Læresveiñeñ hana ad sier: Þad var so lángt frá, ad Johañes vyrdte fyrer sier þetta Omak, edur færdest undañ þeim þyngslum honum være nu uppálögd; hañ spurde hier ei sem Petur fordum: Hvad skal þá þesse? Joh. 21. v. 21.

Skulu ei hiner adrer Læresveinarner og so giora nockud? nu visse hañ, ad hañ var sa Læresveiñ, sem ei einasta Jesus elskade, helldur og elskade Jesum; þvi þad er Kieñemerked, ad giora hans Vilia ann moglunar, hvor mig elskar hañ helldur min Ord Joh. 14. v. 23. Þarnærst, ad vier elskum þa sem Jesu tilheira, Guds Born, Jesu Moodur, hans Lime, og latum þad vera vora List og Iñdæle, ad giora þeim til gooda; og þetta hvorutveggia var hier ad fiña sia Johañe, Jesus sagde ecke: Þu att ad taka hana til þin, þu skalt veita heña forsorgun: Helldur einunges: Sia þad er þin Mooder! Eñ hañ skilde audveldlega Jesu Meining. O! Kiærleikureñ til Jesu er sa beste Tulkur, til ad seigia oss hvad Jesus meinar; hofum vier ei elskuna, hvad eru hans Bodord oss þa ei þung? vier giorum þa ei añad eñ færum fingur uti Christi Bodord og Skipaner, hnisustum epter, hvort þær sieu ei ad skilia so edur so, hvort i þeim sie ei oñur Meining, ad oss giefast kuñe eitthvort undañfære, og soleides giorum vier þaug flestu Jesu Bodord ad aungvu; edur ad miñsta Koste so Meiningarliitel ad þeirra Kraftur verdur eingeñ, sem oss skuldbinde, og ad Sidustu vor Skylda eingeñ efter þeim ad breita: Eñ Kiærleikureñ er ei so: O! honum eru Guds Bodord audskileñ; hañ hefur eingeñ umyrde; hañ hliider þeim strax og fylger i einfeldne: Af þvi ad Johañes elskade Jesum, skilde hañ audveldlega hañs Meining: Og uppfra þeirre Stundu took hañ

hana ad Sier: J Hofudtungumaalenu er þad so: Hañ took hana i siñ Eieñdoom, hvar af raada maa, ad Johañes hafe ei vered so Orfaa tækur, jafnvel þo þad heite so um hañ, ad hañ hafe yfergiefed alla hlute, þad er, slept og fraa sier giefed alla umsislan; helldur hefur hañ nu aftur ad sier tefed sinar Eigner Jesu Moodur til forsorgunar. Þañig var þad añad Jesu Ord aa Krossenum, sem synast maa, ad aahræra einasta þad tiimanlega, þarfyrer mætte einhvor so þeinkia: Hefur þaa Jesus ei haft añañ vigtugre Hlut ad þeinkia til aa siñe Daudastundu, eñ ad bera aahuga fyrer þviliku, sem ei var meira i spuñed? Hvartil svarast: Ad vorre Hofmoodugu og blindu Skinseme synest jafnañ, sem hun siñe eitthvad Adfiñdnesverdt i Guds Orde; eñ fyrer þeim upplystu Augum Truareñar, er þad laangtum Odruvise; þri so litelsverdt sem þetta Jesu añad Ord kañ ad synast, so audugt er þad af morgu Goodu oss til Lærdooms og Huggunar.

Af Mariu eigum vier ad læra elskuna til Jesum; heñar Elska var sterkare eñ Daudeñ, so eingeñ Haaske, eckert Spoott nie Brixle kuñu heñe ad snua fraa Jesu Krosse; vier lærum af heñe trufeste og stodugliude, ad vera trur iñtil Daudans, so vil eg giefa þier Coronu Lifsens, Openb. 2. v. 10. Eirneñ ad vera Hugpruder og Otrauder ad liida fyrer Christi Saker.

Af Jesu lærum vier þad Hlidne og Kiærleika, sem vier erum skylduger ad audsyna vorum Forelldrum; ad lika sem ein Mooder kann ei ad gleima sinu Barne, so ad ei helldur Barned ad gleima sinum Naudstoddum Forelldrum. Hvad Paulus kallar ad endurgiallda sinum Forelldrum, og þad seiger hann sie velgiørt og þacknæmelegt fyrer Gude, og saasem þad ei giøre, han hafe afneitad Trunne og sie Heidingium verre. 1 Tim. 5. v. 4. 8. Vier lærum hier einnenn af Jesu, ad þad er gott og riettvist, ad Manneskiann fyrr enn Hun deir, raadstafe sinu Huse, og setie alt til rietta sem fyrst hun gietur i Þvi tiimanlega, og soleides hefur hann i þessum Ordum, lika sem stadfest vor Testamenta og Embætte Fiaarhaldsmannanna, nær þeir ad eins sins Embættes med þviliku Hreinlinde geima villdu sem Johannes.

Af Johanne lærum vier, hvørsu aagiætt þad sie, ad bera Umsorgun fyrer Jesu Moodur, og hans Vinum, ad hiaalpa Eckium og fodurlausum, hvad Jacob kallar hreina og Obleckada Guds þioonustu, Jac. 1. v. 27. Jesus hann hroopar enn nu til vor, og einkanlega þeirra, sem Gud hefur giædda med Viisdoome, Magt og Mindugleika: Siaa þad er þin Mooder: Guds Kirkia er vor Mooder, O! aalited þaa neid Guds Kirkiu; siaaed hennar eimd: siaaed hvørsu hun er fyrerlitenn af hennar eigenn; siaaed hvørsu hatur, Strid, Ogudlegleike og falskur

Christendoomur hana so afmindad hafa, ad hun er ei siaalfre sier lik Ordeñ; O! Taked ydar Mooder ad ydur so marger sem gieted, aller Þier sem siaaed heñar Hrornan, ad heñar mur-vegger meige endurbætast og uppbyggiast. Framar Þaa læruṁ vier af Johañe, ad vera ætiid suser og reidubuner ad hliida Guds Vilia; uppfraa Þeirre Somu stundu, took hañ hana ad Sier; ad Þad gooda sem vier viljum giora, Þad sama giorum vier aan hindrunar med allre good-fyse. Eñ vorn helsta Hofudlærdoom Viljuṁ vier ad Þessu siñe utdreigedhafa, af Þessum Tit-le Johañis, saa Læresveiñ sem Jesus elskade: O! miner Elskanleger, laatuṁ ofs kieppast ep-ter Þeim sama, sierhvor af ofs giore sitt besta, ad vier Þeñañ Werutitel epter Johañes erfa ku-ñuṁ; ad vier aa siidañ Þaa fogru Grafskrift i Daudanuṁ Odlast mættuṁ: Hier liggur eiñ Læresveiñ sem Jesus elskade: Johañes hafde siaalfur eitt pridelegt Nafn, sem merker iñdæ-lañ; hañ hafde Þar hiaa stoora Titla; hañ var Christi Postule, Spaamadur og Gudspialla madur, en ollum Þessuṁ nofnuṁ slepper hañ, Þaug meiga giarnañ oll gleimast og utelykiast, nær hañ ad eiñs maa hallda Þessu sinu eina Naf-ne, ad vera saa Læresveiñ sem Jesus elskar: Þad vill liited gagna Þier, miñ Christeñ Broo-der, hvort Nafn Þu hefur, i hvoriu Stande Þu ert, hvorier Titlar og Byrdingar Þier hlot-nast hafa, alt Þetta, seige eg, vill lited hiaal-pa, utañ Þu hafer jafnframt Þañ Werutitel:

Eiñ

Eiñ Læresveineñ sem Jesus elskar og elskar Jesum: Eingeñ kiemst tilad ødlast þad nia Nafn skrifad a Steineñ, sem Christur lófar Openb. 2. v. 17, utañ hañ hafe hast þad Nafn hier a Jorduñe, og þetta Nafn kuñum vier adfa medsama hætte og Johañes, Viljum vier verda elskader, so elskum, vilier þu vera eiñ Læresveiñ sem Jesus elskar, so vert ein Læresveiñ sem elskar Jesum, eñ þar af þeckest ad vier elskum hañ, ef vier holdum hañs Bodord 1 Joh. 5. v. 3.

Hier er ogso ein huggun i þessum Jesu Ordum, ei einasta fyrer Eckiur og yfergiefnar Mañeskiur, helldur og nær þesse huggun til allra Guds Barna, med því ad ei alleinasta Maria er Jesu Mooder, helldur og aller þeir sem giora Vilia hañs Fodurs; ecke er Johañes alleinasta hans Læresveiñ, helldur og aller þeir sem taka hans Kross uppa sig, og fylgia honum epter: Hans Umsorgun tilheirer ogso ollum; hañ veit vel, ad aungver fa meira ad liida i Verolðeñe, eñ hans Mooder og Læresveinar, hans Børn og Limer, hañ veit ad þar er eingeñ, sem Sorgar fyrer þeim, Heimureñ Sorgar fyrer sinum Bornum: Værud þier af Heimenum, þa elskade Heimureñ ydur, Joh. 15. v. 19. Nu vel, so vill þa Jesus sorga fyrer þeim; sa sem hier gaf siñe yfergiefnu Moodur eiñ Johannem til Huggunar og Adstodar, hañ vill og epter sinum Viisdoome og Kiærleika a tiima Neidareñar gefa þeim Hialparmedal, rad og

vine, Þvi hañ hefur sagt: Eg vil ecke yfergiefa Þig. Ebr. 13. v. 5.

Ein truande Christeñ Mañeskia mæ Þarfyrer med oruggu Hiarta giefa sig æ vallð Þessum̃ sinum̃ trufasta Frelsara, og sier allre i Þessa hans Ords Nædar afgruñ diupt nidurvarpa; sosem Þæ æ Krossenum̃, so hefur hañ nu æ Himnum̃ sitt Miskunar Auga æ Þeim, sem upplista sinum̃ Augum̃ og Hiortnm̃ til hans; hañ hefur eñ nu medaumkunarsamt Hiarta yfer Þeirra Neid, vinsamlega Tungu ad hugga oss med, og eñ edur añañ vin, hvorium̃ hañ vill seigia, ad taka oss ad sier: Vel sie Þeim sem ei gæanga til Þeirra folsku Bruña, sem ei kñña vatne ad hallda, helldur hallda sier til Þeirrar lifande uppsprettu: hans Um̃sorgun er og stadfost, likasem hañ elskar sina, so elskar hañ Þæ allt til enda Joh. 13. v. 1. So vier meigum̃ seigia um̃ hañ, sem Naemi um̃ Boas: Sæ madur hefur byriad ad giora vel, hañ lietter ei fyrreñ hañ hefur Þad fullgiort Ruth. 3. v. 18. Nær Smidureñ hefur Hused uppbygt, og kañ ei framar Þar vid giora, so geingur hañ burt, eñ fyrer gude er Þad ei Þañveg, hañ hefur ei einasta byggt oss i Moodurlife, helldur leider oss sidañ igiegnum̃ Veroldena, og yfergiefur oss ecke, Þar til hañ leggur oss i Skaut vorrar Moodur grofina, Þarfyrer seiger David: Drotteñ Þu ert mitt Traust, min Von ifræ Ungdoomenum̃, æ Þig hefe eg treyst Þegar ifræ Mooðurlife, Þu hefur

mig

mig utleidt af miñar Moodurliife, þu burtkastar mier ecke i miñ: Elle, og yfergiefur mig ecke nær eg hrorna. Psalm. 71. v. 5.

O! Herra Jesu! þu trufaste Frelsare, vier þockum þier og eirneñ fyrer þetta þitt Lifsens Ord að Daudastunduñe, i hvoriu þu þitt mißkunarrika Hiarta oß audsynt hefur, og underviſad, hvorsu þu, vor ypparste Kieñemadur, ber oß alltid að þinu Briooste, og alldrei villt yfergiefa þaa sem staña under þinuñ Kroſſe, og elſka þig iñ til Daudaňs: Utrtim af voruñ Hiortuñ alt of mikellre Sorg og aahiggin fyrer vorre likamlegre Velferd og ſierdeiles þeirre Sorg, ad vier miſſuñ nockurs ief vier þig elſkum: Miklu framar þaa styrk þu vora Tru og laat þetta þitt añad Ord að Kroſſenuñ diupt iñſkrifast i vor Hiortu, ad vier i allre vorre Neid meiguñ oß vid þad hugga; veit og eirneñ ad þetta þitt Ord mætte oß ad elds glædum verda og upptendra i oß eina sañarlega Elſku og Kiærleika til Naaungans! Hieruñ vyrdstu oß ad bænheira, o Jesu, fyrer þins Kiærleika Skuld og Saker! Amen.





# Þridia Prædikun
ut af
# Þvi þridia Christi Orde a Krossenum.

Luc. XXII. v. 42. 43.

Eñ sæ annar Ræninge sagde: Drotteñ miñstu min þaa þu kemur i ryke þitt; og Jesus sagde til hañs: Sañlega sege eg þier, i Dag skallt þu vera med mier i Paradiis.

## Jngaangurinn.

Vier høfum heirt þañ Daudans Bodskap sem Spaamadureñ Esaias bar fordum Konungenum Ezechias: Raadstafa þinu Huse, þvi þu skallt deia, en ecke lifa. Es. 38. v. 1. Lautuñ nu sem vier værum komner i hans stad; og þesse Bodskapur være oss byrtur of þvilykum Sendeboda uppaa hvors Sañsogle vier mættum Obrigdaulega reida oss: Raadstafa þinu Huse, þu, þu, þu, skallt at

þessare Stundu deia en ecke lifa; hvorneñ munde oss verda vid þad? med hviliku Hiartalage mundum vier að þad hlyda? og hvorneñ munde þar horfa til hid iñra hiaa oss? Jeg ætla, kiæru Viner! þess sie nu ecke audveldt ad geta hvorneñ soddan Bod munde gediast oss. Vier meinum soddan mune ei uppaakoma, þad hafe eckert faar, vier deium þoo ecke so snarlega, og er þvi vangeted hvorsu oss munde verda vid soddañ oforvarandes tydende. Vort eged Hiarta dregur oss að taalar og oss þyker so vænt um ad hræsna fyrer siaalfum oss, ad meire er von, vier iñbirlum oss ad ei munde oss stoorum bregda þar vid, helldur mundum vier suser Daudanum taka. Þad er og Omogulegt madur vite fyrer fram hvorsu Hetiulega hañ kuñe ad deia þvi vier erum Oreinder þar i og hofum þar so liited af ad seigia; hitt er vist ad soddañ munde einkum þar að riida hvorsu vor Samvitska være aasigkomeñ, og hvilykur vor maalsstadur være fyrer Gude. Saa Bodskapur; **þu skallt deia og ecke lifa:** maa vera hid skielfelegasta Reidarslag i Saalu hiñs Ogudlega. Hañ maa vissulega aalyta Daudañ sem eirn Bodul er komnu sie ad hrysa hañs Saal ut af Lykamans Fangelse og færa hana til maklegra Kvala og refsingar ut að Aftokustadeñ. Orded; **Þu skallt deja;** er sem til hans sagt være; nu er allt þitt ynde og epterlæte að enda; þu skallt deja, þad er þu skallt mæta fyrer einum Domara sem þu hefur

fur alla þina Lifstiid til reide reittañ, og ei kañ med mutuñ edur vielum ad forblindast, sem adrer Domarar; fyrer einuñ Domara sem sier alla hlute og krefst Reikningsskapar fyrer allt þitt Illsku athæfe, limsku Bragd og Heimuglegar Spirnyrdingar Saalar þiñar. Nu skalltu æisamt hinum fordæmdu Aundunum saña þad ad hiñ riettlaate Gud er eirn fortærande Elldur. Slikuñ moñuñ kañ þad ei añad ad vera en Dauden sie riett Ognarlegar. Eñ þar æ mote olluñ þeim sem eru gude iñlyfader og seigia kuña med Paulo: Jeg hefe godre bar attu barest, behalded Truñe og godre Samvitsku. 2. Tim. 4. v. 7. Þad kañ ei hiaa þvi ad fara ad Daudeñ sie aullum þeim velkomeñ edur ad miñsta koste alldrei so Ognarlegur. Saa Bodskapur, þu skallt deia, er sem til þeirra sagt være: Nu skalltu gaanga utaf þessum Eymdardal, þiner Ofundarmeñ skulu þier ei framar mein giora, þu flitur nu i þaa dyrdarvist hvar eingen Sorg er helldur eilyf unadsemd þiñ Brudgume er komeñ ad iñleida þig i Brudkauped, Eliæ Vagn er tilreidu sem skal færa þina Saal til Himens. 2 Kongb. 2. v. 11. 13. Saalarenar Skickia likameñ skal alleina uñ stundarsaker efter verda. Þvilyk Saal kañ fullorugg ad ad svara Daudañs Bode med þessuñ Jacobs Orduñ þaa hañ hafde aptur sied siñ Son Joseph Gen. 46. v. 30. Nu vil jeg fegeñ deja; þad kostar meira eñ liited eitt fyrer

rer Mañeſkiuna ad tala þeſſe Ord i fullre Alvo-ru; fyrreñ vier þad af Hiartans Rot ſegia ku-ñum, meigum̃ vier eiga Harda Oruſtu vid ſialfa oſs, ſiaalfum̃ oſs afneita og ſliita oſs lauſa af ollum̃ þeimſiotrum̃ er halda oſs i Drooma; þad er eingen Konſt ad tala diarſt um Daudañ, ſolen-ge Madur ætlar hañ heire þad ecke og ſegia: Jeg aa ecke nema einuſiñe ad deia, jeg hef ecke nema eitt Lyf ad añaſt, þaa þad er burt, ſo er þad ei meir til. Daudeñ er ein vita Skulld og er þvi betra ſem hun er fyrr lokeñ; O Jaa þetta er miked liett ſagt, ſoleinge Madur ætlar Daudeñ ſie laangt burtu, eñ þad hygg jeg mar-ger mundu ei vera ſo ſtororder ef þeir viſsu ad Daudeñ ſtæde affydes i veggiarhorne og heirde aa Hial þeirra, og kæme hañ þaa fram̃ i ſama bile og ſpyrde hvor ſaa være er ſo fus villde de-ja, þaa ætla jeg fleſter Mundu hafa ſig undañ þegna og ſegia, þad voru alldrei miin Ord. Þad er ſo edle allra Lifande ſkepna ad þær elſka Lii-fedhiñ veſælaſte Jardar; madkur einger ſig ſa mañ fyrer Daudanum; margar Mañeſkiur vi-lia lifa vid volæde og orkumſl jaa miſsa allt af likamanum hvad miſſaſt maa ef þeir einunges halda Lyfsanda i þvi er epter Verdur. Sa-tan er Lygeñar Fader eñ i þeſſu ſagde hañ ſatt; Hud fyrer Hud, og allt hvad Madureñ hefur, þaa gefur hañ fyrer ſitt Lyf, Job 2. v. 4. Ef tveimur beſtu Vinum̃ og Egta Perſonum̃ veiter þunglega ad ſkilia, hvilyk aan-

giſt

gist maa þad þaa ei vera, þaa Saal og Lykame skulu sliitast hvort fraa odru epter margra aara ununarsamlega Sambud; eñ allt fyrer þetta seger þo Jacob hier med rolegu hugarfare, nu vil jeg segeñ deja; mun þesse gamle Madur ei vitad hafa hvad þungt þad være ad deja? edur mun hañ hafa talad þvert uñ hug sier? Ney, hañ gieck nu aa grafarbackanum, og er þvi lyklegt hañ hafa bæde fullreindur vered i Verolldeñe, og laungu siidañ vid Daudanuñ buest. Vier hliootuñ ad giora greinarmun mille eirnrar eintomes naatturlegrar Mañeskiu og eirnrar Endurfæddrar. Allt hvad sagt er uñ Vidbiood fyrer Daudanuñ aa einasta heima hiaa eirnre naatturlegre Mañeskiu sem stioornast af eigen þootta; eñ saa sem leidest af Guds Anda helldur Daudañ fyrer siñ besta Vin og seger med Paulo Phil. v. 21. Daudeñ er miñ aavinningur. Þaa nu holldleg skynseme er hellgud fyrer truna uñ þaa epterkomande dyrd og tekeñ til Faanga af Elskuñe til Christum, so er Daudeñ i aungvu Vidbioodslegur; þvi hafa marger jafnvel truader undereins viliad og ecke viliad deja, so þaa hefur bæde hrillt vid Daudanuñ og laangad epter honuñ og maa þar siaa Striid aa mille holldsens og Andans; eñ þvi meir sem holded sigrast af Andanum og Truñe, þvi helldur minkar hrædslañ fyrer Daudanuñ, og stæckar laungunneñ epter þvi eylyfa; þad kañ ei odruvise ad vera,

ef

ef Maññeſkiañ villde ſtioornaſt af truñe, og med heñar upplyſtu Auguñ, ſkoda þañ Jardneſka Hegoma. Hvor vill ecke liida illt uñ ſtundarſaker til ad nioota að epter margra godra aura? Ef vier ſkielſunſt ofmiog fyrer Daudanuñ maa þad illa vera aaſtadt fyrer Saalunne, og er þeſs von ad þad ſie fyrerdæmingeñ ſem oſs Ognar og ofbydur. Samt med þvi vier hoſum ætid nockrar holdſens epterſtodvar tilbaka, kañ ei hiaa þvi ad fara ad vier berum nockurn Kviida fyrer Daudanuñ. Eñ þeir einer hafa naad hiñe hædſtu Troppu Chriſtelegrar Fullkomnunar i þeſſu Liiſe ſem jafnvel þo þeir ſiaæ Daudañ fyrer Augunum, kuña med Jacobs hugprydе ad ſegia: **Nu vil jeg fegeñ deja;** þad er nær þeſſe laungun ordſakaſt ei af Oþolenmæde heldur einunges lyſt og fullviſſu uñ þaa eilyſu dyrd og vegſemd. Þo maa eingeñ taka ſo Ord miin ad jeg raade nockrum ad æſkia ſier Daudans, ſem traudlega ſkedur aan Syndar, utañ Madur ſegia kuñe med Paulo: **Mig laangar af Hiarta epter ad ſkiliaſt hier fraa og vera med Chriſto.** Þaa Folk æſker ſier Dauda er tilgaangureñ ſkialldañ þeſs haattar, helldur ſkedur þad añad hvort af breiſkleika ſem hiaa Jonas þaa Lundureñ viſnade edur þad ſkedur af Leida under þeſſa Liiſsbyrde ſem hiaa Elias þaa hañ ſaa vondſkuñar tilvoxt i Achabs Huſe 1 Kongb. 19. v. 4. Edur þad ſkedur af Oþoleñmæde i Motgaangenuñ, ſem þaa Job Oſkade betur

hañ

hañ alldrey fæddst, edur og strax hefde dæed. Job. 3. v. 3.

Veralldareñar Born vilia so tregt skilia vid siñ Rykdom og timañleg Metord, edur sleppa þvi vissa fyrer þad Ovissa, eñ hid jardneska Verdur alldrei riett Christnum moñum ad footakefle heldur miklu framar ad Arnarfiodrum edur væungium, hvar med hañ þvi lettudugar upplypter sier hier frꝏ; Heimsens glede og Metord eikur honum þvi stærre epterlaungun til þeirrar vegsemdar sem honum er fyrerbueñ ꝏ himnum. Pañeñ var þvi hættad fyrer Jacob, hvorke fognudur yfer ad faa siñ Son, edur Egyptalands Metord kuñu honum leingur uppe ad halda, hañ visse so grandt hvad honum epter Daudañ var fyrer bued Hafe hañ nu vered so fus til ad deja, þꝏ hañ hafde funded Son siñ Joseph, hvorsu mꝏ þꝏ ei miklu framar ein ydrande truud Sꝏla, sem hefur funded siñ Jesum og umfadmar hañ i truñe, vera fus ad ykia hier frꝏ til ad vera med honum eilyflega i Guds Ryke; hun kañ giarnañ segia med Jacob: Nu vil jeg fegeñ deja og med Simeon: Drotteñ lꝏt nu þiñ þion i Fride fara.

Snuum nu aptur til þess krossfesta Jesum ꝏ Golgatha, og yfervegum hans þridia Lissens Ord. Hier fiñum vier eira Mañeskiu sem med ollum

aulluñ i rette vill og kañ segia med Jacob: **Nu vil jeg fegeñ deja;** nefnelega Ræningiañ er hieck vid Jesu Siidu; hañ var andvaralaus og Ogudlegur, ja eirn Fortapadur Sonur sem lenge hafde vered daudur i Syndunuñ, eñ nu var hañ komeñ til Umvendunar, nu hafde Gud aptur funded þeñañ fortapada Son, sem Jacob siñ Son Joseph. Nu hafde þesse Ræninge ei einasta feinged Jesum ad sia heldur og af hans muñe fullvissu þar uñ sdlast ad hañ þañ sama Dag skyllde med honuñ **vera i Paradiis;** nu var hañ fus ad deja ei einasta sokuñ siña Illgiörda Verdskulldunar, helldur og langade hañ nu þar epter og er jeg viss uñ ad hañ ei vilde viña þad fyrer alla Veralldareñar Dyrd ad lifa leingur, og þo einhvor hefde viliad taka hañ nidur af Krossenuñ; munde hañ svarad hafa; ney, nu vil jeg fegeñ deja þvi jeg hefi nu funded miñ Jesum, og skal i Dag vera med honuñ i Paradiis. Hvorsu gledelegur er ecke Daudeñ einuñ Truuduñ; mañe þa hañ fær hañ strax sama Dag, sama Augnablik burt hedañ med Jesu og til Jesum inni Paradiis. Hafe eirn deiande Ræninge feinged þvilyka fullvissu uñ sina Saalar Velferd, hvor skyllde þa skelfast fyrer Daudanuñ, og ei segia med Jacob: **Nu vil jeg fegeñ deja.** Laatuñ þa skelfast fyrer Daudanuñ sem einskes Gods hafa sier ad vænta epter Daudañ, og ei kuña ad hugga sig vid Jesu Dauda; Eñ ein truud Saala, sem

F skal

ſkal vera med Chriſto: jafnvel ſama Dag og Augnablik; hvoriu ſkyllda hun kviida? hvar ſkylldum vier helldur vera vilia eñ med Chriſto i Paradiis; velkomeñ vertu O Daude! og leid oſs þangad. Laatuñ oſs þaa af þeſſu þridia Lyfſens Orde aa Daudaſtunduñe oſs til yfervegunar taka

I. Eins deyande Syndara hiartanlega andvarpan; og

II. Eins deyande Frelſara naadarrykt Anſvar.

## Utleggingeñ.

Hvad þvi fyrra Vidvykur; þaa er i þeſſuñ Orduñ Ræningians, Drotteñ miñſtu miin þaa þu kemur i Riike þitt, ad ſiaa og fiña þaa hlute ſem oſs vyrdaſt mega miked undarleger og ſkialldgeingner; þad er ad ſoñu Ovenjulegt ad heira eirn Mordingia edur Ræningia bidia, þo er þad ei ſoad undra, þvi nær þeir eru i Angiſteñe kalla þeir Eſai. 26. v. 16. Ogn Daudañs getur jafnvel utpreſſad eina Bæn af þeirre allra forherdtuſtu Mañeſkiu. Hitt er Ovenjulegra ad hañ hier tilbidur eirn kroſsfeſtañ Mañ, ſem var i ſomu Fordæmingu og hañ, ad hañ nefner hañ Drotteñ og Herra aa hvoriuñ eckert veglegt edur herlegt var adſiaa; þad ſæter eñ nu meire Undrum, ad hañ

hañ tileignar þeim eitt Riike, er ei hafde þad hañ kyñe sinu Hofde ad ad halla, edur hylia med siñ nakeñ Likama, til hañs seger hañ; **Miñstu miin i þiinu Riike.** Eñ þad sem mest yfer tekur er þad ad hañ beidest þessa at beg-gia þeirra Daudastundu, þo hañ hefde hiñ megtugaste Kongur vered og mørg Riike att, þa samt hefde þad fyrer eckert komed, ad bei-dast þessa at hans Daudastundu, þvi þa Dau-deñ kemur, þa er þad loked med øll Riike, Magt og Vellde; eñ soddañ Undrum sem þad sæter med Bænena sialfa, þar er þo hitt hid un-darlegasta ad hun fær atheirslu, ad ein Bæn sem Daudañs Ofbod alleina syndest utpressad hafa af Hiarta eirnar forherdtrar Mañeskiu skyllde soddañ Raad fiña. Hvorneñ ma þetta sam-kvæmt vera med Guds Orde? Er seger Joh. 9. v. 31. **Gud bænheirer ecke Synduga; og; þo þier utbreided ydar Hendur all añ Dageñ þa vil jeg þo ecke heira ydur þvi ydar Hendur eru fullar af Bloode.** Es. 1. v. 15. Munu ei Hondur þessarar Ma-ñeskiu hafa vered fullar af Bloode? Guds An-de vottar um hañ ad hañ hafa vered Ræninge, Mordinge og Illvyrke, og siina þeir Titlar a-nægiañlega ad hañ hefur vered rettur Helvytes Eldebrandur, ein Ogudleg Samvitskulaus, og bloodþyrst Mañeskia, hiñ vidurstyggelegasta bæde i Guds og Maña Auglite. Hañ og hans Stall-broder hiñ añar Ræningeñ hafa vered riett Sva-

rner Lagsmeñ i Gudsforagte og allre Vondsku so hañ ei einasta med aullnm̃ rette hafde fyrergiort Lyfenu er hañ og Medkeñer segiande: **Vier medtokum hvad eckar giord er voru verdar;** Heldur hafde og epter Guds Doome fyrergiort siñe Saalar Velferd; þesse, sege jeg, med sinar Hendur so fullar af Bloode, jaa saksausu bloode, og bloodugum̃ Syndum̃, Odlast Naad og bænheirslu, og strax med eirnre Andvarpan fær fullvissu um̃ eilyfa Saaluhiaalp, þaa Saalnhiaalp er eirn añar varla kañ ad afreka alla sina æfe. Eñ þegar vier hugleidum̃ Guds Obrigdulu fyrerheit, ad **nær hiñ Ogudlege snyr sier fraa siinum Syndum̃ skal hans Synda ei framar miñst verda.** Ezech. 18. v. 21. Þaa meguñ vier medkeña ad þetta sæter aungvum̃ undrum̃, vier meguñ nu aalyta hañ sem eirn ydrande Syndara, og er þaa ei ad undra þott hañ yrde bænheirdur; þvi strax efter þesse Esaiæ Ord er fyrr greiner, þaa talar Gud soleides; **Þvoed ydur, hreinsed ydur, taked ydar illsku breitne i burt fraa minum̃ Augum, laated af illu, og læred gott ad giora, komed sydañ, og eigunst løg vid, þo ad ydar Synder seu raudar sem Blood þaa skulu þær sniohviitar verda.** Es. 1. v. 18. Jeg medkeñe ad hesdum̃ vier ei Jesu Ord og Ansvar uppa Ræningians beidne, þaa mundum̃ vier þvi traudlega trua kuña ad

hans Umvendun hafe vered añad eñ eintomes Gaalg= og Dauda-aangist; þad er so miog skialdgæst ad saasem alla sina æfe hefur lifad i gudleise, og aafram anad i vitañlegum Synduñ, komest a Daudastunduñe til sañarlegrar Hiartans Umvendunar og saasem hyggur þad kuñe hæglega ad ske, hañ veit ei hvad ein sañarleg ydran er, edur magt Syndareñar, þaa hun hefur feinged yferhond. Jeg neita ei ad þad kañ ad ske, og Gud vardveite mig fraa, ad giora hans almætte og miskuñseme i umvendunarverke eins deyande Stor-Syndara miñe eñ vera byriar, eñ þetta er vist ad soddañ ydrun er nærsta skiallsien og þartil heirer eitt stort Guds Almætte; hier ad auke er hun nockud uggande, so þad er æred torveldt bæde fyrer siaalfañ þañ ydrande og þaa er hañ siaa, ad dæma hvort ydraneñ er alvarleg edur ei og hvort hun kemur einasta af Daudañs Hrædslu og Slægd andskotans, edur af Guds Anda og soñum Hiartañs umskiptuñ. Og jeg maa segia, ad oll þau ydranarmerke vier siaauñ hiaa þessum Næningia sogood somorg og so stor sem þaug añars eru, kynnu þo ecke ad giora mig Fulltrua uñ, ad hans ydran hafe soñ og flærdarlaus vered, hefde jeg ei Orekande rok þar til i Jesu Ansvare og hans Alvitsku; eñ med þvi vier hofum ei teked bref þarfyrer af Christo ad soddañ skule heimfærast uppaa adra, er tala kuña þessum Næningians Ordum a Daudastunduñe, þaa er ei raadlegt ad eirn reide sig þar uppaa, og ei mogulegt ad se-

gia neitt viſt um̃ eins ydran, þo hañ tale ſomu Ord og utviiſe hin ſomu ydrunarmerke. Þvi þad er ei væntañlegt ad ſiaa hier þaa rettu Beviiſing ſañrar ydrunar, ſem er Hiartans og Lifnadarens um̃breiting.

Eñ ad koma aptur til Ræningians þaa maa þad fullnoog ſiaa af Chriſti Ordum̃, ad hans ydrun var hrein þott hun ſein være, vier ſiaaum̃ hiaa honum̃ eitt alvarlegt aangur yfer hans drygdum̃ Syndum̃ ſamt þeirra Openſkaara med keñing i þeſſum̃ Ordum̃; **vid medtokum̃ þad Ockar giorder eru verdar þad er**; vid erum ſiaalfer Ordſok til Ockar Ofara, vid hofum̃ Daudañ forþient; eñ framar ſiaaum̃ vier hiaa honum̃ hungur og epterlaungun Guds Naadar, og ſoddañ andmiuka Hiartans Boon, ad hañ þorer ei ad mælaſt til nockurs hiaa Gude, og jafnvel ecke nefna Saaluhiaalpena, eñ bidur einunges ad Jeſus vilie ecke med ollu utſkufa ſier ſem fortopudum̃ Syndara. **Drotteñ miñ- ſtu min**, ſeger hañ, hañ vill eiga þad under Jeſu naadugum vilia hvorſu viidt hañ aumkar ſig yfer ſo Overdugañ Syndara, ſem hañ villde ſegia, jeg vil einſkes bidia, jeg þore eckert ad nefna, eñ mætte jeg einaſta niota þeſſ allramiñſta Dropa þiñar Naadar þaa være miñe Saalu borged; miñſtu miin ad eins Drotteñ; ſo mun eg ei falla i Vantrauſt og Orvinglan.

Eñ

Eñ þad er ei hier med bued, þviifyrer utañ hans angur audmykt, og friviliuga medkeñing, siñum vier hiaa honnm avexte ydrunareñar nesnelega betrun lifnadarens ad þvi leite sem hans epterverande stutta liifstiid kuñe ad tillaata, samt Elskuna til Guds og Naaungans, þar hañ med soddañ alvorugefne forsvarar Jesu Æru og kappkostar ad frelsa Saal siins Naaunga; so hañ hefur i siñe umvendan ei einasta leitad siñar egeñ Velferdar; heldur og hafst Guds dyrd og Naaungans Velferd fyrer sioonnm, þad er audsed af þessum hans Ordum til hins añars Næningians; og þu hrædest ecke Gud? Sem vilde hañ sagt hafa; O hvad talar þu! er þad ei noog ad þesser sem hier standa umhverfes hæda hañ? þeir ætla þeirra Reikningskapartiid se laangt burtu, eñ þu! hvad talar þu? veitstu ecke ad þu ert nu staddur aa liiffens jadre og Helviites backa, og aat iñañ faarra vettfaunga ad mæta fyrer Guds Doomstool? Vid hofum i liifenu hvorke Ottast Gud nie Meñ, hvort ottast þu eñ nu ecke Gud i Daudanum? Viltu eñnu hæda Guds Son? Hvad ætlar þu fyrer þier? Hvad hefur þesse hiñ saklause giordt? þad er satt hañ maa liida sama Dauda og vid; eñ þar mismunar þo miked millum hans og Ockar; hugleidum ad gaange oss illa þaa hofum vid ei betra verdskulldad; eñ hvad hefur þesse giort? Hvad illt er honum yferbeviisad? Jeg heire miklu heldur ad hañ hafe giort ollum gott sosem vid hofum giort ollum illt, og þo villtu spotta hañ! Hrædestu

ecke Gud? þeinker þu einunges uppaa nærverande Kvol, og ei miklu framar uppaa þaa þier er fyrer buen̄ i Helviite? Vier fiaaum hier af bæde vandlæting fyrer Guds dyrd og Naaungans Kærleika hiaa þessum Næningia; han̄ vill-de siñ Jafninge og Lagsmadur i þvi ad stiggia Gud mætte nu jafnt sem han̄ med sañre ydran leita Guds Dyrdar; han̄ vilde nu med goodu epterdæme i Daudanum betra þaa er han̄ hafde hneixlad i liifenu; han̄ sem i liifenu hafde vered eirn Næninge, er nu i Daudanum eirn Læremeistare; Golgatha er hans Mustere; Krossen̄ hans Prædikunarstooll; Tilheirendurner, Gydingar og Hehdingiar, Texten̄ Logmaaled og Evangelium; han̄ lyser yfer fiaalfum sier og siinum Stallbroodur Logmaalsens Hootunarstraffe; en̄ sniir sier jafnframt til Evangelium, og leitar Saal siñe Naadar og Huggunar hiaa Christo, jaa han̄ giefur Christo hiñ merkelegasta Vitnesburd; Judas vitnade um̄ Jesu sakleyse, en̄ Samvitskuñar Kvol neidde han̄ þar til; Pilati Hußfru vitnade, en̄ þvi ollu heñur Oroolegu draumar; Pilatus vitnade og, en̄ han̄ ætlade þar med ad koma sier ur maalenu. Ordtæked leger; þad er illum froo, ad vita añan̄ i Kvolunum̄, en̄ þvi var ei so haattad fyrer þessum Næningia; þad visar þesse hans lostuge og skylause Vitnesburdur um̄ Jesum; þesse hefur alldrei nockud Offickanlegt giordt; sem villde han̄ segia; þeir hafa han̄ aaklagad og dæmt fraa Liifenu sem eirn Sakaman̄, en̄ jeg sem eirn Sa-

kama-

kamadur maa medkeña, ad hañ liidur hiñ stærsta Oriett, þaa vid þar a moote liidum ej utañ hvao rett er. Vid þessa hans vitnun mættu aller Christi Lærisveinar, hellst Petur, Jacob, og Johañes skamast siin; þvi þesser saau hans Forklaaran a Fiallenu og þo affooru, burtfludu, afneitudu, og hneixludu hañ; eñ Ræningeñ, sem ei hafde sied hañ utañ i Kvolum og Piinu hangande a Krossenum liikare Madki eñ Mañi, vottar fyrer ollum hans Sakleyse; og hefur hier saññast Esaiæ Spaadoomur; **þier munud þad reina seger Drottiñ ad mig skuln priisa Villudyreñ a Morkenne, Drekarner og Strutsfuglarner.** Es. 43. v. 20.

Af ollu þessu er nu audsied ad Ræningians umvendun hefur rettskickud vered; eñ hans Tru er so forundrunarleg, ad eirn Guds Madur hefur med ollum rette sagt, þad soddañ Tru kuñe ej i Skripteñe ad fiñast; hañ saa Jesum hanga i þvi audvyrdelegasta Tilstande, og þo aleit hañ hañ ad vera Guds Son, vel matte hañ hafa teked hañ fyrer Saklausañ Mañ, eñ þad sæter mestum undrum ad hañ hielt hañ under eins fyrer allsvaldande Gud, hañ kallar hañ siñ Drotteñ, og sier þo eckert a honum er Herradæme siina mege; hañ bidur hañ miñast siin i siinu Ryke, eñ hier var ei ad sia Merke til Riikes edur Kongstignar, eckert hauskæte utañ Krosseñ, eingeñ Korona utañ af þyrnum, eingeñ

Velldes Spiira, utañ Jaarn-Naglarner i gegnum hans Hendur, eingeñ purpure utañ Blooded, aungver hofþenarar utañ Kvalararner. Þar ad auke var þad ei ſijnelegt þad kynne ad hiaalpa Ræningianum þo Chriſtur hefde haft Tiu Rijke til Forraada, nu þaa hañ ætte fraa þeim ad deja; O! hvad Skorp eru ecke augu truarenar; og hvad vel ſañaſt hier ecke Pauls Ord; Trueñ er oruggt Trauſt þeirra hluta ſem Madur ſer ecke. Ebr. 11. v. 1. Þañeñ var nu Ræningians Tru ein Obrigdul fullviſſa, ad Chriſtur midt i ſiñe Forſmaan og Fyrerlitningu hefde eitt Rijke til einvallds Forraada i Himnenum, og villde hañ þar alleina miñaſt ſiin, ſo være ſier borged: Gydingar hofdu leſed Ritningarnar um Meſſiam, og þo helldu þeir Chriſtum fyrer Svikara, eñ þeſſe athugalauſa Manneſkia, ſem i Ritninguñe nærſta litted mun leſed hafa, er Froodare um Chriſti Perſonu eñ þeir allra viiſuſtu Meiſtarar. Jeſu egeñ Læreſveinar ſem af hans Lærdoome og Kraptaverkum hofdu ſañad hañ ad vera Guds Son, hneixludu ſig aa honum, þaa þeir ſaau hans Kvol og Dauda; vier meintum ſegia þeir ad hañ munde uppretta Iſraels Rike, þar vard eckert af, nu er hañ daudur. Rett i þvi ſama Vettfaange ſem þeirra Tru þaňeg utſlocknar þaa kviknar Ræningians Tru, nu kemur hañ fyrſt augunum aa þad Rijke ſem þeim var fraa ſioonum horfed og truer aa eirn Kroſsfeſtañ Gud. Eckert af þeim

furdu

ſurdu verkum er ſkedu vid Jeſu Dauda, að Sooleñe, Jordeñe, Muſterenu, Biorgunum, Grofunum er ad minum Doome vid viſſa Ræningians Tru ſamjafnande, og var það bæde hid fyrſta og ſtærſta Krapta verk, er ſkede vid hañs Kroſs; mig undrar ei að Abrahams Tru vid hvorn Gud ſiaalfur talade; ei heldur að Moſis Tru er ſað Guds dyrd og daaſamleg Teikn, ei heldur að Poſtulaña Tru er Chriſtur prædikade ſiaalfur i þeirra Hiortu; ei heldur að Hofudsmañſens Tru, er fyrſt kom epter þau Taakn, ſem ſkedu i Jeſu Dauda. Mig furdar ei þo vier truum, ſem fraa Barns-Beine erum uppfrædder i hañs Lærdoome, og vitum allt hvad hañ oſs til Fridþægingar giordt hefur; Vitringaña Tru ſem tilbaadu Jeſum, þaa hañ var eitt umkomuliited Barn, var ad ſoñu ſtoor, eñ þeir hofdu þo ſied hañs Stiornu i Auſturvege; Eñ ad þeſſe Ræninge ſem væntanlega lifad hefur i gudleiiſe, og aldrei ſied Jeſu Kraptaverk, edur Jeſum ſiaalfañ fyrr eñ nu, ſem eirn uppheingiande Obootamañ, ad hañ þañeg trua ſkyllde, það yfergengur alla vora Skynſeme; vier hofum ecke ſunded þviliika Tru i Iſrael.

Eñ hvorſu mun nu Ræningieñ þeſſa dyrmætu Tru odlaſt hafa? Þvi Trueñ er ecke Mañaña Verk. 2 Petr. 1. v. 1. ean eſa hefur Chriſtur ſiaalfur verkad i honum Truna, þvi það er hañ ſem Truna i oſs uppbyriar og fullkomnar. Ebr. 12. v. 2, en hvorneñ þetta ſked hafe hiaa eirnre

iñtil

iñtil Daudans so andvaralausre og Ogudlegre Mañeskiu, þad er ofs harla vanskiled, og varla verdur moote þvi hast ad i þessare Tru er ad siña nockud Ovenjulegt, eñ jafnframt þvi kañ jeg ei ad neita, ad þaug venjulegu Sæluhiaalpareñar Medol hafa hier eirnig tilstidjande vered; Af heirneñe kemur Trueñ, seger Paulus Rom. 10: Þad er ad soñu rett liiklegt ad Ræningieñ hafe ædur fyrre ei hast stoora Lyst til Guds Orda, þo mæ vera hañ hafe hier og þar heirt nockud talad um Christi Kraptaverk og Lærdom, hvoriu hañ hefur þo liiteñ gaum ad gefed i þad siñ; eñ nu þæ Guds ande tok ad verka ydrunena i hans Hiarta, þæ hefur hañ rææankad vid þvi er hañ ædur heirt hafde, mæ og vera ad hañ i siinu Fææangelse, hafe fared nockud alvarlegar ad þeinkia til siñar Sææalar, og einkum þañ sama Dag ihugad, hvorsu hættad være Mææalefnum þessa Mañs Jesu, er med honum ætte ad Krossfestast, hañ hefur sied hans þoleñmæde og hoogværd moote sinum Ovinum, og viisast heirt hvad talad var um Jesu Riike i Þinghuse Pilati; hañ hefur heirt Jesu Rædu, þæ hañ geck ut til Afroku-Stadarens, og endelega hans iñelega Bæn æ Krossenum fyrer sinum Ovinum; epter ollu þessu hefur hañ þeinkt, og þæ hefur Guds Ande, sem aldrei aflætur ad verka i þvi Hiarta honum ei moorstendur, uppkveikt truna i hans Sææalu og er þvi ei undarlegt þo hañ bænheirsilu odladest; hans Bæn var þar ad auke nærsta audmiuk; Drotteñ miñstu miin þæ

þu

Þu kemur i Riike þitt; sem vilde hañ sagt hafa; jeg veit Drotteñ! ad Þin Kvol tekur snart enda, og þu iñgengur i Þina dyrd, æ miñstu miin þær þar gengur vel, jeg er nu i somu Fordæmingu sem þu, þo ojafnt se fyrer ockur æstadt, þar jeg er sekur, eñ þu saklaus, eñ lættu þo þær luckn sem mier hlotnast hefur, midt i miñe Olucku, ad hæanga þier vid Siidu, lættu hana greida mier Overdugum veg til þiñar Nædar, ad jeg mætte verda hañ liitelfiorlegaste i þinu Riike. Lærtum oss ei skamast vor, Christner Meñ! ad læra þesse somu Bænar Ord af einum Krossfestum Obootamañe; miñstu miin Drotteñ til hiñs besta, Jesu miñstu miin i þinu Riike; Gud gæfe ver villdum þeinkia nockud framar æ vorn skapara i vorum Ungdome; so þær Verollddeñ sniir vid oss bakenu, Meñerner gleima oss og siælfer vier sokum Sootarmagnsens gleimum oss, ad Gud þær vor miñast vilie sokum siña miskunsemda, og vor Hiortu odlast mætte þad huggunar riika Andsvar, sem hier feck Ræningeñ; Sannlega sege Eg þier, i Dag skalltu vera med mier i Paradiis, og vier vilium oss nu til Yfervegunar taka i þeirre siidare greineñe. Varla hafde Ræningeñ sleppt ordenu, þær Christi Ansvar var tilbued; Gud er alltiid fus ad heira vora Bæn um þær audlegu hlutena, þær hun framkemur af Trunne; hañ bad Jesum ei añars eñ ad miñast siin, eñ Jesus svarade; jeg miñest þiin ei alleina, helldur vil jeg strax taka þig med mier iñ i Paradiis. Nu

vard

vard þeſſe Ræningie og þetta Raan var þad beſta er hañ nockurn Tiima framed hafde; Abſalon ſtal fordum Iſraels Barna Hiortum med ſiinu vinaattu og Kærleiks yferſkyne, 1 Sam. 28. v. 19. 20, eñ þeſſe ſtal Jeſu Hiarta med ſiñe Tru og Audmykt. Hier toludu tveir Ræningiar til Jeſum, ſaa eine ſpottade, eñ ſaa añar bad hañ, og mætte undarlegt þykia ad hañ ei ſvarade þeim baadum, og ofbodade hinum med helviite, þaa hañ bodade þeſſum Himnarijke; æ! nej, þvi var ecke ſo vared fyrer Chriſto, hañ var ei komeñ til ad dæma Verolldena, helldur til at giora Syndara Saaluhoolpna, eñ ad fordæma þaa forherdtu er ecke hans Verk, þeir giora þad ſiaalfer, og eru alla-reidu dæmder. Jeſus hafde nu ſo lenge þegiande heirt hin ſaaru ſpottyrde Kvalarana, eñ ſoſnart nockur talade til hañs um Naad og Fyrergefning getur hañ ecke ordaña bundeſt. Þvi ſeger hañ og hiaa Eſaiam; **þad ſkal ſke, ad fyrr eñ þeir kalla, þaa vil Eg ſvara, og medañ þeir eñ nu tala, vil Eg heira.** Eſ. 65. v. 24. Hañ ſeger ei til hañs; þu hefur offrad Sathan alla þina Liifdaga, eñ nu ad Daudeñ ſitur þier aa vorunum, nu ſkal jeg vera tilreidu; nei Vinur! gack til þeſs ſem þu hefur ſo lenge og trulega þionad, laattu hañ taka þig iñ i ſitt Rijke; nei, þetta ordar ei Jeſus, helldur ſeger hañ; **Sañlega ſege Eg þier, i Dag ſkalltu vera med mier i Paradiis,** þad er; ſo ſañarlega ſem

sem jeg er Guds Son og Heimsens Frelsare, so sañarlega skalltu hia mier vera; huggunar riikare Orda, kañ eirn deyande Syndare sier aldrei ad vænta; O hvorsu gladur mætte nu ei Ræningeñ deja. Þetta er bad fyrer heit og Testamentum sem Jesus hefur øllum Truudum gefed hia Johannem 12. v. 26. Hvar sem jeg er, þar skal og miñ þienare vera, og i þeim 17 Cap. seger hañ; Fader, jeg vil, ad þeir sem þu hefur gefed mier, skule vera þar sem jeg er; og hvor er sæsem ei vill giarnañ vera med Jesu? Þad hefur gledelegt Ræningianum vered ad heira þetta Ord: J Dag skalltu vera med mier i Paradiis. Nu strax ædur Soleñ undergeingur, skalltu med mier, ei i nockra Jardneska Paradiis, heldur siaalfañ Himineñ og Dyrd utvaldra; liiklegt er hañ hafe nu taled hvort Augnablik einkum epter þad Jesus var vidskileñ, og iñelega laangad epter Daudanum, hañ hefur æn esa fegeñ lided, ad þeir bryte hans Bein so hañ þvi fyrr kynne komast burtu, og vera med Jesu i Paradiis.

Nu; þetta var hid þridia Lissens Ord a Daudastunduñe; eñ mun þad alleina tilheira Ræningianum? O nej, allt hvad Jesus talade a siñe Daudastundu þad talade hañ til vor allra; jeg vil sæatt tala um þad huggunartraust sem þesse Ord innehalda, þvi hvor eirn ydrande

de Syndare, jafnvel hiñ Ofrosdaste, kañ þad sier ad tileigna, og hafa marger aa siñe Daudastundu funded stærre Hugsvolun i þessare grein Ritningareñar eñ nockrum ødrum; Jaa, sumer hafa og uñ þad beded ad þeir aa Daudastundiñe være einkañlega miñter aa þesse Ord; sier hvor take þaug þvi til siin og geime i einu sañ ydrande, eñ ei andvaralausu Hiarta, og bruke þaug, sem Vopn og Verju moot andskotans Freistingum þaa hañ vill ofbiooda Saaleñe, med Stærd og Fiollda illgiordaña. Hier er og huggun fyrer allar faaraadar Mãñeskiur; Laatum oss ei hugfallast þo vier lijdum hier; Paradiis fylger aa epter, þar skulum vier gleima alskonar armædu þar eigum vier ad vera med vorum Jesu, **þad er vissulega satt**, seger Paulus, **ad þolum vier med hønum, so munum vier og sydar med hønum rijkia, dejum vier med hønum, þaa munum vier og med hønum lifa.** 2 Tim. 2. v. 11. 12.

Eñ laatum oss af þessu Orde læra þaa ad vorun ad vier eige mesbrukum þessa dyrmætu huggun so Læknesdoomureñ verde oss ei banvænn, sem øllum þeim er bruka þetta dæme til andvaraleises, og i þvi trauste undandraga ydrunena og gaunga diarflega frañ i einne Synd epter adra, i þeirre Ovissu von ad þeir gete ætiid med Ræningianum uñvendt sier aa Daudastundiñe, og vid eina andvarpan strax mune siña

hiaa

hiaa Guds Naad og Fyrergiefning. Vist er þetta Dæme eitt Orekande Vottur um þañ Omælañlega Krapt Guds Miskunsemda, sem og ein gilld Roksemd, ad ein hrein ydran kañ aldrei ad vera ofsein; eñ þetta er og so allt hvad vier kunnum þar af ad ælikta, eñ uppaa þaa æliktun ad ana fram i Syndeñe og þeinkia; miñ ydran skal ecke bregdast a Dauðastunduñe. þad maa kallast hin aumkunarlegasta gloopska; jeg villde ad soñu ecke fyrer allt Veralldareñar gull, ad þetta Ræningians Dæme være burtu ur Ritninguñe, og mörg ein aumgrad Saal mun ei a Dauðastunduñe vilia missa þaa huggun fyrer oll Veralldar Metord; eñ aungvu ad siidur er jeg miked hrædddur um, ad þetta Dæme sem er so upparlegt i siaalfu tier, sie Orsok til margra Fordæmingar, Jesus hefur med Orde og Eyde vottad Ræningians Saalu hialp, eñ þar er næsta vallt uppaa ad ætla ad aller þeir verde hoolpner sem stoola uppaa sagdt epterdæme, þvi marger af þeim Syndga rett uppaa Naadena, og giora (so ad segia) leik ad Guds Miskunseme.

Jeg vil giarnañ eptergefa, ad þetta Epterdæme sie einum Syndara so hiaalpvænlegt sem vera kañ, eñ hvad villtu þar af ælikta? Kiære! kañ efa þetta, ad eins og Ræningeñ beid til sydasta Tiima, og hlaut ei ad sydur Naad og Miskun, so kañ jeg og. O! Mañeskia hvad þeinker þu? eñ ef þu deijr hastarlega, og fær ei Stund til ydrunar? nog eru Dæme þar til;

Þad kañ bæde ad ſke natturlega; og epter Guds retrviiſre aaliktan fyrer Þad Þu heſur ſtoolad upp aa Þiina Soottar-Sæng; og laat vera, hvad Þo ei er, ad Þu ſiert viſs um̃ ad leggiaſt aa Soottar-Sængena, Þaa eru Þad marger ſem ei ætla i fyrſtu ad Siukdoomureñ mune Þaa til Dauda draga, eñ miſſa Ræuuna fyrr eñ Þeir ſiaalſer afvita; hvad ſtodar Þaa dæme Ræningians? Jaa marger verda ſo underlagder af verkium̃ ad Þeir gleima bæde Gude og ſiaalſum ſier, hvad ſtodar Þaa dæme Ræningians? Tru mier ad aa Soottar-Sængeñe er Oſpægelegur Ydrunar-Tiime; hugleid ad til ſañrar ydrunar utheimtaſt aller Saalareñar Kraptar, Þad er ei giordt med eiñe kaldre Bæn og andvarpe, dæm ſo med ſiaalſum Þier, hvørt eiñ Siukur ſem alla ſiiña æfe, heſur ogudlega lifad, er vel falleñ til ad ydraſt af Hiarta; laatum oſs Þeinkia, hvorſu hæglega ſo kañ ad falla fyrer Mañeſkiuñe, ad heñar hugarangur ſe eintomes aangiſt og Kviide fyrer ejliifre Fyrerdæming; heñar Tru aa Chriſtum eintomes Jñbirling, og heñar laungun til Naadareñar ein holdleg gyrnd ejliifrar farſælldar.

Eñ laatum ſem allt Þetta gange epter Þiñe tilætlan; ſeg mier Þo, hvar Gud heſur geſed Þier fyrerheit Þar um̃, ad Þu geter ydraſt nær Þu villt; Þu ſeger vel ad Guds Naad ſkule Þad verka; eñ hvar heſur Þu Þad, ad Gud vilie ſtanda Þier til reidu aa Daudaſtunduñe, Þaa Þu Þverudarſamlega heſur alla Þiina æfe motſtaded

stadeð hans Nꝏdar=Verkunum, og jafnvel viisvitande Freistad hans, med ad reida þig uppa þessa siidstu Stund? Laat sem þesse Ræninge hafe vered þusundsiñum verre eñ þu ert, eñ giæt þess ad sliikt er þer framar til skelfingar eñ huggunar, þvi hañ visse eckert adur um Jesum, og liet þo strax skipast vid, þa Guds Ande vitiade hañs; þu þar a mote hefur fra unga alldre haft Guds Ord, og funded hia þier Guds Anda hræringar; þu hefur brukad Medol Saluhialpareñar, og opt vered komeñ a Umvendunar=veg, þo hefur þu alltiid mootþrooañlega kastad Guds aminingum a bak þier aptur, hvorsu kañtu þa ad jafna þier samañ vid Ræningiañ? O! þad er langtum verr astadt fyrer þier. Þu seger; Nu, nu, hvorsu sem þad er, edur ei, þa kemur þo Guds Miskunseme einhvorn Tiima til ad giora Verkan; rett er þad, og sæll er sa sem eige þverskallast a mote gude, og eslaust er þad, at geter þu giort eins alvarlega ydrun og Ræningeñ, nytur þu og somu Naadar, eñ þad er Hofudstycked, og hvarfra villtu taka hana; þo ein Brudur neite einusiñe heim heñar bidur, þa kemur hañ siidañ optar i þeirre von ad hun maske take Siña skipte, samt er hañ sialfradur hvort hañ vill apturkoma: Hvorsu opt hefur þiñ Jesus fenged Nei hia þier! og hafe hañ a stundum feinged Jaa, þa hefur þu altiid sviked hañ; syn mier bref fyrer þvi hvad opt hañ vilie aptur til þiin koma, so opt sem þu hefur leiked þier ad, ad

fraviisa honum; Ræningians Ord getur þu ad-
soñu epter honum haft, eñ hañs ydrande Hiar-
ta verdur þu ad taka hiaa Gude; þad skilur so
miked mille Ræningians og þin; jeg kyñe segia,
ad andskoteñ var þañ Tiid nærsta uggalaus, hañ
hafde aldrei vitad þvilikt Dæme, og hiellt þad
þvi ei mogulegt ad hañ munde missa soddan ei-
na gudlausa Saal uppaa Sijdkasted; eñ tru
mier, ad andskoteñ epter þetta Dæme er ordeñ
vidsiaalare eñ aadur; jeg kyñe og ad segia, ad
þetta var Jesu Piislardagur, sem hañ med no-
ckru sierdeiles Dæme villde giora merkelegañ;
Þad sem hañ Dag skede, skedur ei hvorn Dag;
Christur deide hañ Dag, eñ hañ deiir aldrei op-
tar; jeg kyñe eñ ad segia sem fyrr ad þetta Dæ-
me er eitt Kraptaverk; villtu þaa biida þess, ad
Gud giore Kraptaverk, til ad snua þier hver
brotnum Syndara? Vier fiñum ad Postuleñ
Paull umvendtest vid eina Raust af Himne, þvi
biidur þu þaa ei þess, ad Gud ogso þañveg til
þiin talar; Daniel sat Oskadadur i Lioonagro-
feñe, villtu þaa og gaanga i eitt Lioona-bæle i
sama Trauste. J þeim liikamlegu hlutum vill-
tu ecke reida þig uppaa eitt edur añad Dæme,
sem kañ ad hafa tekest, eñ i þiinum Saaluhiaal-
parefnum stoolar þu þo þar uppaa ad þvilikt
einu siñe luckast hefur: Ef þu sær hundrad Meñ
leggia uti eina Ofæru, og aller tortiindust utañ
eiñ, villder þu uppaa þad eina Dæme þar af
epter fara? Eg meina, Ney; hvarfyrer villtu
þaa i þiinum Saaluhiaalpar efnum byggia al-
leina

leina uppaa þetta Dæme; edur seg mier, hvar-fyrer skal Dæme þess eina Ræningia sem ydradest, so miog svæfa þig i andraleysenu? og ei þar aa mot Dæme hiñs annars miklu framar hræda þig fraa Forherdingu? Sierdu ecke ber-lega, hvörju Jesus hefur fyrer þier sorgad, med einu hugguuar Epterdæme aa eina Siidu, og aa þaa adra med einu Vidvörunar Dæme, hvör-ju hallt þad er ad stoola uppaa þañ siidasta Tima.

I einu Orde ad segia, þaa eru þad ei Ep-terdæme helldur Loford sem vier egum ad reida oss uppaa; syn mier þaa nockurt Guds Fyrerheit, hvar med hañ lofad hefur ad gefa þier Naad til ydrunar jafnvel uppaa þitt hid sydasta, þaa þu opt hefur Guds Naad forkastad og forherdt siaalfañ þig; þu seger hier er eirn Eidur til Ræ-ningians; **Sañlega sege Eg þier, i Dag skalltu vera med mier i Paradiis;** eñ jeg skal siina þier añañ Eyd, ad þaa Madur lenge hefur Guds Naad foragtad, þaa sver Gud i siñe Reide (seger Paulus); **þeir skulu ecke koma til miñar Hvilldar.** Ebr. 3. (v. 11). þar fyrer giorer hañ þaa aaminñing samastadar. **Þaa þu i Dag heirer Ord Drottens, so forherd ecke þitt Hiarta** (v. 7. 8). **Hug-leided þvi Ord Drottens; af þvi jeg kalla, og þier villed ecke, jeg udrette mina Hønd og engeñ gefur þar gaum ad, þier hafned**

 miñn

minu raade, og vilied ecke mina hyrting (gæt nu vel ad, Guds Ord, Guds Hond, Guds Raad, Guds Hyrting hefur þu ei hast allt þetta fernt)? Nu vel, so vil Eg hlæa ad ydur þaa Oluckañ kemur, semañar Stormur, og Naud og aangist yfer ydur Fellur, þaa munu þeir hropa til miin, eñ Eg mun ecke Svar gefa, þeir munu aarla leita miin, og ecke fiña, þvi þeir hotudu Viisdoom, og otta Drotteñs villdu þeir ecke hafa, þeir villdu ei hafa min Raad og løstudu minar Hyrtingar. Ordskv. B. 1. v. 23. ogso viid:

Drotteñ Jesu! Vier þøckum þier af Hiarta fyrer þetta þitt Lijssens Ord, og þaa sætu huggun sem þu oss þari gefed hefur; gef ad af þessare þiñe so auglioſre Beviising uppaa þina Miskunseme vid Syndarana, mege i oss upptendrast ein Soñ Elska til þiin; vardveit oss eirn og sierhvørn fraa Ræningians Synd Smaan, og Dauda; eñ gef oss øllum i Tiima hañs Ydrun, Tru og Saaluhiaalp; vardveit oss fraa þeirre Forherdingu, ad vier stoolum uppaa Ræningians Eptærdæme, edur undañdrøgum vort aptur hvarf

hvarf fraa Syndeñe, hvar med vort Ydrunar-Verk verdur so miklu torvelldara; Laat oss ad lyktum deja med Ræningians Andvarp i Muñenum; Drotteñ Jesu miñstu miin til hiñs besta; og laat oss so fara hiedañ med hañs Hugsvølun i Saaluñe: J Dag skalltu vera med mier i Paradiis. Amen.



# Fiorda Prædikun
út af
# Þvi fiorda Christi Orde á Krossenum.

Matth. XXVII. v. 46.

Og nærre Niundu Stundu kallade Jesus hærre Roddu, og sagde; Eli, Eli Lama Asabthani, þad er, Gud miñ, Gud miñ! hvarfyrer hefur þu yfergefed mig?

## Inngangurinn.

Af øllum þeim greinum Ritningarenar sem vitna um Guds stoora Miskunar-Hiarta, fiñst þar eingeñ i gamla Testamentenu, og jafnvel allre Bibliunne, sem er huggunar riikare Sorgbitnum Saalum eñ Ord Drottens hiaa Esaias er so hlioda. Es. 49. v. 15. 16. Hvert kañ Konañ nockud ad forgleima siinu Barne, so hun siaae ecke aumur aa Syne siins Kvidar og þo hun gleime þvi, þaa vil jeg þo ecke forgleima þier; Siaa þu,

þu, Eg hefe teiknad þig aa baadar minar Hendur.

Hin Sorgbitna Sion edur Guds Kyrkia hafde i næsta verse so aumkunarlega klagad yfer siñe Hiartans aangist og sagt; Drotteñ hefur yfergefed mig, Drotteñ hañ hefur forgleimt mier; hier uppaa svarar nu Drotteñ, sem villde hañ seigia; þvi talar þu þañeg? Kañ nockud ein Mooder ad forgleima siinu Barne? uppaa hid fyrra orded; Herrañ hefur yfergefed mig; svarar hañ ecke, þvi þad er vel mogulegt ad Drotteñ um̃ Stund og Tima kuñe ad forlaata sin Born, edur (rettara ad segia) finast ad forlaata þaug, þaa hañ hylur sitt Andlit fyrer þeim, eñ þad er Omogulegt ad hañ forgleime þeim eitt Augnablik, þarfyrer undrar Drotteñ sig hier ei helldur yfer þessare Sions Klogun; Drotteñ hefur forlaated mig, en hitt er hun seger, Drotten hefur forgleimt mier; þad fiñst honum allt of nær sier gienged; hañ leggur og Orsokena til, hvarfyrer þad er Omogulegt, þvi, seger hañ; Jeg hefe teiknad þig i baadur minar Hendur; hañ samliiker siñe vidkvæmu Elsku til vor, vid þaa Elsku er ein Mooder hefur til þess Barns hun ber aa brioste; vel maa þad ske ad ein good Mooder reidest voxnu Barne, þaa þad hegdar sier illa, eñ hier brukast orded um̃ þad

Barn, sem nilega er komed af Moodur-Lijfe, þvi kañ hun aungvañvegeñ ad gleima, þad er komed fraa einum stad under heñar Hiarta, og liggur allt ofþuugt þar aa, til ad gleima þvi; eñ einkuñ augliiser Drotteñ, hvorsu Omogulegt honum er ad gleima sinum Bornuñ, med þessum Ordum; þvi jeg hefe teiknad þig i baadur miinar Hendur, sem villde hañ segia; hefde Eg ætlad mier ad gleima þeir, þvi munde jeg þaa hafa iñskrifad þig i minar Hendur? og hvad ætte jeg þaa ad giora af minum Hondum, ef jeg villde gleima þier, þvi þu stendur mier þar æ fyrer Sioonum? Orded i Hofud Tungumaalenu merker Handar-Loofañ, og sinest hier meint til þeirra blessudu Handaña, sem aa Krossenum voru gegnumboradar, þar hefur hañ oss teiknad, ei med Kriit edur Bleke, helldur med sinu egeñ Bloode; ei med Peña helldur med Jaarn-Noglum, ad hañ aldrei kuñe ad ad gleima oss; og likasem David seiger; gleime jeg þier Jerusalem, so verde miñe hægre Hende forgleimt. Ps. 137. v. 5. so vill og Drotten hier segia; þu þarst ecke ad vera hræddum ad jeg gleime þier, solenge jeg ei gleime miñe hægre Hende, jaa, baaduñ þeim, hvar þu stendur teiknud. Vendum oss nu til þess Krossfesta Jesum aa Golgatha, og þaa faauñ vier ad liita þær utþondu Hendurnar, i hvoriar hañ hefur oss teiknad, þar saaum vier ad liita hañ sem soleides hefur losad aldrei ad ysergefa oss.

En hvornen heirum vier nu af hans egen Munne, ad hañ sialfur sie yfergefeñ? ad hañ sialfur i stærstu Hiartans Angist upphroopar: Gud miñ, Gud miñ, hvarfyrer hefur þu yfergefed mig! Mætte oss ei hier vid fallast hugur? Mættum vier ei hier ut af þeinkia so med sialfum oss? Ef Gud kuñe ad yfergefa siñ Eingeteñ Son, og þad i hans stærstu-Neid, þa hañ mest þurfte sins Fodurs Hialpar vid, hvorsu mogulegt er þad þa ei ad hañ forgleima kuñe oss sinum Ohlíidnu, og Overdugu Bornum; Ney aungvañvegeñ, heldur þar þvert imot, sokum þess ad Jesus nu var yfergefeñ, þa er þad hreint Omogulegt ad hañ kuñe oss ad yfergefa, ja so Omogulegt sem þad er, ad hañ kuñe sinum egeñ syne ad forgleima, þar hañ situr til hans hægre Handar, so Omogulegt er þad ad hañ kuñe ad forgleima sinuñ Bornum. Þier merked þa miner Elskañleger! af þvi saa er Eg sagt hefe, ad þad Fiorda Ord Christi a Krossenum er eitt nærsta vigtugt Ord, sem miked hefur i sier foolged, so beist sem þaug Ord voru Jesu so sæt eru þaug oss, þaug mega likiast vid Staf Moisis sem vard ad Ognarlegum Hoggorme þa Moses kastade honum fra sier, so hañ vard hræddur og fliide fyrer honum, eñ þa hañ epter Drottens Skipan greip uñ hañs Hala, vard hañ aptur ad Staf i hañs Hende, hvarmed hañ sidañ giorde morg Furduverk, þesse Jesu Ord eru og i sañleika so Ognarleg ad vier meguñ skelfast fyrer þeim eins og Moises og þeinkia;

hafe

hafe þad so tilgenged fyrer Jesu, hafe honum leged vid sialfft ad orvænta, og hafe hañ vered af Gude yfergefeñ, O! so er þad ute med oss; hvør maa þaa kuña ad hialpa oss! Eñ tokum vier þesse Ord i vorrar Truar Hendur; þaa munu þau verda vorre Tru ad stirkvum Studnings Staf, og vorum Hiortum til sækustu Hugsvølunar. Laatum oss þaa yfervega hid Fiorda Lijffens Ord aa Daudastunduñe ; Gud miñ, Gud miñ, hvarfyrer hefur þu yfergefed mig. Hvor Ord vier aaliitum ;

I. sem forundrunarleg og markverdug,
II. sem skelfeleg, eñ þo Huggunar samleg Ord.

Þari hofum vier ad hugleida

I. Hans aumkunarlega kall.
II. Hans Saarlegu uñkvortun.

# Utleggingeñ.

Ad vera hialparlaus i Neideñe er þungt, eñ ad vera Vinalaus er nærstum þyngra, þo er hid þungbærasta af ollu þessu, ad vera aldeiles Vonarlaus. David var hialparlaus og hafde varla eirn Vin, eñ hañ var ei Vonarlaus; hañ hafde fyrerheit þaruñ ad hañs Gud villde hañ ei yfergefa, þessvegna seger hañ; Fader miñ og Mooder yfergaafu mig, eñ

eñ þu Drotteñ añadest mig. Ps. 27. v. 10. Eñ þa hañs hormung vard so stor, ad honum fañst Drotteñ hefde sig ogso yfergefed; þa hropar hañ sargrætelega at þeñañ hatt O! Drotteñ hvørsu lenge villt þu so ølldunges forgleima mier, og hvørsu lenge byrger þu þitt Andlit fyrer mier? Psal. 13. v. 2. Hefur Gud þa forgleimt nædungur ad vera, og af reide sina Miskun iñelukt? Ps. 77. v. 10. Þañeg var þvi hættad fyrer Davids Syne vorum Endurlausnara, hañ var i siñe Piinu ei einasta Hiælparlaus, þar var engeñ sem hañs Sok adsier tæke; Hañ eirn trad Viinpressuna, og þar var engeñ af Foolkenu med honum. Es. 63. v. 3. Hañ var og eirneñ nær þvi Vinalaus, þvi hañs egeñ Lærisveinar hofdu ei einunges yfergefed hañ, heldur og afneitad, og hneixlad sig at honum; hvorugt þetta lætur hañ þo at sier heira; eñ þa Gud hafde hier at ofañ svipt hañ allre huggun og tilfiñing siñar Nadar; þad er, þa Gud hafde hañ forlæted, þad var hid saarasta af ollu þvi er hañ liida mætte, þad kom honum, sem hingad til i allre siñe Piinu hafde þagad sem Lamb, þad kom honum til, ei einasta ad klaga þaryfer, heldur og giesa Neid sina tilkyña med megnum hlioodum. Vier ælytum so i fyrstu, þetta hañs aumkunarlega Kall; Gud miñ, Gud miñ, hvarfyrer

rer hefur þu yfergefed mig? Nu yferstood Jesu stærsta Neid, og uppfylltest hier; Spaadoomur Esaiæ; Eg skygndest i Kriingum mig og þar var engeñ Hiaalpare, eg var i Skelfingu og engeñ studde mig, heldur vard miñ armleggur ad hiaalpa mier og miin reide, hun studde mig. Es. 63. v. 5. Jesus saa hier ei añad eñ þad sem mætte vera til angurs; Lite hañ nidur-fyrer sig, þaa var þar ad soñu hañs Mooder, eñ fyrer þvi heñar Saal var nu Ormædd af Sorg, so gat þad ei añad eñ auked hañs Piinu, Gydingar stoodu þar og eñ nu og spottudu hañ; Lite hañ uppfyrer sig þaa var þar ei añad eñ hin formyrkvada Sool; Himeneñ siaalfur var reidur, eingeñ Eingell var nu sem villde styrkia hañ. Hañ hafde hier eingrar Huggunar ad vænta utañ af sinum Himneska Fodur; so hiñ eingetne Sonureñ mætte nu segia, sem forduñ hiñ fortapade Son; Jeg vil uppstanda og fara til Fodur Husa; Luc. 15. v. 18. Jeg veit þo, ad hañ mun miskuna sig yfer mig; eñ hier voru og Dyrnar aptur lokadar; og engeñ huggun ad fiña; og eru hier framkomeñ Votn Ezechielis Spamañs sem urdu æ dyppre og dyppre, og gengu honum loks yfer hofuded, so hañ nærde ei botne, og mætte añadhvort synda edur druckna. Ezech. 47. v. 3. - 5. Jesu Piina stood nu og sem hædst, so hañ mætte hroopa uñ Hiaalp og segia; Drotteñ! Vatned

ned gengur inn ad mine Saalu. Viltu siaa, syndug Manneskia, hvad þiinar Illgiorder hafa kostad Jesum, villtu rett siaa Guds straungu Reide, yfer Syndenñe þaa liit þiinum Augum hingad liit ei aa þad Spott edur Hogg sem Jesus leid og jafnvel ei aa hans beiska og blooduga Dauda; allt þetta var sem eckert ad reikna aa moote þvi sem hann leid aa Saalenñe i Grasgardenum; þaa hann sagde; Miin Saala er hrigg allt til Dauda, og nu aa Krossenum þaa hann hroopade; Gud minn! Gud minn! hvarfyrer hefur þu yfergefed mig? Þad eru þaug Ord sem jeg ætla ad leggia utaf i Dag, enn jafnframt kann jeg ei ad neita, ad so opt sem jeg skal umm þaug hondla, þaa skedur þad æ med Hrædslu og Otta; þvi þetta Ord Christi aa Krossenum, er ei einasta eitt skelfelegt heldur og

Eitt forundrunarlegt Ord, jaa so forundrunarlegt ad þad kann aldrei fullskyrt ad verda fyrer mannlegre Skynseme edur fullvel utskyrast af mannlegre Tungu. Hierumm maa hinn Viisaste segia med David, þad er mier ofhaatt, eg fæ þad ecke skiled. Ps. 139. v. 6. Hvor mun þora ad ætla þad sie audskiled med hvorium hætte Gud hafe kunnad, ad yfergefa Gud? og hvorsu ad Jesus, sem siaalfur var sannur Gud i einne Oupplejsannlegre Einingu, kunne yfer þvi ad klaga ad hann være af Gude yfergefenn? Þaa hann

med

med sama hlaut ad yfergefa siaalfañ sig, Þvi hañ, Faderen og Heilagur Ande eru eitt, og eirn sañur Gud, og hañ þar ad auke sem Gud er vid Mañdoomeñ samteingdur med einu Oendañlegu og Osundurslytañlegu Sambande; Hvorneñ kuñe hañ þaa ad vera af Gude yfergefeñ? Var hañ þaa siaalfur ecke leingur Gud? og ef hañ hieck aa Krossenum sem Eintoomes Mañeskia hvad stodar oss þaa hañs Piina? Vier heirum so marga Klaga yfer Verolldeñe ad hun sie so folsk, yfer Tiimunum ad þeir sieu so vonder, moñunum, ad þeir sieu so Otrigger, og þess haattar fleira; eñ þad heirest skialldañ ad nockur klage yfer siaalfum sier, ad hañ sie so vondur, og eñ þaa siidur ad hañ sig siaalfañ yfergefed hafe; Og siaa! þetta er þo þad sem Jesus hier yfer klagar. Gud var yfergefeñ af Gude, og þar er þo einasta eiñ Gud. Hvør fær þetta griped? hvor þorer ad leisa ur þessu? So miked er þo viist og oss vitañlegt, ad aa Jesu þaa hañ þeita talade hefur ad viisu þyngre Kvol leged, eñ ad nockur Mañeskia kuñe þad ad skilia, miklu sydur med Ordum utmaala: Gud vardveite oss þarfraa ad komast nockurn Tijma ad fulluñ Skilninge uñ Kvaler Fordæmdra, þvi þad kañ ei ad ske utañ med egeñ Reinslu; þarfyrer faaum vier og aldrei med Ordum tilfulls utsagt hvad þad var sem Jesus i Gethsemane og hier aa Golgatha leid i siñe Saalu. Þaa hiñ Sæle Lutherus eitt siñ atte fyrer hondum ad leggia ut af þessum Ordum, hiellt

hañ sier i nockra Daga iñeluktum fra ødru Fool-ke, eñ þa nockrer Dagar hofdu so lided fram, ad eckert heirdest til hañs i Husenu og hañ hvorke lauk upp edur ansade þeim er a dyrnar klappudu edur til hañs Kolludu, so undrudust meñ um hañ og brutu loksens dyrnar upp; Fañst hañ þa sitiande i þvi iñsta Herberge og studde Hønd under Kiñ, hafande fyrer sier siina Bibliu med þessum Ordum uppslegnum; Gud miñ! Gud miñ! hvarfyrer hefur þu yfergefed mig? og þa hañ var adspurdur þvi hañ hielde sig þañeñ iñeluktañ svarade hañ nockud snøggslega; meined þid þad sie so hægt ad koma sier nidur i þvi ad Gud er af Gude yfergefen? Hañ hefur og siidañ sagt, ad han alldrei aan nockurskonar Kvyda hafe sier fyrer hendur teked utskyring þessara Orda; og viist er þad ad vor Skilningur verdur lykt sem fra sier numeñ, þa vier nidurstiigum i þeñañ gruñlausa Leindardoom; og þa vier loks þykiunst ad nockruleite skilia og vilium utfæra med Ordum þad vier meinum oss gryped hafa, þa verdur oss hreint Ordaskortur. O hvilyk Dypt Audæfaña og Guds Speke, Rom. 11. v. 33. Bruñur allrar Huggunar er hier huggunarlaus einasta þessvegna ad vier mættum huggun odlast. Þesse Christi Ord eru þa so undrunarverd og Oskiljañleg, sem sagt er, eñ aungvu ad siidur liggur oss mesta Magt a ad yfervega þaug; þvi jeg ma segia ad af ollu þvi hañ leid þa eru þesse, añars skelfelegu Ord, oss hin hugguarrykustu; Hefde

 hañ

hañ ei lided Þær bitru Helviites ængist er vier siælfer lijda ættum fyrer vorar Synder, Þær hefde oll oñur hans Kvol vered Onoog til ad stilla Guds Rettlæte; hvort hañ hefur meira lided æ Sælleñe i Gethsemane edur æ Golgathá kañ jeg ei vist ad segia, nema ad Þvi leite ad hañ leid Þar alleina æ Sælleñe, Þær hafde engeñ Hondur æ hañ lagt, hin Onætturlega Kvol Sælareñar var Þad alleina sem giorde so Onætturlega Verkun i hañs Liikama ad hañs Sveite var sem Bloodhniklar Þeir ed fiellu æ Jordena. Eñ hier æ Krossenum leid hañ ei alleina eins miked æ Sælluñe, heldur siinest og ad hier hafe hañs Kvol varad lengur, hañ var hier og Ormæddur, eñ ei kom neirn Eingell til ad styrkia hañ; jafnframt leid hañ hier Þær allrastærstu Kvol æ Liikamanum. Þar strydde hañ ad soñu under Byrde Syndaña, Guds Reide, Logmaalsens Bolvan og Helviites ængist, eñ hier striidde hañ ei ad eins vid allt Þetta, heldur og Þaradauk vid Orvænting og Mistraust um siælfañ sig, um Guds Naad, og linun siñar Þiarningar; Jeg sege ecke hier hafe vered Hugarviil heldur Striid vid Hugarviil og Orvænting; Þvi um Þesse Jesu Ord æ Madur ad hugsa og tala med stoorre Vareigd. Jeg sege og ad Jesus bæde æ Saal og Liikama hafe lided alla Þær sarustu Piisl er verda mætte, hvad Þo er so ad skilia, ad Liikamañs Kvol so stoor sem hun var, vard honum hier ei so mieg Obæreleg, sokum Þess er lær æ Sæluñe. Ein Mañeskia sem er

klipeñ

klipen med gloande Taungum munde ei stoort til þess sinna, þo ein Fluga under eins stiinge hann annarsstadar; Vor Frelsare leid nu so mikid af Sathans gloande Taungum og Piilum at sinne Saalu i þessar 3 Stunder liidlangar, ad hann fyrer þvi ei stoort funded hefur til utvortes þianingar; alt eins og Saalarennar fognudur hiaa Piislarvottunum giorde þad, ad þeir tiidum sættu nærsta litted umm þad sem lar at Lykamanum; so skedur þad og eirnen fyrer þeim sem er i stoorre Saalarangist, ad hann lætur ecke at sier festa neinar utvortes meinsemder. Enn engen Manneskia ifraa fyrstu Skopun inntil Doomadags, hefur kunnad edur mun kunna þvilyka Saalar Kvol ad liida sem Jesus hier leid, hvored pressade utaf hanns Munne þesse þungu andvorpunar Ord; **Gud minn! Gud minn! hvarfyrer hefur þu yfergefed mig?** Vier hofum soleides nockud athugad hvorsu þesse Ord eru forundrunarleg; nu vilium vier þarnærst med faam Ordum þad til huggunar færa, hvorsu þaug eru eirnen nærsta markverdug.

I. Þad eru so margar Kringumstædur sem giora þesse Ord so miog merkeleg og epterte ktaverd. Þad finnst fyrer morgum hundrad Aarum Spaadomur umm þaug hiaa David Psalm. 22. hvor Psalmur ad so klaarlega talar umm Christi Piinu, allt eins og David sialfur hefde vered þar naalægur, og sied hvorsu allt tilgieck.

gieck. Hañ byriäst med þessum Ordum; Gud miñ! Gud miñ! hvarfyrer yfergafstu mig, og med þvi David hefur byriad a þessu sem er likasem Hæden og Dypten af hañs þiar=ningu, og þad sem i hans Kvol og Piinu allt añad yfergieck, so hefur og eirneñ Davids Son Christur villad med harre Röddu uthroopa þesse Ord, uppa þad sierhvor vita skylde, ad allur Psalmureñ um sig hondlade. Ad jeg tale ei um hvorsu merkelegt þad er, ad Gydingar hofdu til Sids, hvorn Morgun þa þeir offru=du ad lesa þeñañ 22 Davids Psalm; og er y=ferskripteñ a honum þesse; Psalmur Davids, fyrer ad syngia, utaf þeirre Hindene sem aarla var veidd; og var þess meire von ad Gydingar hefdu vaknad leks hier vid, og sañfærder orded um siina Rangsleitne. Eñ hvad munde þo þet=ta hafa hia þeim verkad? aa efa þad sama sem Guds Ord verkar eñ nu hia hinum For=herdtu; þeir hlou og spottudust þar ad, heiter þad, og sogdu; bydum, laatum sia hvort E=lias kemur ad taka hañ ofañ.

II. Hvorsu merkeleg þesse Ord eru, siaum vier eñ framar þaraf, ad hvorke Mattheus nie Marcus hafa dyrfst ad umbreyta þeim, edur utleggia þaug a þeirra eged Tungumaal, aa þess ad framfæra þaug i sama Maale sem Je=sus þaug talade, nefnelega þvi Syrlendska, hvad þo allskialdañ er venja þeirra; fyrer þessum Je=

ſu Ordum alleiña bera þeir þaa Lotningu, ad epterlaata oſs þaug aa ſomu Tungu ſem hañ þaug talade; og viſt hefdum vier ei añars feinged ſkiled, hvad hinum forherdtu Gydingum hafe genged til þeirra Hardyrda er ſtrax hier aa epterfylgdu; Laatum ſiaa hvort Elias kemur ad hiaalpa honum.

III. Markverdug eru eirneñ þeſſe Ord af ſiñe Nidurradan, þvi þaug ſtanda midt i mided. J hinum þremur undañfornu Ordum ſorgar Jeſus alleina fyrer Odrum, eñ i þeſſu og hinum epterkomande, aaliitur hañ ſiaalfañ ſig og ſiñ egeñ hag; hiermed hefur hañ kient oſs hvorneñ vier ſkulum oſs til Daudans bua; hvarum talad er utaf þvi odru Ordenu. Hier adaukhefur Jeſus ei ad eins i Liifenu, heldur og aa ſiñe Daudaſtundu, med þeſſara Siø Orda iñehalde og Nidurradan ſynt oſs, hvorſu hañs giæſku hefur æ vered meir um̃ adra hugad eñ ſiaalfañ ſig, og þarmed ſtadfeſt ſitt Bod til vor fyrer Pauls Muñ Cor. 10. 14. **Eingeñ leite þeſs ſem hañs er, heldur ſier hvør þeſs ſem añars er.**

IV. Framar þeſſu þaa eru þeſſe Jeſu Ord nærſta merkeleg, ſokum þeſs laanga Tiima, er leid fraa þvi hañ talade hin oñur Ordeñ, og haſa þad vered ad miñſta koſte heilar þriaar Stunder. Þad maa raada af Gudſpiallamoñunum

ad bæde þaug þriu fyrstu og þaug þriu sijdstu Ord hefur hañ talad nærstum þvi i einu Strik-lote; eñ i millum þess þridia og fiorda Ords, hefur vered lꜳngur Stañs, stor Kyrrd, og diup Sorg ꜳ allar Siidur, þvi þꜳ skedu þaug stooru Undur ad Sooleñ formyrkvadest yfer allt Landed; eñ i þær þriꜳr Stunder hefur Jesu Sꜳla ꜳtt i þeirre Ognarlegustu Orustu, sem so hefur nærre honum geinged, ad hañ alla þꜳ Tiid hefur aungvu Orde uppkomed, fyrreñ hañ fieck Andruum þꜳ Sooleñ took aptur ad lysa. Aller hafa, ad vonum, i sögdum byßnum vered i Kyrrd og þögn, og gietur þess ei adneitt sierdeiles giorst hafa alla þꜳ Tiid. Eñ varla var Biiskunum og Skelfinguñe loked fyrr eñ Illvyrkiarner aptur tooku til siñar fyrre ydiu sem eckert hefde i Orded, so lyted hiꜳlpa Guds Ord og Tꜳkn hiꜳ forherdtum Mañeskium.

V. Eru þesse Ord harla merkeleg sökum hiñar stooru Soolareñar Formyrkvunar, sem var þeirra Undañfare, og giorde þaug so Ofbodsleg. Þesse Formyrkvun var ei einasta aldeiles Onꜳtturleg þvi þꜳ stood Tungled i Fyllingu, heldur skede hun og so giorsamlega, þvi þar stendur ad Sooleñ hafe misst sitt Skin, og Myrkur giorst yfer allt Landed. Nefnda Formyrkvan kañ jeg ei so miög ad ꜳliita sem Guds Reides-Teikn yfer Gydingum, ei heldur ad Gud hafe þar med syna viliad, ad Personañ

sem

sem leid være ei einunges Madur heldur sañur Gud, allt þetta kañ ad hafa siin Lykende, eñ þaug eru þo ei fullnoog, þvi hvarfyrer munde þar ei Soolareñar Formyrkvan hafa sked sem hin oñur Teikneñ vid Christi Dauda? hitt ætla jeg ad þesse Soolar Formyrkvan hafe vered ein utvortes afmaalan uppa Jesu iñvortes Kvol, sem gaf ad merkia, ad nu læge soddañ Piina a hañs Saal sem eingeñ kynne ad skynia edur skyra. Hier voru nu þær tvær stooru Sooler Formyrkvadar, og þad med soddañ Formyrkvan sem aldrei hefur sked og aldrei heldur mun ske. Su naatturlega Sooleñ miste hier sitt Skin, hvad aldrei naatturlega skedur utañ med þeim hætte ad Tungled byrger fyrer oss heñar geitzla, þesse heñar furdañlega Formyrkvan, var aptur ein þiiding uppa vora Rettlætes Sool sem nu ogso var formyrkvud, þar Lioos Guds Andlites var fyrer honum huled, og Guds Reides Dreggium steypte yfer hañ; allt hvad Andskoteñ megnar, og maa yfer þeim Fordæmdu þad maatte Jesus hier liida; Allar vorar myrkvu Synder, oll Guds Reide yfer þeim, aull Andskotans Magt yfer þrælum Syndaña, allt þetta sette sig imillum hañs Saalar og Guds naadarriiku Hugsunar; Ecke er heldur Olykleg su meining nockurra af enum gomlu Lærefedrum, ad midt i þessu Myrkre hafe ein mergd af Helviites aarum sveimad fyrer hañs Augum til ad skelfa hañ, þvi eflaust hefur Andskoteñ ecke seted sig nu ur fære ad steipa honum i hugarviil og Orvænting;

eñ hvad þaruñ hefur vered edur ei, þa var Formyrkvun Guds Naadarliooss i Saaluñe, og Sioonarmisser Gudlegrar Huggunar einasta su saara Kvol er hañ hieryfer klagar, solenge a heñe stood, gat hañ ecke talad, eñ nu ad hañ tok ad siña nockurn lietter fyrer Hiartanu, og honum liited took ad byrta fyrer Auguñ, þa kallar hañ hærre Raustu: **Gud miñ! Gud miñ! þvi hefur þu yfergefed mig?** Sem villde hañ segia: O! þetta voru þungbærar og laangar þriaar Stunder; hvorneñ kuñer þu ad laata mig so leinge vera i þeirre angist; Eñ Gude sie Lof, nu er hun soviidt a enda; nu vil eg giarnañ deia. Og uñ Niundu Stund, kallade Jesus hærre Roddu seger Texteñ. O! þa Niundu Stund! lát aldrei Syndug Mañeskia þa Ostund yfer þig koma, ad þu gleimer þessare þiñe Endurlausnarstund, hun var honum riett ein myrkra Stund, og Helviites Magt, eñ oss er hun Ordeñ ein Lyssens Stund, og Saaluhialparkraptur, þvi a þessare siñe Daudastundu iñsiglade hañ allar siinar Piisler, og under eins vora Saaluhiaalp.

VI. Ad siidustu eru þesse Ord harla merkeleg af þvi megna hroope, þvi Gudspialla Madureñ seiger ei einasta ad hañ hafe kallad, helldur og hañ hafe kallad med hærre Roddu; hvarmed Jesus hefur ei einasta viliad siina, hvad skielfelega angist

hañ

hañ hafde utſtaded; helldur og þaa hefur hañ ſo þeſſe, ſem þaug hin ſidſtu Ord med megnu kalle og haarre Rauſtu frambored, til Beviſingar þarum ad hañ ei, ſem adrar deiande Mañeſkiur, af hvorium Maal og Rauſt plagar ad draga, af nockrum vanmaatt dæed hafe, helldur ſiaalfur ſitt Lijf aflagt.

Og er þad næſta epterteftavert, ad David i ſinum aadurnefnda 22 Pſaalme, hvar hañ ïtrekar þeſſe Chriſti Ord, **Gud miñ! Gud miñ! hvarfyrer hefur þu yfergefed mig?** Þar ſeger hañ i hinu þridia Verſe; miñ Gud æ Deigenum kalla Eg til þiin, og hiertil brukar hañ eitt Ord ſem þiider Lioons Oſkur; Lioned oſkrar ſeger Spaamadureñ, hvor ſkyllde ei ſkelfaſt. Amos 3. v. 8. Joſua hroopade einu ſiñe og Sooleñ ſtood kyrr. Joſ. 10. v. 12. O! heired þier Himnar! Guds Son hroopar; þad er furda ad Naatturuñar Kraptar faa hier ſtadeſt, ad aller Einglar koma ei til hiaalpar, og allar lifande Skepnur verda ei andvana vid þetta Hroop. Eñ hafe nu hrooped vered ſo ſkelfelegt, ſo var þad ſem hañ hroopade yfer þo eñ þaa ſkelfelegra, og er þad hid ſydara er vier viliuñ yfervega, og aaliita þeſſe Ord ſem ſkelfeleg og Ognarleg. Vier hoſum heirt hans aumkunarlega kall, laatum oſs nu heira

I añañ maata hans Hryggelegu Umkvortun og þaa Neid er hañ klagar yfer; Gud miñ!

Gud miñ! Þvi hefur þu yfergefed mig: Siaa! hier er Atrided af ollum Christi Piislum, og meigum vier bæde tala og hugsa þar um med stærstu Vareigd. aa eina siidu megum vier ei þeinkia ad þetta hafe einunges vered ein Freistne fyrer Jesu, so hañ hafe þo raunar ei vered yfergefeñ; Ney aungvañvegeñ, hiñ Sañorde Jesus seger ei hlutena odruviis eñ þeir eru, þad er ei hañs aasetningur ad giora syuar Pislier stærre i vorum Augum eñ þær voru i siaalfum sier; hañ var vyrkelega af Gude yfergefeñ, og su Kvol var stærre eñ vor Hugskot saae þad griped edur vor Tunga utmaalad; þaa vier aa siidañ komum i þañ himneska Haa-Skoola, mun Jesus skyra oss best þar fraa; þaa munum vier skilia þad til fulls. aa þaa adra Siidu megum vier vel varast ad þeinkia, þad Gud hafe hier soleides yfergefed Jesum, ad hañ siaalfur ei hafe vered Gud, þaa hañ þetta talade, edur ad Sameinging þeirrar Guddoomlegu og Mañdoomlegu Naatturu hafe hier aldeiles uppleist vered. O! Ney! Gud kome til! Þessvegna er Christi Piina so kroptug, ad þad var sañur Gud sem leid; Saalen sem hañ fool Gude aa Hendur var Guds Sonar Saal, hañs Likame sem laa i Grofeñe var Guds Sonar Likame, hañs utthellta Blood, var ei ad eins eirnrar Mañeskiu, heldur og Guds Sonar Blood, og være ei so, þaa være Kraptur Christi Piinu harla liitell. Þvi seger Paull, Gud var i Christo og forlijkade

kade Heimeñ vid sialfañ sig. 2 Cor. 5. v. 19. Siaum̃ vier so hier af, ad su Saalar-angist er hañ kvartar hierum̃ var Guds Sonar Saalar-angist, því añars hefde hun oss ad litlu gagne Orded.

Eñ hvad egum̃ vier þaa ad meina hier um̃? Jeg fæ þad ei ad ollu leite sagt, því þad er Ogrypañlegt, þo kañ jeg fyrer viist ad segia þetta, ad Gud hefur hañ yfergefed fyrst med því ad svipta hañ allre gudlegre Huggun og tilfinning Guds Sætleika, þarnæst med því ad bæta ofañ a þeñañ Svipter Kvalafullum̃ tilfiñingum̃ i Saaluñe.

Hvad því fyrra vidvykur, þaa hafde Jesus i siñe Piinu hast iñvortes Hugsvolun og Glede i Saaluñe, med Fullvissu um̃ Guds Kærleika, og því leid hañ þær bitrustu Piislser aan Efaseme og Hugar-viils, eñ þaa hañ atte til þess ad fiña hvad allrar Veraldareñar Synder voru þungar, er hañ hafde uppaa sig teked, og asamt þeim bera allt Syndaña-Straff, Guds Reide og Grimd andskotañs, þar matte hañ svipiast ollu því, er kuñe lietta under þessa Byrde, því añars hefde ei Jesus allt þad lided er vier liida attum̃. Munu nockud þeir fordæmdu i Helvijte hafa Lioos Guds Andlites, edur Smeck hañs Naadar? Ney liikasem hañ i siinum Porsta feck ei eirn Vatnsdropa ad svala siñe Tungu, heldur Gall og Edik, sem jook framar

Por-

Þorſtañ, ſo feck hañ i ſiñe Saalaraangiſt ecke eirn Dropa Hugguñar af ſiinum himneſka Fødur, og ecke eitt Ans uppaa alla hañs Andvarpan, heldur miklu framar ſañ hañ ei utañ Reide og Straf, i ſtadeñ fyrer Hægd og Hugſvølun; nu aatte Jeſus ad ſtanda i vorn Stad, þvi maatte Gud ei odruviiſe giora vid hañ, eñ hañ villde giora vid oſs, epter ſinu ſtraunga Rettlæte, ef vier ſiaalfer lided hefdum. Hier var aaſtadt fyrer Jeſu, ſem þeim Mañe, ed ſtaddur er i Dimmu-Huuſe, fullu af gerſemum, ad hañ hefur eckert gott þaraf fyrer Dimuñe; vorar oteliande Synder, þeirra Straff, og Guds Reide, hafa hier umkriingt Jeſum ſem þykt Myrkur og Þoka, ſo þo hañ være Guds Elſkulegur Son, þaa kuñe hañ hvorke ad ſiaa þad, nie til þeſs ſiña. Hieryſer klagar hañ ſiaalfur fyrer Davids Muñ; **Oteliandleg Kvalræde hafa umkringt mig, miinar Synder, þær hondludu mig, ſo jeg kañ ecke ad ſiaa, og mitt Hiarta, þad hefur yfergefed mig.** Pſalm. 40. v. 13. J þeſſum ordum utſkyrer hañ ſiaalfur; hvari þad var faled, ad hañ var af Gude yfergefeñ; þetta voru þeir ſuruſtu Droparner, og riett Dreggiarnar af Guds Reides Kaleik, ad Gud var ordeñ hañs ſtraange Doomare þad var honum Obærelegt, og þaryfer klagar hañ; æ miñ Gud! Hvorſu hefur þu nu getad, og þad ſo lenge yfergefed mig!

Hvad þvi sidara vidvykur, sem er hvad hañ matte lyda at Saaluñe, auk þessa svipters guds legrar Huggunar, þar var þad Syndareñar heiskleike og Broddur af Logmalseñs bolvan, þvi nu var hañ ein bolvan ordeñ vor vegna, hañ fañ til andskotans heiptar, Fordæmingareñar þorku, og Helviites Elds; i einu Orde, hañ fañ til þess sem vier aldrei kuñum til ad fiña, edur ad skynia i þessu Lijfe, eirn fordæmdur kyñe oss betur þarfrat ad segia eñ nockur lifande Madur; hañ fañ til Syndareñar heiskleika, ei at þañ hatt, sem Syndareñ i siinu Yvrunar-Verke, heldur sem þeir Fordæmdu. Hañ fañ og til Guds Reide; eñ munde þat Gud reidst hafa vid siñ eigeñ Son? Ney, i ollu þessu var Jesus Guds Elskulegur Sonur, eñ þessa siina Elsku hulde nu Gud fyrer honum, og hondlade nu ei odruviise vid siñ Son, eñ eirn strangur Doomare, sem kresst fulls Betalings Skuldareñar aan nockrar uppgiafar.

Ad hañ og sided hafe Fyrerdæmingu, mun viisast þykia ofhardt adkveded, eñ þad er ecke; edur þvi munde þad hardara, eñ þad Paull seger, ad hañ hafe orded ein Bolvan fyrer oss. Gal. 3. v. 13. Miklu framar er þetta vor stædsta Huggun; vey oss aumum Mañeskium ef Jesus hefde ei lided allt þad vier attum ad liida. Hegningeñ hefur at honum leged ad vier hefdum Frideñ; Es. 53. v. 8. Og ef hañ þad leid so matte þad vera nu strax, epter þessar þriar Stun-

Stunder lidnar sagde hañ; **Pad er fullkomnad**: Maaske einhvør vilie segia; hvørsu maatte hañ med þessare siñe Piinu, sem ei varade utañ þriaar Stunder, Gude fullnuſtu giora; villde Gud laata sier þar med lynda, þa kyñe hañ laata hvørn eirn af oſs liida Helviites Piisler i þriaar Stunder, og so være þarmed bued þo Kvalernar være aldrei so bitrar, þad kyñe vera þad sama, þriaar Stunder liida skiott.

Eñ gæt þeſs O! Mañeskia, ad hier er ødru maale ad gegna fyrer oſs; hañ var Oendañleg Persona, og þvi er hvørt Augnablik hans Piinu af Oendañlegum Krapte; þad er og eingum Mañe mogulegt ad liida þad allramiñsta af þvi er Christur leid, aan þeſs ad falla i Syndsamlega Orvænting, þvi er þad, ad Piisler fordæmdra faa aungvañ enda, og þeir geta aldrei fullnægt Guds Rettlæte, ad þeir Syndga sii feldt aa moote Gude med Orvæntinguñe sem er hin stærsta af ollum Syndum; þar var engeñ Hvørke aa Himne edur Jørdu, sem eitt Augnablik þola kuñe þviilikar Kvaler utañ alleina almaattugur Guds Son; ad Andskotteñ i þessare Helviites=aangist hafe freistad hañs til Orvæntingar, eins og hañ aadur giort hafde aa Eydemorkeñe er Oefanlegt, eñ ad Jesus hafe ei þar af sigrast laated, siina þesse hañs Ord; **Gud miñ! Gud miñ!** Hañ ei einasta kallar og vonar til Guds, heldur og hefur Truar

Traust

Traust til hañs sem sins Guds; hañ aaleit hañ, i ollu þessu, sem eirn riettlaatañ Doomara, eirn heilagañ Gud, og þo samt siñ Gud, er ad sioñu hefde sig yfergefed i þessare hordu Orustn, eñ munde þo ei utskufa sier eiliiflega. Eñ mun nu Jesus ei hafa vitad þetta fyrer, og þarfyrer med þessum orduñ segia viliad; þess hafde jeg ecke vænt af þier miñ Gud, ad þu munder þañeg med mig fara, ad yfergefa mig so? O! Ney, þar kom eckert fram vid hañ utañ hvad aadur var af þeirre Heilogu þreñingu, og þessvegna sialfuñ honuñ, yfer sialfum honum aalyktad; eñ siidur sagde Jesus þetta af Oþoleñmæde, edur ad hañ vilde gaanga i Doom vid Gud, æ Ney! hañ hafde aadur sagt, **þo ecke miñ, heldur verde þiñ Vilie.** Heldur vilde hañ hiermed syna oss, hvorsu Obærelega Kvol hañ hefde teked ut i þessar þriaar Stunder, hvad oss hefde aldrei i hugkomed, hefdum vier ei heirt þad af sialfs Jesu Muñe. Hañ spyr þaruñ, uppaa þad vier alvarlega hugleiduñ, hvorsu þvi sie haattad ad vera af Gude yfergefeñ; hañ spyr, hvar fyrer? so vier skuluñ þreyfa Heudeñe i vorn egeñ Barm, og þeinkia so med sialfuñ oss; O miñ Jesu! hvarfyrer ertu yfergefeñ utañ fyrer vora Skulld? fyrer þad vier hofuñ yfergefed Gud, fyrer þad vorar Synder hafa giordt adskilnad i millum Guds og vor. Es. 59. v. 2. Vier hofum ei einasta i Adam, heldur og i eigeñ Persionu yfergefed Gud, og aattuñ þvi eiliiflega fraa honuñ ad utskufast, hefder þu vor Borgunar-

Madur ei vered i vorn Stad yfergefeñ; þess-vegna, Drotteñ Jesu, so lenge vier nu ecke yfergefum þig, kañ Gud ei ad yfergefa oss, þvi þad er af honum svared, ad hvor sem aa þig truer skule aldrei fortapast, heldur hafa þad eiliifa Liif. Joh. 3. v. 16.

Vier hofum̃ so nærst komest rettre Meiningu þessa Spursmaals. Laatum oss nu eñ framar ihuga þaa helstu Huggun og Lærdooma, er vier af þessu hañs Orde draga kuñum̃.

So skelfelegt sem þetta Ord var fyrer Christum, so huggunarriikt er þad fyrer oss. Vier skulum̃ aldrei ad eyliifu verda af Gude yfergefner, so lenge vier i lifande Tru holdum̃ oss til hañs: Sieum̃ vier neidstadder, so oss syñest utgiort um̃ oss, þaa er þo ei so; þvi vier hofum̃ hañs Ord; **Eg em hiaa þier i Neideñe, Eg vil þier þadañ utryckia, og þig vegsamlegañ giora.** Ps. 91. v. 15. Jaa þaa aller Viner og oll Veroldeñ hefur yfergefed oss, þaa heiter þad þo fyrer oss sem Postulanum̃ Paule; **þeir yfergaafu mig aller, eñ Drotteñ stood hiaa mier og styrkte mig.** 2 Tim. 4. v. 16. og sem fyrer David. **Fader miñ og Mooder yfergaafu mig, eñ þu Drotteñ añadest mig.** Ps. 22. v. 10. Og ei einasta þetta, heldur hofum vier utaf þessu Jesu Orde eñ þaa ædre Glede og Huggun sem er;

ad

ad þa þar kañ jafnvel ad ad koma, ad oss syneist, sem vier sieum eirneñ af Gude yfergefner, a Freistingar Tiimanuñ, so vier fiñum aungva Huggun, edur Heilags Anda Verkan i Saaluñe og ætlum oss þessvegna stadda i somu Neid sem Jesus hier, jafnvel þo vier sieuñ þad ecke, og þykiunst þvi med sama Rette hafa ad klaga sem hañ; **Miñ Gud, þvi hefur þu so yfergefed mig, edur sem Job; sia þo jeg kalle, þa heirer hañ mig þo ecke, hvarfyrer byrger þu þitt Andlit og heldur mig fyrer þiñ Ovin?** Job. 3. v. 24. Og er þad viist, ad slikt eru þær herfeleguſty Kvaler sem einu Guds Barne kuña til ad falla, eñ þo eru þad marger sem sliikt hafa mæatt reina, þad er Guds Verk ad soddañ uppaafellur i þeirra Ydrunar bardaga; so oll Oklaarende sem eru i þeirra Hiortum samañsofnud, mege lijkt sem fraa botne upprætast, þvi ega Guds Born laangtum hardara i sinn Ydrunar=Verke eñ Heimsens Born, þa koma þeim jafnvel fyrer Siooner þær Synder er þaug aldrei þecktu nie þeckt hefdu, nema Gud med þviliikum Storme hefde uppvægt þeirra Samvitskur. Ja þad skedur og so þa, sem lenge hafa i Trunne smackad hvad Sætur, ad Drotteñ er og funded i þeirra Saaluñ, Lioos Lijf og Glede Heilags Anda, þad skedur þa, sege eg allt i einu, ad þetta verdur sem eirn Draumur i þeirra Hugskots augum þeir trua ei ad þeir hafe nockurn

I Tiima

Tiima haſt þad, helldur ætla ad Andſkoteñ þar med hafe vered ad gabba þa, þeir ſiaa nu ei utañ eintoomes audn i þeirra Saaluñ, eñ fiña aungva Hægd edur hugſvolun, þa þeinkia þeir; Gud hafe viiſt yfergefed þa; og er þetta þad ſem Ritningeñ ſo opt nefner Helviite, Helviites Port og Belials Becke; eñ þeſſe Freiſtne kañ aungvum til ad falla, utañ Guds Bornum, þvi þeir Ogudlegu hafa alldrei ſmackad Guds Kærleika, og kuña þvi ei ad ſakna hans, edur hrigiaſt vid hañs miſſer, þeir ſakna ei utañ liikamlegs Munadar; eñ þeſſe Soknudur og Sturlan er einaſta Merke Guds Barna, og plagar Andſkoteñ þa ſo er aaſtadt ad iñſkioota þeim vondum Huxunum um Gud, og þeirra Saaluhiaalp. J ſliiku Tilſtande, ſege eg, fiñum vier Huggun i þeſſu Orde Jeſu, jaa tvøfallda Huggun; þad fyrſt, ad hañ ſiaalfur hefur maatt reina hvad þungt þad er, ad vera yfergefeñ af Gude, þeſsvegna ſampiineſt hañ vorum Breiſkleika, og bidur fyrer oſs; þarnæſt ad hañ vill frelſa oſs af Neideñe, þvi hañ hefur med ſiinum Dauda og aangiſt teked brodden, fraa voruñ Dauda og vorre aangiſt; ſo þo vier raafum i myrkvuñ Dal og Daudans Skugga, þa er Drotteñ hiaa oſs, hañs Vøndur og Stafur hugga oſs Pſ. 23. eñ falle þad oſs ſo þungt, þa oſs alleina ſyneſt ad Gud hafe oſs yfergefed, O! hviliik Ofbodsleg aangiſt maa þad vera, þa þad ſkedur vyrkelega, eñ þad hender ei adra eñ þverbrotna Gudleyſingia, uñ þa kuñuñ vier helldur ad ſegia, ad

þeir

þeir sieu yfergefner af Gude at sama Hatt og Jesus var, ad hañ ei ad eins fele sig fyrer þeim og snue vid þeim bakenu, heldur og aldeiles svipte þa siñe Nadar-Narvist; þo er þetta ein Olucka sem þeir ei fiña hier miked til, utañ so sie, ad Gud láte þeirra Samvitsku uppvakna, og vid þessa Ognar-Kvol sem eirn Eld gete frelsad þa, med odru moote fiña þeir ecke i þessu Liife, hvad þad sie ad vera af Gude yfergefeñ, eñ þar i moot munu þeir at siidañ, þvi sarara til þess fiña, um alla Eyliifd. **Vei þeim seger Drotteñ, nær jeg er fra þeim vikeñ.** Hos. 9. v. 12. Hvad Oþolande þad er, ad vera so af Gude yfergefeñ, kañ Cain ad segia, sem flackade fyrer utañ Roo Med nagande Samvitsku, þad kañ hiñ Orvinglade Judas ad segia sem leitade Huggunar i Snoruñe, og hlioop ut i Eldeñ, so hañ skylde ecke breña sig, ja þad kuña þeir fordæmdu best ad segia, sem eru eyliiflega utelokader fra Guds blyda Andlites Liose; þvi so seger um þa Ogudlegu; Deut. 31. v. 17. **J þañ Tiima mun miin Reide geyseleg verda yfer þeim, og eg mun yfergefa þa, og byrgia mitt Andlit fyrer þeim, so ad þeir skulu Foreidder verda.**

Vor Lærdoomur utaf þessu Jesu Orde skal vera sa, ad vier ei einasta þaraf hugleidum, hvad miked Jesum hafe kostad vor Endur-lausn, ad hañ þañig var yfergefeñ af Gude vor vegna;

heldur og eirneñ ad vier tøkum̃ ofs vara, ad yfergefa Gud, og ad þeir sem hafa yfergefed Gud, leite Drottens i Tiima, æ medañ hañ er ad fiña, og kalle æ hañ æmedañ hañ er Nalægur. Hugleid syndug Mañeskia! hvad þad hefur kostad Christum ad frelsa Sæalu þina, villtu nu i Stadeñ yfergefa hañ? Villtu nu mootþroañlega hafna þeirre Huggun ad Jesus var fyrer þina Skulld yfergefeñ? Giættu ad hvad þu giører, þu yfergefur hañ, þæ lifande uppsprettu, og hvad fær þu aptur? Harla liited, eitt Stycke Brauds, eirn hnefa Byggmiols seger Drotteñ. Ezech. 13. v. 19. Eirn Svaladryck af Ofriæalsu Vatne. Ordskv. B. 9. v. 17. Eina Augnalyst, eitt fæænytt Hros fyrer moñum̃, jæ sliett eckert, O! hviliik Eymd og Olucka mun hier æ epterfylgia uppæ Siidkasted; ef Guds Són mætte so miked liida fyrer añara Synder, hvorsu mun þad þæ gæænga ydur, þæ ydar egeñ Synder koma yfer ydar Hofud, hafe honum̃ um̃ liiteñ Tiima vered obærelegt ad vera af Gude yfergefeñ, hvorsu mun þæ ydur vegna sem sliikt þola meged um̃ alla Eyliifd? Þier sæted nu ad soñu ecke þarum̃, hvort Drotteñ yfergefur ydur, edur ecke, þier fiñed harla lyted til þess, jæ ydur þætte vænst um̃ ad Gud liete ydur aldeiles kyrra, og Skipte sier eckert af ydur; eñ hvorsu vill þad fara, þæ þier skulud eyliiflega utrekast fræ hañs Augsiin? Aller þeir sem fræ þier vykia, mu-

nu

nu fyrerfarast, þu glatar þeim øllum, sem hooraner drygia og moote þier, seger David Ps. 73. v. 27. Ney syndug Maneskia! heir þo hvorsu Jesus hroopar, fyrer þiinar Saker; Gud miñ! Gud miñ! þvi hefur þu yfergefed mig? Sie þad nu hiaa þier nockur vidurkeñing til Jesum hierfyrer og nockur Rækt til þiñar egeñ Saalar, þaa yfergef nu og afneita øllu þvi er kañ ad halda þier aptur, so ad þu getur ei stadfastlega fylgt þiinum Jesu; hald þier siidañ fast vid hañ; og seg i þiinu Hiarta; jeg sleppe þier ecke fyrr eñ þu blessar mig; tru þu mier, hañ mun þaa aldrei sleppa þier, hvorke hier i Tiimanum, nie siidar i Eyliifdeñe.

O Herra Jesu! vier reiduñ oss þaa uppaa þetta þitt Ord, yfergef oss aldrei i vorre Neid, og gleim oss aldrei i vorre Sorg; vier þockum þier af iñsta Hiarta, fyrer þetta þitt Ord, og þær Hugganer og Lærdooma er vier þari odlast høfum; þu hefur so dyrtkeipt oss, þvi skylder þu þaa ei eiga oss? þu hefur so dyru borgad oss, ad þu maatt vel biihalda oss. Vor trufaste Gud! þu hefur fyrer vora Skulld yfergefed þiñ eingeteñ Son, nu bidium vier þig fyrer hañs Skulld, yfergef oss

 ecke.

ecke. Herra Jesu! þu sem varst yfergefeñ, so vier alldrei yrdum̃ yfergefner vardveit oss fyrer allskonar Synd, hvarmed vier bæde yfergefum þig, og þu neidest til ad yfergefa oss; vier reidum oss uppaa þina Miskun, og sañsogle, ad þu aldrei slææer Hendeñe af oss, helst i vorre siidustu Neid, þaa aller adrer hafa yfergefed oss, stattu þaa hiaa oss med þiinum Krapte, og iñleid oss i þiina Dyrd, hvar vier aldrei framar kuñum̃ þig ad yfergefa, edur þu oss, ad Eyliifu! Amen.



Fim̃ta



# Fimta Prædikun

ut af

## Þvi fimta Christi Orde a Krossenum.

Joh. XIX. v. 28. 29.

Epter þad, þa Jesus sa, ad allt var nu fullkomnad og; ad Skripten yrde uppfyld, þa sagde hann; Mig þyrster; og þar stood eitt Kier, fullt af Edike, enn þeir fylltu eirn Niardar-vøtt med Edik, løgdu hann umm Ysop, og bauru þad ad hanns Munne.

## Jngangurinn.

Þad var ein undarleg Lyst, og furdannlegur Þorste er David eitt sinn feck, þar var eckert sem hønum kunne ad svala utann Vatn, og eckert Vatn smackadest hønum, utann Vatned, undann Borgarhlidenu i Bethlehem; hann sagde; hvør vill sækia mier ad drecka af þeim Brunne i Bethlehem undann Borgarhli-

denn. 2 Sam. 23. v. 15. Philistearner voru innfallner i hanns Land, og hofdu aasamt odrumm Borgumm inntekid hanns Fædingarstad Bethlehem, so þetta Vatn var ei audfenged. Varla er þad ad ætla þetta hafe vered liikamlegur Þorste; þvi skyllde David, einn Kongung þyrsta epter Vatne i einu Lande, hvar þad var yferfliootannlegt Viin, og laatumm vera, hann hefde meir laangad i Vatn enn Viin, gat hann þaa ei feinged þad med hægra moote annarstadar i einu Lande sem var fullt af heilnæmumm Vatns-Brunnumm? Ney, David hefur hvorke haft hier naatturlegann Þorsta nie meint til naatturlegs Vatns, þvi þaa nockrer kappar hans hofdu Oformerkt broteft epter þessu Vatne villde hann þad ei drecka, heldur hellte þvi aa Jordena; hvarmed (sem nockrer meina) hann gaf tilkynna sinn Þorsta og Gyrnd epter friun sins Fædingar-stadar, so þesse Brunnur under Borgarhlidenu mætte sier og sinum Monnum openn standa; edur og, hvad mier þyker liiklegra, þaa hefur hann hier lengra sed framm i vegenn, ei til sialfrar Borgarennar heldur þess er aa sinumm Tiima i henne skeskyllde, til þess Lijfsens Vatns Jesum, Guds og Davids Sonar, er i Bethlehem fædast skyllde; þessare meiningu til Styrkingar finn eg þad viida, ad David hefur sina epterlaangan, Þorsta kallad, og sina epterlaangan til Guds, Þorsta epter Vatne; liikasem **Hiortrenn kallar epter fersku Vatne, so kallar miin Saalu**

Gud

Gud til þin; mijna Saalu þyrster epter Gude, epter þeim lifande Gude, hvo-nær mun eg þaangað komast, þad Eg siae Guds Andlit. J þessum Ordum vi-lium vier til Jñgaangs hugleida

I. Davids Þorsta, og
II. Davids Svaladrick.

Vidvykiande þvi fyrra, þaa seger hañ; mina Saal þyrster; Saaleñ hefur siin Tilfelle og Umbreitingar, eins vel sem likameñ, likameñ kañ ad verda þiaadur af Ervide, Saaleñ af Sorg. Jeg er so mæddur af Andvarpan, seger David. Ps. 6. v. 7. Likamañ kañ ad hungra, Saaleñ hefur og sitt Hungur, ecke epter Mat, heldur epter Guds Ords huggun; siaa þu, seger Drotteñ, ad eg vil senda Hungur iñ i Landed, ecke epter Braude, heldur Orde Drottens. Amos 8. v. 11. Eins sem likamañ þyrster optlega so þyrster og Saalena, og þad med imsu Moote, þar er ein slags Þorste i Saalum̃ Ogudlegra, og añar slags i Saalum Guds Barna: Ætte sierhvør med David ad segia epter hvoriu hañ þyrste, þaa munde margur undarlegur Þorste uppkoma; eirn þyrster i Blood sins Naaunga, eirn añañ i hañs braud, hiñ þridia med Bileam, epter Balachs Gulle og Sylfre, stoorum Ordstyr og metordum, hiñ Fiorda þyrster epter Vatne, epter þvi stolna

Vatne. Ordskv. B. 9. v. 17. honum er ecke noog ad drecka Vatn af sinum egen̄ Brun̄e, heldur gengur han̄ med Saurliifes Bruna i Saxlen̄e. Suma þyrster en̄ þeir vita ei sialfer epter hvoriu, þad vita þeir þo ad þær bydur vid ollu sem ecke er syndsamlegt; þeir in̄drecka Ranglæted, sem Vatn. Job. 15. v. 16. Þeir eru eins og hin̄ Vatnssiuke, þvi meir han̄ dreckur, þvi meir þyrster han̄, Syndeñ er ei sem an̄ad er svalar, heldur mæ um̄ hana segia sem Vatned i Samaria, hvor þar af dreckur han̄ þyrster aptur. Joh. 4. v. 5.

Um̄ Þorsta Guds Barna er þad odru mæle ad gegna, þaug draga ecke dulur æ han̄; hvorium̄ sem Brudureñ mæter, þeim seger hun epter hvorium hana þyrster, hun fyrerverdur sig ei ad jæta fyrer þeim ad hun sie siuk af Elsku til sins Vinar Jesum; þæ Sælena þyrster epter Guds Orde og Hlutkekning Christi Forþienustu i han̄s Bloode, þad er sæ heilsusamlege Þorste er Christur um̄talar. Matth. 5. v. 10. **Sæler eru þeir sem hungra og þyrsta epter Rettlætenu, þvi þeir skulu sadder verda.** Þan̄en̄ var nu Davids Þorste, er han̄ so tiidt um̄ræder i siinum̄ Psalmum, til merkes þar um̄ ad hans laungun til Guds Nædar hefur alvarleg ver:d. Jesus er þad Oendan̄lega Gooda af hvoriu hans Born verda aldrei fullsodd, fyrr en̄ þaug um̄siider mettast af han̄s Andlites Sioon

ad

ad ejliisu, eñ þangad til, þyrster þaug syfeldt epter honum, Verolldeñ med ollum siinum Gædum, er þeim sem eirn fuull Dammur, þad er Gud sem þaug ayrnast ollu framar, þaug segia med David; Nær jeg hefe þig ad eins Drotteñ, þaa hyrde jeg hvorke um Himen nie Jord, og þo mitt Liif og Saal vanmegnest, þaa ertu þo altid mitt Hiartaňs Traust og Hlutskipte. Ps. 73. v. 25. 26 og er þad so stuttlega uttalad um Davids Þorsta. Nu fylger

II. Hvad þad var sem hañ laangade so epter; þad er audsært af haňs Ordum; Mina Saal þyrster epter Gude, epter þeim lifanda Gude; nær mun Eg þaangad komast, ad Eg siaae Guds Andlit? Fyrer þetta Guds Andlit maa skiliast Jesus, sem hiaa Esaiam kallast Guds Andlit, og Engell Guds Andlites. Esai. 63. v. 9. Edur sem adrer meina, þaa laangade David hier epter Musterenu, þvi hañ var nu landflotta, og þessvegna utelokadur fraa Guds þioonustugiord, og fraa Jerusalems Mustere sem var þad einasta i allre Verolldeñe; eñ ad gaanga iñ i Mustered, var kallad ad gaanga iñ fyrer Guds Andlit, og opeñberast fyrer Drottne; þvi seger David i odrum stad; Eins þaa bid Eg af Drottne, þad Eg mætte bliifa i Huse Drotteňs alla

la mine Liifdaga, til ad siaae þaa augiaetu þioonustugiord Drottens og ad vitia hans Musteres. Ps. 27. v. 4. Pad han nu i þessum Stad kallar ad siaa þaa augiaetu Þionustugiord Drottens, þad kallar hán i hinum ad skoda Guds Andlit; aan efa hefur han og sied hier lengra fram, og þioonustugiorden i Jerusalem hefur vered honum sem eirn Spegell uppaa þaa ejliisu Gudsþioonustugiord i Himnenum; med eiuu Orde, han laangade af ollu Hiarta epter ad siaa sin Gud, baede i Liifenu og epter Liifed. O! hvorsu Saeler eru þeir sem aa siidan skulu liita Guds Andlit; en þeir eru og Saeler, hvorra Saaler hier þyrster epter Gude; til þeirra seger Drotten; aller þier sem þyrster erud, komed hiingad til min og drecked, komed hingad til Vatnsens og kauped aan Peninga og fyrer eckert, baede Viin og Mioolk. Esai. 55. v. I.

Komum vaer nu aptur til Jesum ad heira eitt Liissens Ord af hans Munne aa Daudastundunne, þaa sinum vier ein merkeleg umskipte aa orden, ad han sem eina truada Saalu giarnan þyrster epter, han sem kallar til sin alla þyrsta og losar þeim Svolun, han, sege eg, er nu siaalfur þyrstur, og hvorsu maa han þaa endur naera adra? Vier hofum strax heirt, um þorsta eirnrar Manneskiu, en nu heirum vier i Textanum, hvorsu siaalfur Gud eirnen Kvartar um

þorsta

Þorsta: Mun hier ei siinast mega ad liikasem David þyrste epter Gude, so þyrste Gud ogso epter oss. Æ miñ Jesu! þvi skylde ege þiñ Þorste uppvekia vorn Þorsta? Komed miiner Elskañleger; lætum oss i Dag med hellgum Þorsta og gudlegre Epterlæangan yfervega þeñañ Jesu Þorsta; mina Sælu, seger David, þyrster epter Gude, epter þeim lifande Gude; lætum oss umbreita hier einu Orde, og segia, hvor i sinu Hiarta; mina Saala þyrster epter Gude epter þeim dejande Gude: Komed þa, þier þyrstu Sæler, og heired ydar Jesum, sem eiñ Hiort, kallande epter ferskn Vatne, hañ mun aptur a moote heira ydar Sæler, þa þier kalled epter Gude a ydar Daudastundu. Vier vilium so utaf þessu Fimta Liifsens Orde a Daudastunduñe, oss til yfervegunar taka

I. Þañ bitra og bloodugа Þorsta sem vor Frelsare kvartar yfer.
II. Þañ bitra og beiska Dryck sem hañs Oviner honum gaafu.

## Utleggingeñ.

Þad er ei ad undra, þo þañ umsiider mege þyrsta sem bored hefur hita og þunga dagsens, og staded i Horkn-Ervide a allrar hvijlldar og Svolunar, edur ad Striidsmaduren leite sier vokvunar sem lenge hefur mædst i Þunguñ bardaga; og þvi skyllde þa undra ad vor Frelsare, kvartar

kvartar hier ſo aumkunarlega yfer ſiinum Porſta, þar hañ þañig hafde bored hita og þunga dagſeñs; eñ hvada Þunga þar Chriſten Madur? Þad ſeger oſs Petur; hañ bar allar vorar Synder aa ſiinum Liikama uppa Kroſſeñ. 1 Petr. 2. v. 24; nefnelega þaa Oþolande byrde under hvorre engeñ añar gat riſed. Dävid gieck loteñ og miog biugur under ſinum egeñ Syndum Pſ. 38. v. 7. Hvad þaa Jeſus under allrar Veraldareñar Syndum, og þar aa ofañ, logmaalſens bolvan; Eñ hier var Hiteñ ei liettare eñ byrdeñ, ei einaſta middeiges-hite Soolareñar i hvorium hañ hieck allsnakeñ, heldur og einkum Guds Reide-Eldur og Helviites aangiſt; jaa, hañ bar ei einaſta hita og þunga Dagſens, heldur og Nætureñar, hañs Piina byriadeſt med Bloodſveitanum i Gethſemane Kvoldenu aadur, ſiidañ var hañ alla Noottena hrakeñ fraa einum til añars, og ſtrax Dageñ epter var hañ ſlegeñ, ſpottadur, huudſtriiktur, þyrnum̃kriindur, og ymeslega piindur, iñtil þeſs nu ad hierum̃ þriaar Stunder voru lidnar fraa haadeige. Hvada Undur, ſege eg ad hañ Kvartar um̃ þorſta epter þvilikañ Hita og þunga, Dagſens og Nætureñar? Hvada Undur ad hañ, ſem ofañ aa allar þær Kvaler er laau aa hañs Liikama, hafde ei einaſta Kvolldenu aadur ſtriidt vid þaa bitru Saalaraangiſt, helldur og nu, ſem vier heirdum̃ nærſt i heilar þriaar Stunder hafde ſtaded i

Þeirre ákøfustu Orustu, vid Guds Reide og Magt Helviites, hvad Undur, sege eg, ad hañ af so margfaldre Piinu og laangvarande Ervide umſiider vanmegnast, ad hans Tunga loder vid hañs Goom, og hañs Kraptar eru uppþornader sem Skurm. Ps. 22. 16. Þaa Samson hafde yferuñed siina Ovine, og feldt so marga med einum Asnakiaalka, þaa þyrste hañ so miög ad han kallade og sagde; Drotteñ! þu hefur gefed þessa miklu heill fyrer Hond þins þienara, og siaa, nu hliit eg ad deja af þorsta. Doom. B. 15. v. 18. Nu var hid mesta og versta yferstaded fyrer Jesu, nu hafde hañ Hoggormsens Hofud i Sundurmolad, nu aatte hañ epter eitt Augnablik ad beriast vid hiñ siidsta Ovin, Daudañ. Hañ maatte þvi vel segia med Samson; Drotteñ! þu hefur gefed so mikla heill og þad ollum moñum, fyrer mina Hond, eñ siaa! nu maa jeg deia af þorsta, og er þetta þad hañ vill sagt hafa med þessu siina Fimta Orde; **Mig þyrster.**

Af ollum Limum á Christi Liikama var engeñ epter, sem hafde komest hiaa hiñe stærstu Kvol nema Tungañ og Augun; med Tunguñe hafde hañ hingad til huggad adra og endurnært þaa voludu; med heñe hafde hañ beded fyrer siñum Ovinum, med heñe hafde hañ gladt Ræningiañ, huggad siña Móodur og áakallad siñ Fodur; eñ uppaa þad, ad eingeñ hañs Limur skylde Osærdur epter verda, so aattu nu hañs Augu

gu snart ad bresta, formyrkvast og apturlokast i Daudanum; og hans Tunga, munde hun ei ogso eiga ad liida? Ju eflaust, og þad einkanlega. Þvi sie þar nockur af voru Likamans Limum syndugur, þa er þad Tungan, hvor opt i sier hefur eina heila Verolld fulla af Ranglæte sem Jacob ad Orde kemst. Jac. 3. v. 6. Og þvi skylde hann þa ei a sinne Tungu liida, fyrer þær morgu og þungu Synder er vier med Tungunne Driiginum og driigt hofum? Nu var og hans Tunga so uppþornud ad hann gat varla sagt þesse Ord; mig þyrster, og þar a ofan plagadest hun enn framar af þeim beyska Svaladryck.

Hvad þvi fyrra vidvykur sem var hans bitre þorste, þa atte nu vor Frelsare ogso ad reina, hvad þad er ad þyrsta, hann er Orden oss ad ollu liikur, ad Syndenne fraatekenne, hann er Freistadur a allan Haatt uppa þad, hann sampiinast kunne vorum Eymdum; seger Paulus Ebr. 2. v. 17. Ebr. 4. v. 15. Hungur reinde hann, þa hann fastade i 40 Daga og 40 Nætur Matth. 4. v. 6. Þorsta hafde hann og adur reint, þa hann vegmoodur settest nidur vid Brunnen i Samaria og bad um Vatn ad drecka. Joh. 4. v. 6. Enn nu er hans þorste þvi miklu þungbærare enn þa, ad hann ecke a kost eins Vatnsdryckiar, hann sem þo hefur tilbued oll Vatn, og svalande brunna sem David seger;

Drot-

Drotteñ! þu lætur Bruñana uppsprett-
ta i Dølunum, og aarnar framfliota
millum Fiallaña, so øll Dyyr að Mørk-
keñe drecke, og Villudyreñ slockve siñ
Þorsta. Ps. 104. v. 10. 11. Hañ sem
tvisvar i Eydemørkeñe liet ollum Israels Børn-
num Vatn uppspretta af einum Steine. 2 Mos.
B. 17. v. 6. og 4 M. B. 20. v. 8. Hañ mæ-
ny sialfañ þyrsta. O! þu uppspretta allrar
Naadar og Bruñur allrar Miskunar og Hiælp-
ræðes, ertu nu Orðeñ sem ein uppþornuð Ey-
demørk? Þu sem snerer Vatne i Viin i Cana
fær þu nu sialfur ecke eirn Vatnsdropa? Eñ
æ miñ Jesu! Jeg veit að það er til miñar Hug-
svolunar og Endurnæringar, þar þu sialfur
ecke fuñer að fa eirn Vatnsdryck hefur þu ge-
fed oss Liissens Vatn, þig vantaðe allt, so oss
vantaðe ecker. Lærum oss nu yfervega þeñañ
Jesu Þorsta; Fyrst sem Natturlegañ og
ei so miog undarlegañ, þarnæst sem And-
legañ og yfred merkelegañ. Natturlegur
var þesse Jesu Þorste, þvi hañ hafðe natturle-
gar Orðsaker; Þorste kemur af Hita i Liikama-
num, þungu Erviðe, launguñ Vokum og mi-
klum Svita, eirneñ af Hrigð og angist, þvi
Hriggt geð uppþurkar Beineñ, seger Sa-
lomon. Orðskv. B. 17. v. 22. Þvi er það og,
að Obootameñ under andlaated plagar að sækia
mikell þorste; Allar nefndar Orsaker, hafa hier
aðsylgst hiaa Jesu. Hañ hafðe nu so lenge va-

kad, hast þungt Krvide, og uthellt miklum Svei-
ta i Grasgardenum, samt bloode i Hudstrekune
og a Krossenum, so ei var ad undra þo hann
være nu miog þyrstur orden. Þo voru innvor-
tes þar helstu Orsaker til hans Þorsta, eirn
þrefaldur Elldur sem uppþurkade allann Vokva;
Nefnelega Eldur aangistarennar, er giorde hans
Saalu hriggva allt i Daudann; Guds Reide,
sem er fortærande Elldur igegn Syndunum, er
hann hafde uppa sig teked, og Helviites Eldur,
er so hardt piinde hans Saalu i þær þriaar
Stunder hann hieck a Krossenum; og þaa Oliii-
dannlegur Þorste er eitt af bitrustu Piislum For-
dæmdra, sem votta Ord þess Riika Manns til
Abrahams; Send Lazarum, ad hann dre-
pe hinu fremsta sins Fingurs i Vatn og
kæle Tungu miina, þvi eg kvelst i þessum
Loga. Luc. 16. v. 24. So sege eg, er þad
ei ad undra, ad Jesus sem vor vegna aatte For-
dæminguna ad liida, maatte ogso þola þessa Te-
gund Fordæmingarennar. Nær vier nu samann-
berum allar þessar Kringumstædur, er þad allra-
mest ad undra, ad Jesus enn nu gat hrært Tun-
guna. Hvorsu Oliidande Piina ad Þorstenn er,
mega þeir Veiku best segia, þvi þeir kvarta meir
yfer honum enn ollu Odru i þeirra Siukdoome;
þad votta og Segurnar, ad Þorstenn hefur
tiidt vered brukadur sem Piislarfære til ad hafa
sannar Sogur af Obootamonnum, og þo þeir
hafe vid eckert annad villiad undann laata, þaa hafa
þeir

þeir giort þad hier vid, og hafa þeir ei agtad Daudañ, ef þeir alleina feinge ad drecka; Þañeñ hefur nu Jesu Þorste vered, og siineſt ſem hañ þeſsvegna hafa gleimt ollu þvi er a honuñ lá. Næſt þeirre Helviites Kvol og Piinu ſem kom honum til ad kalla haaſtoſum; **Gud miñ! Gud miñ! þvi hefur þu yfergefed mig?** Var þar eckert ſem hañ yfer kvartade, utañ Þorſteñ alleina, eins og hañ ſñad hvort være eirn partur af KvolumHelviites, edur og næſt þeim hin þyngſta af ſiinum Piiſslum; þo var þetta ei hin einaſta Orſok hañs Umkvortunar, þvi hañ ſem var eitt Lamb er þeger, þa þad er klippt, hefde og lided umyrdalauſt þeſſa Kvol ſem allar hinar: Eñ Guds Ande ſialfur leggur hier til eina adra vigtuga Orſok; ſem er ad Skripteñ ſkylde uppfyllaſt. Þa ſagde hañ: **Mig þyrſter;** Allt var fullkomnad, þad er, allt var ſked, ſem ſke ſkyllde, fyrerutañ þetta. Þar var i Skrifteñe fyrerſpad ei einaſta um hañs Þorſta ſem añars af Kriingumſtædunum ſier hvor vita mætte; Skriftareñar Uppfylling þari framkomeñ, var og ollum audſien; heldur og eirneñ hafde Ritningeñ fyrerſpad um hañs Dryck, þvi David ſeger utþryckelega under Christi Perſonu; **þeir gaafu mier Gall ad eta og Edik ad drecka i minum mikla Þorſta.** So nu þeſſe Ritning ogſo uppfyllaſt ſkyllde, hlaut Jeſus ad kvarta yfer ſinum Þorſta, þvi þarvid leiddeſt Striidsmadureñ til ad biooda honum

Ediked, sem aṅars traudlega skeð hefde. Haṅ hafde alltaf Skriftena fyrer Augum; haṅ villde ei ad hiṅ miṅste Skerfur af vorre Syndasekt være epter Ogollden, edur eirn miṅste Punctur af Logmaalenu Ouppfylltur, og þetta var þad eina sem vantade a Ritningareṅar Uppfylling, ad þvi leite sem hun uppfyllast aatte fyrer haṅs Dauda.

J aṅaṅ stad hofum vier ad aaliita Christi Þorsta, sem andlegaṅ og yfred merkelegaṅ; Þad er Omogulegt; hefur eirn af Læresedrunum sagt, ad Jesus skylde kvarta yfer Þorsta, liikt sem eirnre likamlegre Þiaaning, haṅ sem leid allt aṅad so þoleṅmoodlega, þvi munde haṅ ei eins lided hafa þeṅan þorsta, ef þar hefde ei vered nockud aṅad under foolged? og þvi skyllde haṅ kvarta nu̅ þorsta, þar haṅ þo visse, ad hiaa þessum Miskunarlausu Maṅeskiu̅ var eingrar Svolunar ad væuta; haṅ visse og, ad nu voru ei utaṅ eitt edur tvo Augnablik, þaangad til haṅ frelsast skylde fraa Porstanu̅, og ollu̅ odrum Piijslu̅: Og jeg maa segia eṅ framar, ad þo þad hefde vered Svolun ad faa, og Viin i boduṅ, þaa hefde haṅ þad ei drucked, eṅ Edikeð drack haṅ; haṅ hafde sagt Kvolldenu aadur, ad haṅ munde ei drecka af Viinvidar aavexte fyrreṅ i Guds Riike. Luc. 22. v. 18. Haṅ var komeṅ hier til ad liida, eṅ ei til ad laata sig hressa; haṅ var allareidu þyrstur ordeṅ, þaa haṅ kom uppaa Golgatha, þaa budu þeir honu̅ sama

Dryck,

Dryck, eñ hañ vilde ecke drecka, þvi munde hañ nu meir længa þari, nu þæ allt var fullkomnad? ætte hañ nu fyrst ad syrgia fyrer siñe Tungu? Ney þesse þorste hefur nockud stærra i sier foolged; Ordeñ hafa einkum til vor tolud vered, og utviisa liikañ Þorsta, þeim er David hafde; hañ þyrste epter sinum Gude, eñ hier þyrster nu Davids Son, hier þyrster sialfañ Gud, epter oss og vorre Sæluhiælp. Hier var stoor Epterlængan hiá Jesu ad fullkomna Endurlausnarverked, ad fullkomna þad, er nu var nærstum þvi fullkomnad; þvi nær sem eirn Ferdamadur kemur sinu Takmarke þvi meir lengest honum, so leingdest og Jesu þvi framar, þvi nær sem hañ var sinum Dauda. Hañ hafde ædur sagt til Læresveinañа; **Mig hefur af Hiarta epterlængad ad eta þetta Paska-Lamb med ydur.** Luc. 22. v. 15. Eñ nu þyrster hañ eñþá ákaflegar epter þeim siidsta Dropa i Kaleiknum er fyrer hañ var æskeynktur, þeim Kaleik er hañ i giær hryllte so miøg vid. J þessum Kaleik var nu epter eirn Drope, sem var Daudans siidaste Stiingur, epter hvoriuñ hañ nu so miøg længade. Hañ hafde ædur sagt, **þad er miñ Matur ad giøra hañs Vilia sem mig sende.** Joh. 4. v. 34. Þad var hans Matur, eñ þad var og sañarlega hañs Dryckur, hañ þyrste þarepter ad giora allt hvad hañs Fader hafde ælyktad hañ skylde giøra, so hañ, þá þvi var vel afloked, kynne

Þvi gladare ad ſela hönum̃ ſina Sálu á Hen-
dur; hañ Þyrſte epter Endurnæring ſiñar Sá-
lar, er nu hafde plágaſt af Guds Reide-Ellde,
og Þyrſte Þvi epter Þeim himneſku Vellyſtinga-
ña Straumum̃ Pſ. 36. v. 9. Eñ um̃fram̃ allt
Þyrſte hañ epter vorre Sáluhiálp, hun var Þad
uppſetta Takmark allra hañs Piiſla, og eñ
nu, Þar hañ er i Himnenum̃, er hun hañs
Matur, hañs Dryckur og hañs Glede; Þvi
ſeger Auguſtinus; Sá Dryckureñ ſem Þu um̃-
bidur, miñ Jeſu! er ſañarlega eckert añad eñ
min Endurlauſn.

Nu fylger i añañ máta ad athuga Chriſti bei-
ſka Dryck, Þarum̃ talar vor Texte ſo; **og Þar
ſtood eitt Kier fullt af Edike, eñ Þeir fylltu
eirn Niardarvött med Edik, lögdu hañ um̃
Yſop, og hieldu Þvi fyrer Muñ hönum̃.**
Hvarfyrer ad hier vid Chriſti Kroſs hafe Ediks-
Kier tilreidu vered, Þarum̃ hafa Þeir lærdu
tvær Meiningar. Nockrer meina ad á Aftöku
ſtadnum̃ Golgatha hafe alltid ſtaded eitt Kier med
Edik, Þo ei til Þeſs ad neirn ſkylde drecka Þaraf,
heldur hiñs, ad ef nockur ſem af ſkylde takaſt
fiell i Omegeñ ſokum̃ Þeſs Kvalræðes er á hönum̃
lá, Þá var ſtrax bored á hañ Edik med Svam-
penum̃, ſo hañ raknade vid, og fiñde Þvi heldur
til Daudañs. Adrer meina, ad med Þvi enu
Romverſka Striidsfolke var fyrer boded ad dre-
cka Viin, og hvorium̃ i Þeſs ſtad gefeñ eirn viſs
mæler

mæler af Edike, er þeir ættu ad blanda med Vatne ſier til Dryckiar; ſo hafe Striids-Menn-nerner er voru ad kroſsfeſtinguñe, og ſiidañ hiel-du þar Vagt, haft þængad med ſier i Kierum̃ þeſſe Dryckiar-faung. Fiiſe og nockurn ad vi-ta hvad Yſop er, med hvoriu Johañes hier ſe-ger, ad þeir hafe Niardarvotteñ upprett, eñ Mattheus og Marcus, ſegia þeir hafe giort þad med Reir; þa er Yſoped eirn veikur og Stut-tur ævöxtur ſem epter Ritningareñar tilviiſan, ei æ ad reiknaſt medal graſa edur Jurta, heldur medal Triæña, þvi þar ſtendur; Salomon talade um̃ Trien, ifra Cedro i Libanon (ſem þvi hædſta) og iñtil Yſops, er vex utur veggium̃ (ſem þeſs lægſta), þad er ſumra Meining ad Niardarvötttureñ hafe vered feſtur vid Reireñ med Yſops-Staungle ſem odru bande; eñ æ þvilíku riidur oſs eckert; einaſta ſkal þetta Edik og Yſop miña oſs þar æ, ad i gamla Teſtamen-tenu ætte Paaſka-Lambed ad etaſt med Edike, og þeſs Blood ſtockvaſt æ Dyraſtoolpana med Yſoops-Soopum̃. Guds Ande hefur haft ſiñ viſ-ſañ Tilgæng, jafnvel i þeim hlutum̃ er einſkes verder ſiinaſt; hier ſiæum̃ vier þad ſaña Paaſka-Lamb fyrer oſs ſlatrad, hier ſiæum̃ vier bru-kad vid þeſs ſlatrun bæde Edik og Yſop. J hreinſun þeirra Spitelſku var og brukad Yſop, og David talar þar um̃ i ſiñe Synda hreinſun; allt þetta bender oſs til þeſs Yſops er brukad var vid Chriſti Dauda, og nær vor Ydrunar-Tar eru ſem Edik, þa er Trueñ ſem Yſop er

 riettar

rietter ofs upp ad Jesu Muñe, ad vier hreinsu-
stum fra vorra Synda Liikþra.

Þeir fylltu eirn Niardarvätt med Edike, sten-
dur þar; merkelegt er það, ad þeir einusiñe a-
dur hofdu boded honum sama Dryck, og þar
villde hañ ei drecka; eñ nu þa þeir bioda ho-
num hañ aptur tekur hañ vid honum. Marcus
seger, ad þa hañ kom fyrst uppa Golgatha,
hafe þeir gefed honum Myrrhu i Vijne ad dre-
cka, og ætla nockrer, ad Gydingar hafe vered
vaner ad gefa þeim slikt er afliisast ættu, añad
hvort af Medaumkan til ad Styrkia þa, edur
og af hardbrystne, ad þeir lengur skyllde endast
til ad þola Kvalernar, ellegar sem adrer meina,
til ad deyfa þeirra Sañs og Tilfiñingu, hvar ad
luta Ord Salomonis; gef þeim sterkañ Dryck
er aflysast skulu, og Viin syrgiande Saalum so
þeir Drecke, og gleime Eymd siñe og huxe ecke
framar til siñar Olucku; Ordskv. B. 31. v. 6.
7. Þetta Myrrhu-Viin hofdu þeir, sem Mat-
theus vottar, blandad med Galle, og er þar
audsien foolska þessara Illhreysingia mot Jesu,
eñ þa villde hañ það ei drecka; nu ad þrem
Stundum lidnum koma þeir aptur med sama
Dryck, edur maske toomt Edik, sem hañ med-
took; I þessu hvorutveggiu hefur Christur hast
siñ Tilgang; þa villde hañ ei drecka; hvort hel-
dur það vera ætte hañs Svaladryckur, edur
Dryckur til ad flyta hañs Daudastundu; svo-
lun gyrntest hañ ei, þvi hañ var þaunggd ko-

meñ

mêñ til ad liida allskonar Piinu; hañ vilde ei heldur ſtitta ſitt Liif, þvi hañs Vilie var ad liida ſo lenge hañs Fodur þocknadeſt; eñ ſiidur villde hañ drecka þaraf, til ad deyfa ſina Sanſa og Tilfiñing, þvi hönum byriade ei einaſta ad liida Piiſlernar heldur og ad marke til þeirra ſiña; þeſſara Ordſaka vegna villde hañ ei i þad ſiñ drecka; eñ nu, þa allt er fullkomnad og yferſtaded, ad undañteknum þeſſum beiſka Dryck, þa mega þeir koma med hañ, nu vill hañ drecka, þo ei ſier til nockrar Styrkingar edur Svolunar, heldur var þetta ſem hiñ ſiidarſte Drope i hans æſkeinkta Piiſlar-Kaleik, hvl ſtrax þa hañ hafde Ediked til ſiin teked, ſagde hañ; **þad er fullkomnad;**

Jafnframt þeſſu þa reñum ſnoggvaſt auga voru til grimmdar þeſſara Illvyrkia; þad ſañaſt æ þeim er Salomon ſeger; þeir Ogudlegu eru griñer jafnvel þa þeir vilia ſynaſt miſkunſamer; þad ætte ad heita goodvilld ad ſvala hoñum, þa hañ þyrſte; ſtrax ſem hañ kallar hleipur eirn af þeim til; eñ þeir hefdu ei vered ſo vidlaatner, hefde hier eitt gott verk ætt ad gioraſt. Matthæus ſeger; **þeir gaafu honum Edik med Galle;** ſoddañ eru Veralldareñar Gæfur, og gefe hun oſs eirn Dryck, þa er þar alltid nockud Gall æ botnenuñ; allt hvad meñ jafnvel kaupa diirum doomuñ, er raunar fullt af beyſkiu; i Veralldareñar Metordum, Riikedæme,

 og

og Munade er þar jafnañ Gall og Edik. Hiet smackar hun af Hunange og lofar ollu goodu eñ epter at fær þu ad fiña Smeckeñ af Galleinu. Gud hafde sialfur iñleidt Gydinga i eitt Land sem flaut af Miolk og Hunange, eñ til þacklætes þarfyrer, skeinkia þeir nu a fyrer hañ Gall og Edik; so launar Verolldeñ Gude hañs Velgiorninga, þa hañ veiter heñar Soñum Metord Riikdoom og gooda Daga, so bruka þeir þessar hañs Gafur til hervopna a mote honum, med þeim reita þeir hañ til reide; fyrer Riikdoom þacka þeir honum med Pragt og Vellyst, fyrer upphefd og Metord, med Metnad og Hofmood, fyrer Volld og Herradæme, med ad foragta hañs Ord, og undertryckia siñ Naunga. Hieryfer klagar Gud, hia Spamañenum segiande; jeg hefe upphafed þa, og þeir eru fallner fra mier, vey þeim skadsomu Bornum sem yfergefa Drotteñ. Es. 1. v. 4. Sialfer Gydingar mega vel samliikiast vid Edik, sem ad soñu er Viin eñ þad skemt og suurt, þo i fyrstu hafe gott vered; þeir voru fyrrum Guds eged Foolk og hañs Viingardur, eñ nu voru þeir þyrnar Ordner og ecke Viintre, þeir baru honum sur Viinber og Gomorrhæ Eple. 5 B. Mosis 32. v. 32; nu var þad a þeim uppfylldt er Moses hafde fyrerspad. 5 Mose B. 32. v. 33. Þeirra Viin er Drekaña Eytur og grimrar Nødru Gall. Eñ æsokum ei Gydingana so ad vier gleimum

sial-

sialfum̃ ofs, gætum̃ þess jafnframt hvort vier munum̃ taka þeim miked fram̃;

Og þad skal vera vor Lærdomur hier utaf; Jesum þyrster ei lengur liikamlega þar hañ er i Dyrdeñe, eñ hañ þyrster andlega, hañ þyrster epter þiñe Yferboot og Sæluhiælp, Syndugur Madur! Hvad hefur þu gefed honum̃ ad drecka? Hvorsu lenge hefur þu læted hañ þyrsta forgefens, hvad opt hefur þu heirt hañ kvarta yfer þessum̃ sinum̃ Þorsta og eckert skeitt þar um̃; hugleid iñvyrduglega hvort þu hefur ei gefed honum̃ Gall og Edik ad drecka; hvor ein Synd þu dryger er honum̃ suurt Edik, og hvor syndsamleg Vellyst eirn Galldryckur; vilier þu svala honum, þa biod honum añad sem hañ langar epter, ber honum̃ þocknañlegt Dryckiar-Offur, eñ þad eru Taar sañrar ydrunar fyrer þiin afbrot. Eirn af þeim gomlu Lærefedrum̃ hefur kallad þvilik taar Englaña Viin, eñ jeg mæ segia; þaug eru Christi Viin; þu hefur so tiidt heited honum Viine og Hunange, lofad honum̃ boot og betran i þiñe ydran, Bæn, Kyrkiugaungu, og Sacramentes Medtekningu, þu hefur hlauped til, sem Kvalararner, eins og þu villder svala honum̃, eñ þad hefur ei vered añad eñ eirn Niardar-Vottur uppfylltur med Gall og Edik, og þo þu hafer nockud utvortes gott giort, þa hefur þad vered blandad med Galle, og Edike, þu hefur framar leitad þiins Hroofs þar

med

med, eñ Guds Dyrdar; þu hefur giort þad framar af Hræsne eñ einlægu hiartalage.

Gydingar gaafu Jesu einusiñe Gall og Edik, lietu so liida aa mille, og komu med þad aptur; speigla þig hier i Syndugur Madur! J fyrra siñe skeitte Jesus ei um þad, eñ i seirna siñe took hañ vid þvi; giæt vel ad þu breyter ei hieri ep- ter Gydingunum, og siertu eitt siñ aflaaten ad skeynkia fyrer hañ Gall og Edik, þaa kom ei op- tar þar med, þvi þaa verdur þitt hid siidara, verra hinu fyrra. Luc. 11. v. 26. Jesus hefur maaske i fyrstu halded þier þad til goda eñ komer þu aa ny med þeñañ Dryck, verdur hañ þier sialfum ad bañvæñre Olijfian.

Þeinkied hier uppaa þier Viinsvelgiarar, þier sem erud Kappar Viin ad drecka, og Strids- meñ til dryckiuskapar, sem Drotteñ kallar ydur; Es. 5. v. 22. Vey ydur seger Drotteñ; speg- led ydur i þessum Jesu Þorsta, og siaaed hvor- su Otæpt þier aa skeinked fyrer hañ Gall og Edik, þaa þier sitjed vid Floskuna fram aa Noott, iñ- til Viined logar i ydur: Ef þier ege vikned hier vid, þaa þeinked þo til þess riika Mañs i Hel- viite; hañ hafde lifad i allskyñs Vellyst og O- hoofe, sem þier nu giored, eñ nu þyrster hañ, eñnu aa þessare Stundu er hans Oop hid sama; jeg kvelst i þessum Loga. Luc. 16. v. 23-24. So þyrster þaa Jesum eñnu O þier Syndarar! hañ þyrster epter þiñe Yferboot og Guds Otta;

þu

þu Fœrfengelege; epter þiñe Medaumkunarseme, þu Harduduge, epter þinu bindende þu Dryckiurutare, epter þinu Hreinliife þu Saurliifesbuukur; hañ hefur þyrst so lenge, gæt ad þier fyrr eñ hañ seger, þad er fullkomnad, fyrr eñ þin Syndamæling er uppfyllt, og þiñ Doomur skal uppsegiast; nefnelega þesse; **Eg var þyrstur, og þier gaafud mier ei ad drecka, fared fraa mier bølvader i Eyliifañ Eld.** Matth. 5. v. 22.

Eñ nu eitt Ord til Lærdooms; eñ nu seger Jesus mig þyrster, jaa hañ þyrster eñ nu i hañs Limum; þar gengur so margur Fœraadur, hungradur og þyrstur Jesu Limur, sem þyrster epter Hialp Huggun og Bœnheyrslu, þeynk Christeñ Saala ad þad er þiñ Jesus, sem hier þyrster þvi, so seger hañ urþryckelega; **hungradur var eg, og þier gaafud mier ad eta, þyrstur og þier gaafud mier ad drecka, giestur og þier hiistud mig, og so framveges, þvi hvad þier giordud einum af þessum minnum miñstu Brædrum, þad giordud þier mier.** Matth. 25. v. 37-40. Þaa vier nu svolum þessum hañs truande Limum, þaa svolum vier sialfum honum, O! so læted þaa ecke ydar kruser aptur fyrer þeim, læted hina sem ei eru Jesu Limer heldur imissa, draged heldur nockud af ydar Munade, læted heldur skorta

uppaa

uppaa hvad añad eñ þetta, þvi hver sem gefur einuñ af þessuñ, eirn bikar af kolldu Vatne i minu Nafne (ad skilia, nær vier ei hofuñ añad betra til). Þad mun hönuñ ei verda Olaunad seger Christur. Matth. 10. v. 42. Þeir gaafu Jesu Edik under Daudañ, miñst þess O madur! Edik verdur og þiñ siidaste Dryckur i Verolldeñe, þo aldrei hafer þu hast so miked hunaang i þiinu Liife, þeink þvi til þessa Ediks, og haf þig i Hoose i þiñe Velgengne, ad nær hiñ sure Bikar kemur þier ad honduñ, þaa meger þu fiña Hugsvolun i þessu Jesu Edike, ad liikasem þad var hañs, ed siidasta, so kuñer þu þaa ad huxa med þier; Gude sie Lof, nu er þad snart aa enda, Verolldeñ getur nu ei lengur drucked mier til, nu skal jeg i stadeñ fyrer Mara-Vatn dryckiast med Vellystingaña Straumum; þañ heilsusamlega Kaleik vil Eg medtaka, og Nafn Drottens vegsama. Ps. 116. v. 13. Ei ad eins skal Jesu Dryckur heldur og hañs Þorste oss til Lærdooms þiena; hañ kvartade ei fyrr um Þorstañ, eñ hañ hafde i þriaar heilar Stunded utstaded þaa hordu aangist, er kom honuñ til ad hroopa; Gud miñ! Gud miñ! Þvi hefur þu yfergefed mig. Þar aa epter þyrste hañ; þañ retta Saalarþorsta epter Guds Naad, fær þu ei Christeñ Madur, nema þu aadur hafed smackad Syndarennar beyskiu, og staddur vered sem i Helviites Kverkuñ, þu fær hañ ei fyrr eñ þu ert uppvaknadur

naður med aangist og Skelfing, og sier þad myrkur er þin Saala sveimar i; þu maatt aaður fraa þier kasta ellu Fals-Trauste, og andvara-leyse; þaa kemur fyrst Þorsteñ epter Jesu, þeir-re lifande Vatnsens uppsprettu; vier siaum̃ ad soñu uppsprettuna fyrr, eñ steytum̃ ei þar um, þvi vier erum̃ ei þyrster, eñ þaa verdur hvør Dropeñ ofs sætare eñ Huunaag; Eñ medañ þu eñ nu hefur þina Lyst i Syndeñe, og þig þyrster epter Heimenum̃, hañs Hegooma glise og daarle-gu athæfe, jaa so lenge þu aaliitur þad ei med Leida og Vidbiood, so lenge, sege Eg, maattu siina þig so gudhræddañ sem þu villt, þu maatt tala so miked um̃ þiñ Þorsta epter Jesu, og laungun til þess Himneska; eñ hvad hiaalpar slikt? Tru mier, eirn uppliistur SañChristeñ, hañ aangrast og grætur yfer þier, þaa hañ sier þig, hañ formerker ad eñuu er þar ecke iñkomeñ i þitt Hiarta nockur Smeckur Liifsens Vatns-Straumsa, engeñ Neiste af þeim Hiaalpsamle-ga Eldenum̃, og eckert hungur edur þorste epter þvi sañarlega Gooda. Ney hvar sa Þorste er iñefyrer, þar verdur Verolldeñ beisk sem Gall-blandad Edik, heñar Daaruskapur og Glens verdur þeim Mañe vidbioodslegt.

Ad siidustu er þetta Jesu Ord ofs eitt Hug-gunar-Ord: Ef Fiskiareñs Gall kuñe ad þiena Tobiæ til lækningar so hañs Augu upplukust, Tob. 11. v. 11., so kañ og þetta Jesu Gall og Edik, ad vera ofs til læknesdooms og vorum̃

Sálum til Hugsvølunar; vitande, ad Jesus med þessum sinum bitra Þorsta og beyska Dryck, sem ollu ødru er hann leid, hefur betalad fyrer vorar Synder; hann hefur smackad þann beiska Dryck ad vier mættum sia og smacka, hvad sætur Drottenn er, hann mátte þyrsta, uppá þad hann frelsade oss frá þeim eilijfa þorsta; hönum var i sinum þorsta syniad allrar Svolunar, uppá þad vier i voru sijdasta Daudans Omeige fáum gudlega Svølun og Endurnæring, og þangad komustum hvar oss aldrei meir skal hungra edur þyrsta. Openb. B. 2. v. 16.

Vier þøckum þier þá Drottenn Jesu, fyrer þetta þitt Lijfsens Ord, fyrer þann Þorsta er þu leidst vor Vegna, og þann Dryck, er þu mátter utdrecka til vorrar Sáluhiálpar. Gef ad þetta þitt Ord hafe þá sáluhiálplega Verkan i vorum Hiørtum, ad vier, eirn og sierhvør segia kunnum med David; Mijna Sálu þyrster epter Gude, epter þeim lifanda Gude; þu hefur lofad O Herra! ad sedia þá sem hungrar og þyrster epter Rettlætenu, gief oss ad eins þorstann þvi þá er oss til reidu Svolunenn. Vardveit oss nádarsamlega ad vier aldrei framar bioodum þier Gall og Edik, og hafe þad

hendt

hendt oſs ad undañfornu, ſo ſlær æ þañ harda klett vors Hiarta, ad hañ mege Vatn af ſier geſa, og vier kuñum fram̃bera fyrer þig, til Dryckiar-Offurs, ſañarleg Yðrunartaar; Endurnær oſs ſo med þins Anda Hugſvolun, ad þaug beineñ gladvær verde er þu hefur ſundur mared. Og þaa oſs ad lyktum æ vorre Daudaſtundu epter þier þyrſter, laat oſs þaa, O Jeſu fyrer þins Þorſta ſakar, ei verda med Galle og Edike dryckiada, epter vorre Verdſkulldan, heldur laat eirn Huggunar-Dropa, eirn Dropa af Forſmeck þeſs himneſka Sætleika falla æ vora Tungu og vorar Sæler, ad vier þaa glader ſegia kuñum; þad er fullkomnad: Fader i þinar Hendur fel eg miñ Anda. Amen.



# Siøtta Prædikun
ut af
# Þvi siøtta Christi Orde
# a Krossenum.

Joh. XIX. v. 30.

Eñ þaa Jesus hafde Ediked til siin teked sagde hañ; Þad er fullkomnad.

## Jngangurinn.

J Upphafe þaa Madureñ var skapadur, Ødladest hañ alle hlute, þvi hañ var skapadur epter Guds Mynd i fullkomnum Heilagleika og Rettlæte. Eñ øllu þvi tapade hañ þar i moot i Syndafallenu; þar mistum vier Guds Mynd og alla vora Vegsemd; eñ allt hvad vier mistum þar, kuñum vier aptur ad faa i Christo, hañ er oss af Gude gefeñ til Rettlætes, Helgunar, og Endurlausnar. 1. Cor. 1. v. 30. Sumt þad vier mist hofdum faaum vier aptur hier i Liife, eñ i hinu ødru Liife, faaum vier þad alltsamañ og eñ þaa laangtum meira og betra; alla vora breste hefur Christur bætt, i honum alleina er upphaf og Ender vorrar

vorrar Sœluhiœlpar; hvi seger Postulen Paulus Ebr. 13. v. 2. Lœtum oss liita til Jesum, þess uppbyriara og fullkomnara Truarenar. Ey megum vier i þessu Liife Jesum liita med vorum Liikamans Augum, hvi han byr i einu Liose er engen fœr tilkomest. 1. Tim. 6. Skyed hefur teked han burt fra vorum Augum. Post. G. 1. v. 9. Vier gaungum hier i Trunne, en ecke i Skodunene sem Paal seger 2 Cor. 5. v. 6. En hier merker ad liita til Jesum, þad sama sem ad trua a han, og hafa han sier fyrer Sioonum bæde i Trunne og Liifernenu.

I. J Trunne liitum vier til hans sem vors einasta Læknars og Lausnara; þa Jsraels-Born voru biten af þeim brenande Hoggormum, so litu þaug, med hvi nær hælfdaudum Augum upp til Eyrormsens, og urdu heilbrygd. Aldrei kan Samvitskan so ad plaga eirn Syndara sem er hugsiukur um sina velferd, ad han ei Hugsvolun fine, þa han i Trunne liitur upp til þess hangande Eyrorms,. hins krossfesta Jesum sem seger; Eg er Madkur en ecke Madur Ps. 22. v. 7. En slikt mœ ei vera ein Kolld og Hvikul, heldur stodug og grandgæfeleg Sioon. O hvilikt Volæde! Men heira um Christi Piisler og Dauda, han er þeim sem asmaladur fyrer Augunum, og þeir

vikna eckert þarvid; þesse Ord, Jesús Guds Sonur er krossfestur, hefur sveittst Bloodenu, er slegeñ, huudstriiktur, spottadur, og so framveges; þesse allra furdañleguſtu Ord, sege eg, eru jordeñ so almeñeleg ad þad eru sæer sem uñ þaug skeyta helldúr eñ eckert se, læangt siidur þacka þarfyrer edur gledia sig þar vid. Munde Jesús þad hafa ætlad þæ hañ leid fyrer oss? Jæ ad viisu, og Mañaña Oþacklæte var ei hid miñsta af hañs Piissluñ; hañ fyrersæ þæ tiid, ad Meñ mundu heira uñ siina Piinu æn nockurrar Sorgar edur Glede, og æ sama Augnablike þeinkia alleina uppæ Veralldareñar Hegoma og Vellystingar. Fræ soddañ Koldu og lauslegu Tillite til Jesum, rædur Postuleñ oss i æmiñstum Orduñ, þar hañ seger; lætum oss med þoleñmæde liita til Jesum; þad er, lætuñ oss aldrei sleppa honuñ fræ voruñ Truar-auguñ, edur (epter Hosud-Textañs egeñlegre Merkingu) lætuñ oss so æ hañ liita ad vier ei liituñ til nockurs añars; þo er oss hiermed ei bañad ad liita til siælfra vor, ad liita æ vorn Hag, vort Embætte og vora Velferd; Eirn Styremadur sier vel epter øllu sem framfer æ Skipenu, eñ hefur þo aldrei Augun af Kompæssnuñ edur Liinuñe sem hañ sigler epter. Eins eguñ vier ad breyta æ vorre Siglingu yfer haf þessarar Veralldar, nefnelega ad hafa vor Augu nu til þessa, nu til hiñs er voru kalle vidviikur, eñ þo alltiafnt med Truareñar Auguñ og Hiartañs epterlæungan siæ til Jesum; og

liikt-

liiktsem sarleine ende a Cirklenum hleipur allt i kring, eñ hiñ añar skal alltid standa fastur i midjuñe, so mega og vorer þaankar ad soñu gaanga umkring i Verolldeñe, eñ i ollu þessu maa hiñ añar armur Cirkelsens, sem er vor Tru og Elska til Jesum, vera fastur og Ohræ-rande, i voru Hiarta sem einum Midpunct, so vier aldrei sleppum Jesu þadañ, hvad miked sem vier hofum ad sysla, og hvort oss gengur med edur moot; þetta er ad liita til Christum, sem sins Læknirs og Frelsara.

II. Eigum vier ad liita til hañs sem vors Forgaungumañs; hañs heila Liiferne a ad vera oss sem eitt Munstur, hvarepter vier egum epter fremsta megne ad moota allt vort framferde. Maalareñ horfer stodugt og lenge a þaa Personu er hañ vill uppmaala, iñtil heñar aasiind verdur honum tilfulls iñprentud, siidañ dregur hañ Myndena upp, og giorer hana Smaamsamañ æ liikare Personuñe; so skulum vier og i vorre hegdan, horfa stodugt a Jesum, ad vier smaamsamañ meir og meir faaum lagad vort Siñe epter hañs Siñe, og oss iñprentad hañs Audmykt, Hoogværd, þoleñmæde og heilagleika, og Dag fraa Dege kuñum meir og meir ad endurniast epter hans Jmynd hier i Ofullkomlegleikanum, þartil vier a siidañ honum og hañs forklaarada Liikama samliiker verda munum i Dyrdeñe. Rom. 8. v. 29. 1 Joh. 3. 2.

Endelega skulum vier og til hañs liita sem uppbyriara og fullkomnara Truareñar. Hañ er sar sein Truna i oss uppreiser, plantar og verkar; Þvi so Omögulegt sem Þad er ad siaa Soolena aa Himnenum aan Soolareñar, so er Þad og Omögulegt ad trua aa Christum, aan hañs egeñ Verkunar; Hañ hefur ei ad eins gesed oss Þad, er vier skulum trua aa, Þad er ad skilia, sina Forþienustu, Dauda og Rettlæte, edur Þad, fyrer hvort vier trua kuñum, nefnelega sitt Ord og siñ Anda, heldur maa hañ Þar aa ofañ gefa oss Krapta til ad trua; Hañ er Truareñar Upphaf og Grundvollur; eñ Þad er oss ei noog ad hañ kendrar Truna i oss, ad hañ viisar oss aa Vegeñ, allt eins og vier siaalfer ur Þvi rata kyñnum; O! ef hañ ei fylgde oss aafram Þeñañ Veg, mundum vier fliott missa aptur gotuna; hiñ litle truarneiste munde fliott kæfast vid eina motlætesbaaru og hiñ fyrsta Dropa Freistingaña. Jesus er Þar ogso Truareñar fullkomnare, hañ skilur ei vid sitt Truarverk i oss haalfbyed, hañ sleppar oss ecke fyrreñ hañ hefur medteked oss til siñar Dyrdar. J einu Orde ad segia; hañ er Truareñar Uppbyriare, Þvi hañ gefur oss Truna, og heñar fullkomnare Þvi hañ gefur oss Saaluhiaalpena sem er Truareñar Endalok.

Þarfyrer, Þaa vor Christendoomur vill giorast oss Þungbær, og oss fiñst ervidt ad trua, edur vidbliifa i Truñe til endalyka. O! laatum oss

þar ei liita til siaalfra vor; þvi þar er utgiørt uñ oss, heldur liituñ upp til Jesum þess uppbyriara og fullkomnara Truareñar; hañ sem hefur uppbyriad i oss þad gooda Verked, mun þad og fullkomna; lukasem hañ i sinu Endurlausnar-Verke ei fyrr hætte, eñ hañ a Krossenuñ til vor segia kuñe: **þad er fullkomnad;** so vill hañ og i vorn Saaluhialpar-Verke ei fyrr vidskilia, eñ hañ hefur þad fullkomnad; so þad sem Jacob sagde vid hañ; **Eg sleppe þier ecke fyrr eñ þu blessar mig.** 1 M. B. 32. v. 26. Þad vill hañ og segia til vor, ad hañ sleppe oss ecke fyrr eñ hañ hefur blessad oss.

Komed nu aptur med mier, Elskuleg Guds Born uppa Fialled Golgatha; liited nu upp til Jesum, þess uppbyriara og fullkomnara Truareñar. Hañ giorde gooda uppbyrian til vorrar Endurlausnar i siinum getnade og fædingu, i sinuñ Lifnade og Piinu framhielt hañ allt af þvi sama, og skylldest ei fyrr vid Endurlausnar-Verked, eñ hañ hafde þad i Daudanuñ fullkomnad, under eins og hañ endade sitt Liif, endade hañ og vora Saaluhiaalp. Komed þar i Dag og heired þad Fagnadarsæla Ord, sem Jesus talar a Krossenuñ, hvarmed hañ liiser fyrer olluñ siñe gledelegu Sigurviñing segiande; **þad er fullkomnad;** Hingad til hefur nærre þvi hvort eitt hañs Ord vered miog sorgarlegt, eñ þetta Ord er harla gledelegt bæde fyrer hañ

og oss, hañ hefur bæde byriad vel og endt vel; Eñ kæru Viner! hafed þier og so byriad vel ad heira med Andagt, þaug siidstu Jesu Ord, so ended nu og so vel, og heired i Dag hañs Piinu Endalok, iñtil vier þessunærst heira saum hañs blessudu Æse-Lok; **þier meñ i Sichem, heired mig ad Gud heire ydur Dom.** B. 9. v. 7. Heired hvorsu hañ fullkomnade vora Endurlausn, þaa hañ endte sitt Liif, og vered vissер um, ad hañ mun og so fullkomna ydar Saaluhiaalp, þaa ydar Liif er fullkomnad.

Vier hofum þaa i Dag ad yfervega þetta sæta Liissens Ord, aa Liissens siidstu Andlaats Stundu.

I. Sem eitt fullvissu og hughreistingar Ord.
II. Sem eitt Sigurhroofs- og Sigurviñingar Ord.
III. Sem eina Lucku-Osk til vor allra.

## Utleggingeñ.

Þetta Jesu Ord er vier i Dag yferveguм, er i þvi Griska Hofudtungumaale eitt einasta Ord, eñ i voru Maale siinest þad ad vera þriu Ord, **þad er fullkomnad;** þad er eitt liited Ord, eñ þar hiaa hid allragledelegasta af ollum Christi Orduм, og jafnvel i allre Ritninguñe; þad er liited Ord, eñ hvad mikla mædu, Haadun-

gar og Piisster hefur Jesus ei matt liida, hvad miklu Bloode hefur hann ei matt uthella fyrr enn hann segia kunne þetta einasta Ord, **þad er fullkomnad?** Þ meir enn fiogur þusund aar hofdu aller Spaamenn einasta þartil sigtad, ad þad umm sierhvors þeirra Spaadoom fyrer sig segiast mætte; **nu er og þetta fullkomnad og frammkomed;** þarfyrer veitte Jesu so torveldt fyrer sina Piinu, ad utleggia Spaadoomana fyrer sinumm Læresveinumm, aa medann so niiked, jaa þad hellsta var enn þaa Ogiort. Enn strax epter hans Piinu, strax sama Dagenn og hann uppreys, heiter þad; **hann utlagde fyrer þeim Ritningarnar þær af honum voru, og took til fraa Mose og øllum Spaamønumm.** Luc. 24. v. 27 og 43. Þetta litla Ord er og sannarlega eitt kroptugt og volldugt Ord, sem under eins hræra kunne Himenn, Jordu og Helviite; Himenenn heirde þad med Velþocknan, þvi nu var hanns Herra Fridþægdur. Jordenn matte heira þad med Glede, þvi nu var henne Fridur afrekadur, Helviite mætte bifast þarvid þvi þess Magt var nu til Enda, og Sathan skelfast, þvi nu var hanns Haus sundurmarenn; alldrei hefur hann, sem siaalfur er hid Understødulega Ord Fødursens nockurt Ord talad, sem hanns Fodur var þocknannlegra, gledelegra fyrer hann siaalfann, yndeslegra Englunumm, Saaluhiaalplegra mønnunumm og hrædelegra Dioflunumm, enn þetta litla Ord, **þad er fuldkomnad;** sem aungvu

ad siidur er so stort og fuldkomed Ord, ad i þvi alleina, sem aňare Nyt er iňelukt oll Biblian.

Eñ hvad er hier þaa fullkomnad? Þad eru i fyrstu aller Spaadoomar og Fyrermyndauer þess gamla Testamentes; hvorsvegna þad er fyrst eitt fullvissu Ord, hvarmed Jesus under Andlaated vilde giora oss vissa þarum, ad hañ nu hefde þad allt uppfyllt, er hañ uppfylla skyllde aa sinum Hiervistar-Dogum.

Hvad er þad meira sem er fullkomnad? þad er hans Piina; nu hafde hañ lided so miked og margt sem hañ aatte og kuñe ad liida; þessvegna er þad i añañ maata eitt Sigurviñingar Ord; hvarmed hañ yferliiser og hroosar Sigre þaryfer, ad siin Piina sie nu vel afstadeñ. Hvad er þaa eñ meira fullkomnad? þad er vor Endurlausn og Saaluhiaalp, hvarfyrer þad, i þridia maata, er ein Lucku- Osk til vor allra.

Vier hofum so ad yfervega þetta Jesu Ord 1. J fyrstu sem eitt fullvissu Ord; þvi þarmed er oss af hañs egeñ Muñe, vissa og Stadfesting þarum gefeñ, ad þar være nu eckert framar er hañ liida ætte, og aungvu være framar um hañs Piinu fyrerspaad eñ nu være framkomed; þad er og Oefañlegt, ad Jesus giorde eckert sem ei være aadur fyrerspaad, og eckert var um hañ fyrerspaad, sem hañ ecke giorde;

og þad villde verda allt of langt, jaa Omogulegt ad greina alla Spaadomana um̃ Jesum i þvi gamla Testamente, og siina allra þeirra uppfylling; vilduñ vier rañsaka Ritninguna og fletta Bibliuñe fraa Upphafe til Enda, munduñ vier aungva Book, og faa blod, fiña i þvi gamla Testamente, hvar ei er talad edur Spaad um̃ Jesum, añad hvort med berum Ordum̃, edur og Liooſum Fyrermyndunum̃, sem allt er fram̃komed. Medal þeirra fiogra Gud spiallamaña, sem hafa skrifad um̃ Jesu Mañdoomsteckning, hañs Liiferne, Kraptaverk, Piinu og Dauda, hefur Mattheus vered hiñ athugasamaste i ad vitna til Spaadoomaña, og vid sier hvad merkelegt sett þesskonar Viisbending: **Þetta skede so ad uppfyllteſt hvad sagt er fyrer Spaamañeñ;** og fiñst i hañs Gudspialla Book, (hafe eg rett adgætt), ad hañ þetta giort hefur i þriaatiu og tvær Reysur, hellst epter þad hañ er komeñ til ad tala um̃ Christi Piinu, hvar alleina hañ hefur Niusiñum̃ vitnad til Spaamañaña. Ef þu villt vita hvorneñ Christur aatte ad faangast, þaa hefur Spaamadureñ sagt, ad hañ skyllde forraadast og seliast; villtu vita hvad hañ aatte ad kosta, þaa er verded utþryckelega tilgreint þriaatiu Silfur-Peningar; hvartil voru þesser Peningar ætlader? Spaamadureñ svarar til ad kaupa fyrer þaa akur. Zach. 11. v. 12. 13. Villtu vita hvor hañ skyllde forraada, þad hefur David sagt: **Miñ Vinur saa er aat**

mitt

mitt Braud. Ps. 41. v. 10. Hvad atte ad verda af hinum ødrum hans Læresveinum? Partil svarar Zacharias fyrer fram; þaa Hyrderenn er slegenn, skulu Sauderner tvistrast; Zach. 13. v. 7. Maaske þeir hefdu ei so hrækt i Jesu Andlit, hefde ei Esaias adur sagt; Miina aasioonu byrgde Eg ecke fyrer Forsmaan og Hraakum. Esa. 50. v. 6. enda er Mattheus ecke seirn adleggia þartil sitt venjulega Vidkvæde; þetta skede so uppfylltest, og s. fr. J einu Orde, Jesus i sinne Piinu geck varla so nockurt Footmaal ad þarum være ei spaad; hans Dauddage er fyrersagdur, ad heingiast uppaa Træd; med hvorium atte hann þar ad haanga? Ritningenn seger; Medal illvyrkia er hann reiknadur; hvad mundu þeir giora af hans Klædum? Spaamadurenn svarar; aa minn Kyrtel løgdu þeir Hlutkeste; þeir hefdu vist broted hans Bein eins og Ræningianna hefde ei Ritningenn sagt; Eige sku ud þier briota nockurt hans Bein 2 Mose B. 12. v. 46. Þeir mundu ei hafa gegnumstunged hans Sidu, hefde ei Spaamadurenn sagt: Þeir Munu siaa mig, hvørn þeir hafa igegnum stunged; Zach. 12. v. 10. J stuttu maale allt hvad Jesus giorde, leid og talade, þad var fyrerspaad, og allt hvad fyrer var spaad, þad uppfylltest. Og þar allt var nu sked, utann þad eina, ad drecka Ediked, hvar

um

uñ David hafde ardur spaad; þeir garfu mier Edik ad dreka i minum Þorsta. Ps. 69. v. 22. Þar miñest Jesus siaalfur þar ar med siñe umkvortun yfer Þorstanum er vier siidst heirdum. Eñ munde þar Jesus ei kuña ad umbera þeñañ Þorsta þegiande sem allt añad? O ju, eñ hitt kuñe hañ ei ad þola, ad hiñ miñste Punctur Ritningareñar skyllde Ouppfylltur epter verda; þar nu þetta var sked, og hañ hafde epterþeinkt, ad nu var ei neitt epter Ouppfyllt, þar sagde hañ, **þad er fullkomnad**; gefande oss þarmed fullvissu, þarum, ad nu være eckert epter, er hañ vor vegna liida ætte, heldur mætte hañ nu med godre Samvitsku uppgefa siñ Anda. So er þar i þessu eina Jesu Orde, sem i einum litlum Punct, allt þad uppfyllt og iñefaled, sem so marger Spaameñ i so morgum Bookum, og i so morg hundrud aar talad hafa; ei er þad Undur ad þeir kuñu þvilikt fyrer ad segia, þvi Gud er Alvitur, sem fyrer þar talade, hañ er og Almaattugur, so þetta og allt añad er hañ sagt hefur, hliitur Loks a sinum Tiima ad framkoma; hitt er undarlegra ad Gydingar sem þo vissu Ritningarnar, gaatu nu ei sed, ad Jesus var saa fyrerheitne Messias, þar þo allt i honum fullkomnadest, sem um Messiam var spaad og talad. Eñ hvad skal jeg tala um Spaadoomana, þvi ei ad eins þeir, heldur og allar Fyrermyndaner þess gamla Testamentes voru nu uppfylltar. Vier hofum heirt um Isaac, þañ hliidna Son

sins

sins Fodurs; þar hañ bar Breñevideñ a Ba-
kenu, og gieck med Abraham uppa Fialled Mo-
ria, til ad offra, og þar var eckert Offur utañ
hañ sialfur. 1 M. B. 22. Hier er Jesus af
sinum Fodur til Offurs utgefeñ fyrer allar Ve-
ralldeñar Synder, og matte i sama Mata bera
siñ Kross uppa Fialled Golgatha; hosum vier
ei heirt, hvorsu Joseph var seldur af sinum
Brædrum, einkum sinum Broodur Juda, hvar
epter hañ ratade i stoorar Nauder, eñ vard um-
siider upphafeñ til stoorrar Æru, og settur Kou-
genum Pharaoni til hægre Handar? 1 B. M.
37. v. 26, item Cap. 40. v. 40. 41. Hosum
vier ei lesed um Eyrormeñ. 4 B. Mosis 21. v 8.
9. Hvad Jesus heimfærer uppa sialfañ sig,
þar hañ seger: Liikasem Moises upphoof
Hoggormeñ a Eydemorku, so byriar
Mañsens Syne upp ad hefiast ad aller
þeir sem a hañ trua fortapest ecke, hel-
dur hafe eiliift Liif. Joh. 3. v. 14. 15.
Um Paskalambed hosum vier heirt sem slatrast
atte, þess Kiot etast, og þess Blood varna
Mord-Englenum, og hvor kañ ad upptelia allar
þær morgu Fyrermyndaner hiñs gamla Testa-
mentes, einkum þær marghattudu foorner ed
allar einmidt uppa hañ sigtudu, sem er su full-
komna foorneñ: Og er þad merkelegt ad rett a
þessum sama Dege og somu Stundu er Jesus ta-
lade þessu Ord a Krossenum, um þridiu Stundu
epter Hadege, voru Prestarner allareidu i For-
garde

garde Musteresens tekner til ad slaatra Paaska-Lombunum, og a somu Tiid sem þeir eñ nu voru ad fara med Skuggañ, riett under eins hroopade Jesus; **þad er fullkomnad**, hvarmed hañ gaf til kyña, ad allt soddañ Skuggaverk være nu til Enda, þad gildte nu ei lengur, nie være nein Gudsþioonusta. J sama Siñ rifnade og Fortiallded i Musterenu, til merkes þarum, ad Gud sem bio þarfyrer iñañ i Helgedoomenum, flytte sig nu ut þadañ, og hefde ei lengur þocknan a þeirre Levitisku Þioonustugiord. Vier hosum so heirt, hvørsu þetta er eitt **fullvissu og Fullkomunar-Ord**, Nu vilium vier þarnæst, og **i añañ Maata** aliita þetta Ord sem eitt **Sigarvíñingar-Ord**, med hvøriu Jesus lijste Sigre yfer ollum sinum Ovinum; nu var ei einasta Skrifteñ med ollum sinum Spaadoomum og Fyrermyndunum uppfyllt, heldur og hañs Kvaler fullendadar; hañ gledur sig nu, ad þetta allt er yferstaded; nu hofdu allar hañs Hormungar og Harmkvæle fenged good og farsæl endalok; eñ hvor fær upptaled allar hañs Piislsler a Saal og Liikama! Hvor fær skiled, eñ siidur sagt, hvad miklar og bitrar þær voru? sem þo vera verdur ef vier rett griipa skulum, hvad gledelegt þad var fyrer Jesum, ad hañ nu segia kuñe, **þad er fullkomnad**; hañs Piisler eru ad viisu til Enda, eñ vorar Huxaner þarum, kuña aungvañ Enda ad fiña. Jeg vil med Postulanum Paale iñebinda allar hañs Piningar

ningar i þessu Orde Nidurlæging; hann nidurlægde sig siaalfann, seger hann. Phil. 2. v. 8. og þvi dypre sem þesse hanns Nidurlæging vard, þvi stærre urdu og hanns Kvaler, og so lenge hun varade, varade ogso hanns Piina; O! hvorsu skelfeleg Nidurlæging er ecke þad, ad hann eirn Eyliifur Allsvalldande Gud skylde verda einn aum og fyrerlitleg Manneskia! og þo var þetta ei utann Inngaangurenn til hanns Nidurlægingar og Piinu; edur, ef þu ei villt laata þad Nidurlæging heita (med þvi hanns Nidurlæging skyllde vera til Enda, þaa hanns Upphafningar-Stand byriadest, enn hann er enn nu Madur og under eins haattlosadur Gud ad eiliifu): So athuga þu med hvoriumm hætte hann vard Madur, og hvilikur madur hann vard; hefde hann Orded eirn Einvalldskoongur, og drottnad yfer Koongumm og Magtar-Monnumm, samt hefde þad maatt kallast ein æred diup Nidurlæging, þvi hvad er ein Manneskia moote Gude ad reikna, edur Skepnann aa mote Skaparanumm, millumm hinns allra veglegasta Konungs, og hinns aumasta þurfamanns er þo vissulega meire josnudur, þvi baader eru þeir Menn, af sama Edle, og af einu Bloode komner; enn aa mille Guds og Manneskiunnar er eckert liikt, og engenn Samjosnudnr. Þo var þvi ei þannveg haattad forer Christo, heldur var hann hin Faatækasta, vesælasta, og fyrerlitlegasta Manneskia, sem Jordenn hefur nockru sinne bored, Foolksens Spott, og Manna

Fyrer-

Fyrerlitning. Ps. 22. v. 7. Og hvilik Ridurlæging var þad ei fyrer Himnaña Herra og Drotteñ Dyrdareñar, ad verda Fooïkens Spott, og Skaparañ ad verda Fyrerlitning Skepnuñar! Gydingar Prestar Striidsmeñ, Alþiida, ja oll Veroldeñ spottade hañ og piinde sem hiñ versta Illrædesmañ, ja laangtum meyr, þvi engeñ spottade þa tvo Illvyrkia er, med honum voru Krossfester, eñ aller giørdu sier ad skylldu ad spotta, piina og plaaga hañ, sem hiñ allraversta, med ollu þvi þeir gaatu tilfunded; ad eg ei tale um hid allra þungbærasta af ollum hañs Piinslum, nefnelega þær iñvortes Kvaler og Helviites aangist sem hañ leid; þar vier, sege Eg, allt þetta athugum, saaum vier ad nockru leite nærre geted, hvørsu gledelegt þad hafe vered fyrer hañ, ad hañ maatte nu segia, **þad er fullkomnad;** nu var hañs Ridurlæ-læging endud, og hañs Upphafning skyllde byriast; hingad til hafde Andskoteñ giort allt þad til er hañ gat, sinum Grimu Jagthundum hafde hañ ollum samañ aa hañ sigad, til ad piina hañs Liikama, og sialfur hafde hañ kvaled hañs Saalu; Eñ nu var **þad fullkomnad;** Nu kuñe ei Andskoteñ lengur ad naa til hañs, hier yfer gledur hañ sig, og liiktsem hælest yfer Andskotanum ad nu gete hañ ei lengur kvaled sig. Gydingar hofdu og so allt hingad til ecke seted sig ur fære þeir hofdu nu noogu lenge spottad bryxlad, bared og sleged; eñ nu var þad full-

komnad; Þegar Samson hafde sigur fenged yfer sinum Ovinum, kallade hañ hatt, segiande; siaa þar liggia þeir i Hruugu. Dom. B. 15. v. 16. Hvilikt var nu þad sigurhroop er Jesus liet hier af sier heira; adur þaa hañs Piina byriadest Ofkade hañ so heitt og hiartañlega ad saa Time være lideñ, ad þesse Kaleikur mætte fraa sier takast; hañ hroopade nockru adur so aumkunarlega; **Gud miñ! Gud miñ! þvi hefur þu yfergefed mig?** Nu þar i moot hroosar hañ sinum Sigre so gledelega, **þad er fullkomnad;** fullkomnad er min Piina, fullkomnad er mitt Erende, og fullkomnadur er miñ Sigur. Eñ maa þad ei siinast, ad Jesus hier gledie sig fyrer Tiimañ, og hroose sigre adur eñ Striidenu er loked? Hañ atte eñ nu eirn Ovin epter, sem var Daudeñ; þad var ei noog hañ leid fyrer oss, heldur atte hañ og so, ad deja fyrer oss, þessvegna, so lenge sem hañ ei var daudur, kuñe hañ ecke ad segia; **þad er fullkomnad.** Þo Jesus hefde adra sina Ovine yferunned, þaa var þo eñ nu saa epter, sem ad viisu villde yferviña hañ, og hvorsu kuñe hañ þaa hier sigre ad hroosa? Jaa þad syñest soleides kæru Viner, eñ þad er þo ei raunar so; ad soñu heirde Daudeñ til Jesu Piinu, eñ þar jafnframt var hañ þad miñsta, Jesus Ottadest hañ nu oldunges ecke, hañ hafde allareidu utstaded þad sem var langtum þyngra, hañ aleit nu ei framar Daudañ, sem siñ Ovin, heldur

dur sem eirn goodañ Vin, sem nu skyllde koma og leysa hañ af ollum siinum Eymdum, bender, og seger honum þvi til, ad nu mege hañ koma, nu sie ollu afloked. Eirn Herslhofdinge hefur fulla Orsok, ad hroopa Sigur þaa Hofudbardageñ er uñeñ, og hiñ meste Partur Ovinaña felldur og aa Flotta rekeñ, þo faaeiner mege epterstanda, þvi þaa er Sigureñ viss, og eckert framar ad ottast; eins var þvi og hier haattad fyrer Jesu; Judith hroopade sigur þaa Holophernis Hofud var afhoggved, þvi þaa visse hun sinu Foolke viisañ Sigureñ; Jud. B. 13. Jesu hardasta Striid, sem hañ aatte vid Helviites Magt, i þær þriaar Stunder sem Soleñ var formyrkvud, var nu yfirstaded, hans Ovina Flocks-Foringe Andskoteñ var sigradur, hañ hafde Magtena teked fraa þeim sem Daudans Magt hafde. Ebr. 2. v. 14. og hvad var þaa framar Daudeñ siaalfur? Siofarendur sem hrakest hafa i laungu og mædusomu Sio-volke, nær þeir umsiider siaa hofnena, er þeir sækia til, þaa fagna þeir og glediast, þvi þeir siaa og vita ad Hofneñ er þeim viis, þo þeir eñ þaa sieu ei f. hana komner; nu hafde Jesus siglt yfer þad bloodnga haf siña Piisla, hañ sier nu hofnena, hvar hañ skylde lenda og leysast af ollum eymdum; hañs himneska Fodurs Hond var su tryggva Hofn, i hvorre hañs Saala skyllde hviilast; þaa hañ þarfyrer saa Daudañ fyrer honum, hiñ siidasta Vindblæ er skyllde bera hañ iñ aa Hofnena, þaa hroopar hañ af Glede; þad er

fullkomnad; til Lucku þær o Jesu! med þessa þiina Sigurviñing; til Lucku ad þu mætt nu iñgaanga i þina Dyrd; til Lucku ad þu hefur þessu þinu Verke so vel afloked, og ætt nu framar eckert ad liida; Oskum vier þañeg Jesu til Lucku med hañs Sigurviñing, so vill hañ miklu framar Oska oss til Lucku, med þar Sæluvon sem oss þarvid er er afrekud. Þvi viliuñ vier

I þridia Mæta æliita þetta hans Ord sem LuckuOsk til vor; hañs Piina er ei ad eins til Enda, heldur og vor Fyrerdæming, vor Skuld er betolud, vor Fridþæging fullkomnud, vor Kvittering underskrifud med Jesu Bloode, allt hvad Guds Reide og Rettlæte utkrafde til vorrar Saaluhiaalpar, er upfyllt og fullkomnad, þær Handskriftena sem moote oss var, hafde nu Christur neglt æ Krossen. Gal. 3. v. 13. Vorum vier ædur hladner Syndum og Yfertrodslum, þær var hañ þad Guds Lamb, sem bar allrar Veralldareñar Synder. Joh. 1. v. 29. Voruñ vier skuldum hladner, þar er nu vissulega ei hiñ miñste Skersur epter af þeim, er hañ ei hafe betalad; vel sie oss, ad þad er nu allt fullkomnad, og vier vid allar Skullder og Sekter lauser ordner, so lenge vier i sañre Tru holdum oss vid Jesum, erum og lifum i honum fyrer Truna, Þvi þar er eckert Fordæmañlegt æ þeim sem eru i Christo Jesu, seger Paulus Rom. 8. v. 1.

og

og eñ aptur; **Med eirnre Offran hefur han fullkomna giort, þaa sem helgader verda.** Ebr. 10. v. 14. Jesus hefur ecke einasta fullkomnad allt fyrer oss, heldur hefur hañ og giort oss fullkomna, og fullkomlega frelsad; þad er fullkomnad; hañ vill segia, mitt Blood aatte ad hreinsa ydur af ølluñ ydar Synduñ, og þad er sked, allt mitt Blood er uthelt. Jeg aatte ad bera Bølvanena fyrer ydur, þad er og sked, jeg er Ordeñ ein Bølvan, haangande hier aa Krossenuñ; Fyrerdæminguna aatte jeg ad liida i ydar Stad, þad er allt sked, jeg hefe vered af Gude yfergefeñ; jeg aatte ad uppfylla Logmaaled fyrer ydur, þad er og sked; jeg hefe ecke aa allre miñe Liifstiid yfertroded eitt af þess Bodorduñ; miñ Gud, min Samvitska, og hvad meira er; miiner Ovíner, Pilatus, Herodes, og Judas, þeir aller votta mitt Sakleyse, jeg skylde ogso deja fyrer ydur, nu vel, þad skal og so ske aa þessu Augnablike; allt er fullkomnad, so þetta Ord er ei einasta eitt Sigurhrooss Ord fyrer Jesu! heldur og fyrer oss; vier meguñ þvi segia med Postulanuñ; **hvør vill aa saka, hvør vill fordæma? Christur er hier sem daaeñ er fyrer oss.** Rom. 8. v. 33. **Daude, hvar er þiñ Broddur? Helviite hvar er þiñ Sigur.** 1 Cor. 15. Uñ Veraldareñar skøpun stendur þar ad Gud hafe aa þeim Siøunda Dege fullkomnad siin Verk. 1 Mos. B. 2. v. 1. Uñ Veraldareñar Endurlausn,

lausn, heiter pad og i Dag, ad Jesus hafe hana a peim Siounda Dege fullkomnad; so fullkomen sem nu Veraldarennar Skopun og Guds Handaverk eru; ad par vantar eckert uppa, og Gud hefur ei siidan purst ad skapa nockud niitt, heldur alleina halda pvi vid er hann skapad hafde, allt eins fullkomenn, er og Veralldarennar Endurlausn, so par er eckert annad, er vier vidpursum, til vorrar Saaluhiaalpar, enn saa krossfeste Jesus petta Jesu Ord; **pad er fullkomnad**, er sem ein Innsiglan allra hanns Pijsla; i hans Opnundum hofum vier eitt Bref uppaa vora Saaluhiaalp, og petta Ord er sem Signet parfyrer, ad vier megum oss pvi framar par uppaa reida pad er, par ad auk, oss ollum eitt sætt Huggunar-Ord, hvarvid vier kunnum ad gledia oss bæde i Liife og Dauda, pvi aasamt hanns Piinu er nu vor Endurlausn fullkomnud, hvad vier oss til Lærdooms enn framar vilium yfervega; og er oss pad ei noogur Lærdoomur, ad Christur hefur fullkomnad vora Saaluhiaalp? Laatum oss parfyrer ei leita Saaluhiaalpar i nockru odru enn honum. Post. g. 4. v. 12. Bolvadur sie saa, sem setur holded fyrer sinn Arm. Jer. 17. v. 5. Og saa er tapadur sem vill miinka Jesu Forpienustu, og meina hana ei aanægianlega, saasem hiaa Jesu Krosse vill uppsetia nockurt annad Fridpægingar Medal, edur nockur annann Himna-Stiga uppreisa vill med sinu egenn Rettlæte, Jesu verdskuldan til niduedreps. Jesus fullkomnade

pad

Þad hañ byriade, Þad er oss noogur Lærdoomur; giorum eins; Þad er ei noog ad ad vier byrium vel, heldur fullendum vel, ei noog ad vier byrium i Andanum og Fullkomnum i Holdenu Gal. 3. v. 3. heldur sieum Truer allt til enda. Openb. B. 2. v. 10. og verkum vora Sæluhiaalp aan Aflaats med Ugg og Otta. Phil. 2. v. 12. Og er Þad vor Stadfeste i Þvi gooda sem a siidañ skal Coronast. Jesus hefur fullendad siina Piinu, og framar vill hañ ei liida, Þad er oss Þar noogur Lærdoomur ad vier ei a ny piinum hañ; ad sõñu situr hañ nu i siñe Dyrd, og kañ ei sem Þañ tild nockud framar ad liida; eñ aungvu ad siidur, sofreamt Þu hætter ei Þinu Vondsku athæfe, Syndugur Madur! Þaa giorer Þu so miked sem i Þinu Valde stendur, i Þvi ad piina Jesum ad nyu. Paulus seger Ebr. 6, v. 6. ad Þeir aptur krossfeste Guds Son sialfum sier og halde hañ fyrer Skimp; Sialfum honum kañtu Þad ei ad giora, Þu gieter ei naad til hañs Þoott Þu villder, samt giorer Þu, Þad Þu kañt, og ert Þvi aungvu betre eñ Gydingarner, Þu krossfester Christum a ny med Þiinum Viisvitande Glæpum; hvor Þiñ Ogudlegur Þanke er eirn Þyrner a hañs Hofde, hvort Þitt hneixlañlegt Ord eirn hraake i hañs Andlit, og hvor Þin vellystinga Synd, ein Svipa a hañs Hrigg; Þu hatar Jesu Kvalara, ad Þeir lieku hañ saklausañ so illa ut, Þu formæler Judas sem for-

ried hañ, þu fordæmer Pilatum, sem fordæmde hañ, og þu giorer allt þetta sialfur, þu leikur þier ad, ad blanda Jesu Nafne vid Syndsamleg Ord, og Ogudlega Muñeida, ad mootstanda hañs Heilaga Orde, og forherdast vid hañs áminningar, þyker þier sem Jesus sie eñnu ecke noog kvaleñ, fyrer þina Skulld nema þu piiner hañ aptur ad nyu? Edur meinar þu, ad þitt Vanþacklæte, Hræsne i hans þioonustu, og Foragtun hañs Orda, sie honum nu ei framar til Piinu, jaa til eñþaa stærra Kvala, eñ allar sem hañ þaa leid? Hañ hefur nu i Dag fullkomnad siina Piinu, þu veitst ecke hvad snart mæling þiña Synda kañ og so ad verda fullkomnud, edur nær hañs Hefndardagur yfer þig fellur, laat þad þvi lokssens og so heita fullendad, med þina lyst og epterlaangan til Syndareñar. Þetta Ord kañ ogso ad vera oss til Hugguñar. Hañ sem sina Piinu hefur fullkomnad, hañ hefur oss ogso fullkomnad, seger Paulus; þad gat ei Logmaaled med ollu sinu Straffe og Hootunum; Eñ hvad þvi var Omogulegt, þad giorde Gud, og sende siñ Son i Heimeñ Logmaalenu undergefen. Rom. 8. v. 3. Hañ hefur fullkomnad allt fyrer oss, hañ vill og fullkomna siñ Krapt i vorum breiskleika, og styrkia oss allt til enda, i þvi gooda, sem hañ hefur byriad i oss. Ad siidustu er þad oss ein sæt Huggun, ad su Tiid mun koma, þaa þad eirneñ skal heita fyrer oss, **þad er fullkomnad. Þaa Gud mun frelsa oss fraa ollu Illu,**

og iñleida ofs i sins Sonar Riike. 2 Tim. 4. v. 18. Eiguñ vier eñ nu epter eirn beiskañ Maradryck, edur eirn bikar med Edik ad afdrecka i Veroldeñe, O! so vere hañ ofs velkomeñ, uñsuder kemur þo þad Fagnadaraared frañ, nær sagt skal verda; Allt er fullkomnad. Þaa mun Joseph gleima sinu Faangelse, Job siñe Osku, Lazarus siinum Saaruñ, og sierhvor siñe Eymd. Saa hiñ Rettlaate hliitur margt ad þola, seger David, eñ Drotteñ frelsar hañ af þvi ollu samañ. Ps. 34. v. 20.

Eyliift Lof og Þackargiord sie þier, O Herra Jesu! fyrer þetta þitt so sætt og gledelegt Liifsens Ord aa þiñe Andlaats-stundu; Veit ofs Raad ad faa rett smackad þañ Krapt og Sætleika sem er i þessu Orde, gef ofs Lyst til ad yfervega, hvorsu þu til vorrar Saaluhiaalpar hefur allt Guds Raad fullkomnad, og ad fullu bætt fyrer vorar Synder. O! hvorsu faauñ vier þier þad fullþackad, ad þu hefur þad fullgiort, er vier uñ alla Eyliifd ei gaatum uppbyriad, eñ siidur fullkomnad; gief ad þetta þitt fullkomna Verk mege eirneñ i ofs fullkomnast, laat þad O Herra ei verda ofs til Onytes, heldur þañig sem þu þad byriad hefur, frañ-

haldast i oss allt a þiñ stoora Opeñberunar-Dag, ad vier i þeirre farsælu Eyliifd, og eyliifu Farsælld, fauum med þier sagt; Nu er þad fullkomnad; þar vier med ollum Utvolldum skulum þig fullkomlega þeckia, priisa, og elska, um allar Allder. Amen.





# Siøunda Prædikun
ut af
# Þvi siøunda Christi Orde
# a Krossenum.

Luc. XXIII. v. 16.

## Ingæangurinn.

Og Jesus kallade aptur hæarre Roddu, og sagde; Fader, i þinar Hendur fel eg miñ Anda, og er hañ hafde þetta sagt, gaf hañ upp siñ Anda.

Þar Hershøfdingeñ Abner hiñ Fræekna sie Madur i Jsrael var daudur, seger Ritningeñ, ad David hafe genged þad so nærre til Hiarta, at hañ siaalfur fylgde Likbørunum; og griet vid Abners Grof a samt øllu Foolkenu, og Konungureñ sagde til siña Maña; Vited þier ecke, ad i Dag er falleñ eirn Høfdinge, og hiñ mesie Madur i Jsrael. 2 Sam. 3. Og hvad skulum vier þa segia? J Dag er falleñ eirn Hofdinge i Jsrael, ja Liiffens Hertoge,

vor

vor Frelſare, og vor Gud, þvi ſkyldum vier þaa ei graata? ſkylde oſs Daudum og daudlegum Mañeſkium þad ei ofbiooda, ad hiñ Odaudlege er daudur, og vier kuñum eñþaa ad lifa? Skyllde ei Skepnañ ſkelfaſt, þaa Skapareñ er liifláateñ; Mætte ei hvor um ſig þeinkia, nær hañ heirer þad Ognarlega Ord; **Jeſus er daudur; vor Hiartañs Glede hefur enda, Corona vors Høfuds er affalleñ.** Harmagr. 5. v. 15. 16. Skulum vier þaa ſundurriifa vor Klæde? Skulum vier hroopa med David; **Abſalon miñ Son, Gud gæfe, eg mætte deja fyrer þig, miñ Son?** 2 Sam. 13. v. 33. Ney ſliikt er ei vort ad giora, ad añar dæe fyrer þig vor Lauſnare! þarmed var engeñ bættur, eñ þari er foolgeñ oll vor Heill og Saaluhiaalp, ad þu alleina ert fyrer oſs daaeñ; ad vooſka ſier Dauda fyrer Jeſum edur ſyrgia hañs Dauda, villde geſa tilkyña añad hvort ofmikla Faavitſku, eins og vier ei viſſum hvarfyrer Jeſus er daaeñ, edur og ſlikt villde augliiſa vora Hræſne, eins og þaa Erfingiar ſyrgia epter eirn Riikañ Mañ, hvors Dauda þeir hafa leuge þreyd epter, eñ þaa þad er ſked, giora ſier upp graat, þaa þeirra Hiortu hlæja.

Nu, ſkal þaa þeſſe Dagur, ſem var Jeſu ſo þungbær vera oſs eirn Glededagur? Þad ſiineſt ad viiſu hardt, eñ þo er þad nockru nær liikendum, þvi bæde vitum vier af þeirre ſtooru

Arf-

Arfleifd sem oss er tilfallen vid hans Dauda, samt þvi stoora Frelse er han hefur þarmed afrekad oss fraa eiliifum Oforum, vier vitum liika ad han er endurlifnadur og deyr aldrei meir. Nu hvad skulum vier þaa adhafast, graata edur glediast? Þad skal, kæru Viner, annadhvort vera hvorutveggia edur hvorugt; laatum oss graata yfer vorum Syndum sem Jesum hafa afliifad, og vorum Oþackklaatu Hiortum, sem einskes meted hafa þess dejande Jesu Kærleika til vor. En gledium oss þar jafnframt, ad han er daten so vier skyldum lifa, ad vorar Synder hafa deydt han, og hans Daude aptur aamoot deidt vorar Synder; þad skal oss hiartanlega aangra, ad hans Kvaler voru so bitrar, og hans Daude so forsmaanarlegur, en gledium oss jafnframt vid þaug Saaluhiaalpar-not sem han hefur oss afrekad med þessare sine Piinu og Dauda; Edur og vier vilium hvorke glediast nie graata i Dag, þad siidara hefur han siaalfur bannad oss; Luc. 23. v. 28. **Hier Jerusalems Dætur, graated ei yfer mier, heldur graated yfer ydur siaalfum og yfer Bornum ydar;** Laatum oss heldur alleina setjast um kyrrt, vid hans Kross, og ihuga hans Andlaat, og mun þaa sannarlega sier hvors fyrste þanke Ord og Ost verda þesse; O! ad jeg þaneg deja mætte sem min Jesus med soddan Roseme, aanægiu og trunadar Trauste til Guds i Hiartanu, og þesse hans Ord i Munne-

num;

num̃; Vier meigum̃ þessvegna ı þvilikre yfervegan Jesu Dauda taka Balaams Ord oss i Muñ 4 Mos. B. 23. v 10. **Min Saal deia Rettlaatra Maña Dauda, og mitt Siidarsta verde liikasem þeirra Siidarsta.**

Balaam Beorsson var Spaamadur og þo under eins Vondur madur; hañ liet Balach Moabita Konungur sækia til ad formæla Israels Foolke, þaa þad reyste gegnum̃ hañs Land; nu visse Balaam vel ad þad var aa moote Guds Vilia ad bolva Guds Foolke, jaatade og, slikt munde ad aungvu halde koma, ad bolva þeim, sem Drotteñ vilde blessa; ei adsiidur, vilde hañ, þvert aa moot Guds Advorun, og sine Samvitsku, reina til, ad vera Balach til Vilia hier i, so hafde hid fagra Gull forblindad hañ; Eñ hvort siñ sem hañ ættlade ad fram̃kvæma siñ Vondsku aasetning, hielt ein maattkare Hond honum̃ tilbaka, so hañ moote sinum̃ Vilia blessade Israels Born; Og þaa hañ med Balach var staddur aa einu Haafu Fialle, og saa allar Israels Herbuuder standa þarunder, nidre i Dolunum, vard hañ so fraa sier numeñ, og iñtekeñ yfer Farsæld þessa Foolks, er Gud bar soddañ Giæskuriika Um̃sorgun fyrer, ad hañ, sem fyrerutañ Sañs, og siaalfañ sig, upphroopade; O! ad miin Saal deje þessara Rettlaatu Maña Dauda, og mitt ed siidasta verde sem þeirra siidasta! Madureñ var vondur, eñ Ofeñ good, hier maa siaa eirn uppliistañ Skilning,

og

og ræingsnueñ Vilia, hañ vill lenda med þeim Rettlaatu, eñ sigla med þeim Ogudlegu. Nu, þad hindrar ecke þo. Madureñ være vondur, þar hañs Ord eru good, og þaug skulum vier hiar honum til Laans taka. Christur seger ad Vonder Foreldrar kuñe ad gefa Bornum sinum goodar Gaafur Luc. 11. v. 13., og þvi er ei undur þo hier fiñest miked gott i þessum Balaams Ordum; hañ miñest a siñ Dauda, nu þa hañs Liif siineſt vera i blooma siinum; þad var miked gott; hañ seger engeñ fare vel i Daudanum, utañ þeir Rettlaatu, þvi Oskar hañ sier og þeirra Danddaga, og þad af heilum huga, þessvegna tviitekur hañ Oskena; **Miñ Saal deya Rettlaatra Mana Dauda, og mit Siidasta verde sem þeirra siidasta**; Þad var og ypparlegt; so hier brestur ei utañ eitt, eñ þad er Hofudstycked, nefnelega, ad hañ lifde ei epter þvi sem hañ sagde; hañ Oskar, eñ leitar ei þess sem hañ Oskar; Saa Late deyr yfer siñe Osk, seger Salomon; Ordskv. 21. v. 25. hañ Oskar leinge vel, eñ fær eckert, þvi hañ vill eckert til Viña; være Mañeskiañ so fus og kappsom i ad leita Saaluhiaalpareñar, sem hun er giorn til ad æskia sier heñar, ætla eg Helviite munde toomt verda, eñ i Himnariike þarimoot, snarlega fullskipad. Þad er skrifad um eirn ungañ Sælkera, sem staddur var vid andlaat hiñs heilaga Ambrosii Biskups, og saa hañs Saaluhiaalplegañ Afgang, ad hañ hafe snogglega

vendt

vendt sier til sina lyndesliiku Stallbrædra, segiande; O ad eg mætte lifa med ydur eñ deya med honum! Eñ þad fer ei samañ, ad lifa sem saa Riike Sælgætingur, og deja sem saa Riettlaate Simeon, ad burtsofna hier i Fadme Dalilæ, eñ uppvakna aa siidañ i Fadme Abrahams, þad tekst aldrey. **Fared eige viller vegar, þvi Gud lætur ei ad sier hæda.** Gal. 6. v. 7. Hvad sem Madureñ saaer nidur þad mun hañ uppskera. Þad er nærsta uggvænt ad Balaam hafa hier ratad aa Oskastund, og ei er i Ritninguñe geted hañs Umvendunar, heldur hiñs ad hañ þad Skaalkaraad gefed hafe, ad ef Balach villde laata formæla Israels Bornum, so mætte hañ fyrst leita lags vid ad tæla þaug til ad stiggia Gud, þvi þaa munde sier audveldara verda ad formæla þeim, Balach skylde alleina koma nockrum friiduin Kviñum iñi þeirra Herbuuder. (med hvorium hætte ad Andskoteñ hefur so tiidt fært bolvun yfer Mañeskiuna) og heppnadest þad eirneñ hier. 4 B. M. 31. v. 16. Eñ sosem þetta var Balaams Raad so maatte hañ og siaalfur siidañ aa þvi keña; þvi þaa Israels liidur hafde syndgad, Drotteñ og so hafde ressad þeim þarfyrer, og var nu aptur fridstilltur, baud hañ þeim ad hefna sin aa Madianitunum so þeir slou ihel allt kallkyns aa Medal þeirra, samt siaalfañ Balaam. 4 B. M. 31. v. 8. og feck hañ ei ad deja med Israels Bornum, er hañ sier Oskad hafde, heldur maatte deja med Madianitunum, med hvorium hañ hafde syndgad,

gad, þad er til einskes ad marger eru vongooder nm̃ siñ Christeñdoom, af þvi þeir fiña hiaa sier sterka Epterlaungun til Saaluhiaalpareñar; þar er væntañlega eingeñ so holldlega siñadur, ad hañ vilie ei heldur fara ejliiflega vel, eñ illa; ein good Ósk og Hræring i Hiartanu, er ein Ofullkomeñ Beviiſing Mañsens Um̃vendunar og Endurfædingar, og varla er nockur so Ogudlegur, ad hañ ei þess aa mille fiñe hiaa sier hidiñra geodar Huxaner, og sterka Drift Hiartañs, til ad samsiña þvi gooda; eñ hvor sem af þessu alleina þykest viss vera um̃ sina Saaluhiaalp; hañ sviikur sialfañ sig. Fram̃veges siaum̃ vier hier af Balaams Dæme, ad Guds Otta fylger ætiid nockud þesskonar, er jafnvel gudlauser Meñ hlioota ad bera Lotning fyrer, og laatum̃ vera Gudrækneñ sie fyrerlitleg i Liifenu, þaa hroosar hun þo sigre i Daudanum̃; þeir jafnvel sem halda Guds Born fyrer Vidundur, og þeirra lifnad og Hegdan fyrer Daarastap, þeir sialfer sem hafa Hatur og Oþocka aa þeim, fyrer þad þeirra Fram̃ferde er so Oliikt, þeir mega jafnvel priisa þaug Sæl i Daudanum; þeir ed agta sier þad fyrer Skom̃ og Ovyrding ad liikiast þeim i Liifenu, æskia sier þo ad vera komner i þeirra Stad, þaa deija skal. O laatum̃ oss ad eins halda oss fast til og vid otta Drotteñs, þvi saa Tiime mun koma ad jafnvel þeir, sem nu hnidra hönum̃ skulu segia; O! vier Daarar, vier foorum̃ villt, siaa! þeir ed vier fyrre

re dœrudum̄, þeir eru nu reiknader i tœ-
lu Guds Barna. Spek. B. 5. v. 5.

Þœ Balaam talade greind Ord, var hañ staddur œ einu fialle, og leit nidur til Guds Foolks i Dolunum̄, vier þar i mot sem stondum̄ liiktsem under Fiallenu, og liitum þadañ uppœ Golgatha til ens dejande Guds-Sonar, vier visium̄ nu taka Balaams Ord oss i Muñ; O! sœtaste Jesu! vor blessade Brudgume, vier stondum hier nu liikt sem under þinum̄ Krosse, til ad heira og ihuga þitt siidasta Andvarp; Uñ oss hiartkœre Lausnare, ad vier i Anda siœ mei-gum̄, hvorsu sœtlega þu hefur burtsofnad, og ad þvi fengnu, andvorpum̄, hvor um̄ sig, af iñelegre Hiartans Epterlœngan; min Saal deje þessa Rettlœta Mañs Dauda og mitt siidasta verde sem hañs siidasta; O! ad vort siidasta mœtte verda so Sœluhiœlplegt sem þitt siidasta, O! ad þin siidustu Ord œ Krossenum mœttu verda vor siidustu Ord œ Jorduñe.

Jeg hefe œdur sagt ad oll Jesu Ord eru Liifsens Ord einkum̄ Sio þau siidustu, eñ nu vil Eg þar til leggia, ad þad siidasta af þeim sio (hvort vier hofum̄ oss nu til yfervegunar teked), er þo allra einkañlegast eitt Liiffsens Ord; þad var fullt af Liiffsens Fullvissu, fyrer hañ siœlfañ, þad er og fullt af Liiffsens Truartrauste fyrer oss; ef

eins

eins dejande Mañs, edur einkum Gods Vinar Andlaats Ord eru oss miñes-Stæd, so ætlast, eg til, og Kresst þess, uppa mins Jesu vegna, ad þetta allrasiidasta Ord, sem hañ til vor talade, þar hañ leid fyrer oss, mege i vor Hiortu diupt iñþryckiast. Jotham stood fordum efst uppa Fiallenu, og kallade med hærre Raustu; **Hier Meñ i Sichem heired mig, ad Gud heire ydur aptur.** Dom. B. 9. v. 7. So hroopar nu Jesus efst a Fiallenu Golgatha, med hærre Raustu, ei þessvegna ad hañs Fader þad heira skule, þvi hañ heirer eirneñ þær huldu Hiartañs Andvarpaner, heldur ad vier aller þad heira skulum, og þad þreyngie sier þvi dypra iñi vor Hiortu, hañ vill segia; heired min Ord þier Jardareñar Iñbyggendur, ad Gud aptur heire ydar Ord; heired min Ord a Krossenum, ad Gud heire ydur aptur, nær þier ligged under Krossenum; heired min siidustu Ord a Daudastunduñe, ad Eg aptur a mot heire ydar Ord a ydar Daudastundu. Latum oss hier af honum læra, hvorneñ vier eigum Sæluhiælplega ad deja, og yfervega

I. **Þad siidasta Ord Jesus talade, Fader! i þinar Hendur fel Eg miñ Anda.**

II. **Hans siidustu Hegdan og Vending i Daudanum; ad hneigdu Høfde uppgaf hañ sin Anda.**

# Utleggingeñ.

Priaar eru Þær liſter ſem einuñ Chriſtnuñ Mañni eru harla Naudſynlegar, jaa Omiſſande ad læra hier i Liiſe; hin fyrſta er ad Þola vel, oñur ad bidia vel, og Þridia ad deja vel, Þad er audſært, hvorſu Naudſynleg Liſt, Þad er Chriſtnum Mañe ad Þola vel, Þvi Kroſs og Piaaningar eru liikt ſem vors Chriſteñdooms Proof-Steirn, og vor Gudrædſla er eckert, ſo lenge hun hefur ei reind vered i Eldenuñ. Su Liſt ad bidia vel er ei ſiidur Þarfleg; Marger bidia og ødlaſt ecke, ſeger Jacob, af Þvi Þeir bidia Raanglega. Jac. 4. v. 3. eñ hun er aungvu audnæmære, eñ hin fyrre, og laangt fraa ei ſo hæg ſem margur hyggur, og er ſaa eckert Smaameñe iſinum Chriſteñdoome, ſem jafnvel eirn Fiorda Part af Stundu gietur halded vid i eirnre Truadre Bæn, aan añarlegra Hugreñinga. Eñ ſu liſt ad deja vel gengur yfer allt, hun er hin allra Naudſynlegaſta, og jafnframt Þvi ſo Torveld, ad eirn Chriſteñ Madur hefur fullt i Faange ad læra hana, alla ſina Liifstiid. Allar Þeſſar liſter faauñ vier beſt lært af voruñ Frelſara aa Kroſſenuñ; vel ad Þola kuñuñ vier af aungvuñ betur ad læra eñ honuñ, er leid meir eñ nockur Mañeſkia kunne ad liida, og Þad med ſtakre Hoogværd og Poleñmæde. Vel ad bidia kende hañ oſs, ei eiznaſta i Liiſenu, heldur og i Daudanuñ, Þaa hañ bad fyrer ſier og Ødrum, Vinuñ og Ovinuñ,

nuñ, og Offrade, ſem Paulus vottar, Bænuñ og Beidne med oflugu Kalle og Taarafølluñ. Ebr. 5. v. 10. Eñ einkuñ og ſierdeiles meguñ vier af honuñ læra ad deja vel; ei einaſta ad buaſt Chriſtelega vid Daudanuñ, med ad laga vort Lijferne epter Chriſti Regluñ og Epterdæme, heldur lærum vier nu i Dag ſierdeileslega þaa Liſt og Konſt, ad deja vel og rettelega aa ſiaalfu Daudans Augnablike. Komed þaa, hier dandleger Meñ, og laatuñ oſs nu læra af einuñ Odaudleguñ Gude þaa ſtooru Konſt og Frægd ad deja vel, laatuñ oſs grandgæfelega ihuga hañs ſiidſtu Endalikt, laatuñ hana diupt iñprentaſt i vor Hiortu, heñar Kriinguñſtædur eru fyrer vora Skuld og oſs til Epterdæmes uppteiknadar; er vier ſiaauñ þaraf, ad Stephanus hiñ fyrſte Piiſlar-vottur þeſs Nya Teſtamentes hefur i ſinu Andlaate brukad, bæde hid fyrſta og ſiidaſta Ord Chriſti aa Kroſſenuñ. Poſt. G. 7. v. 59. 60. O ad oſs være eins audveldt, ad læra af Jeſu, ad tala þeſſe Ord, med fullu Trunadartrauſte Hiartans, ſem oſs er ad hafa þaug epter med Muñenuñ!

Þetta ſitt ſiidaſta Ord hafde Jeſus teked af Ritninguñe; nefnelega, þeim 31ta Pſalme Davids; þar af ſiaauñ vier þaa ſtooru Lotning, ſem Jeſus, **þad underſtodulega Guds Ord.** Joh. 1. v. 1. hefur bored fyrer Guds openberada Orde, hañ, hvors Ord voru i allañ maata ſo gilld og

 krop=

kroptug sem Ritningareñar Ord, hañ vilde þo ecke bruka ößur Ord eñ heñar, og lænade so nær hvort sitt Ord af Bibliuñe; og liikasem hönum byriade ad deja epter Ritningunñe, so villde hañ og deja med Ritninguna, og med Ritningareñar Ord i Muñenum, til ad keña oss, hvörsu hætt vier eigum ad meta heilaga Ritningu, er vera skal vors Liifsernes Rettarsnura, vor Styrkur i Neideñe, og vor Huggun i Daudanum; Hiervid mega þeir skamast sin, sem hafa soddañ Obeite æ ad lesa Bibliuna, og eru so snauder af Skriftareñar greinum, ad þær þeir jafnvel i þeirra Neyd edur Deyd, vilia tala eitt gott Ord, so geta þeir eckert fundeð; þetta er og jafnframt harla merkelegt, ad ei ad eins þetta siidasta Ord, heldur og flest hin ößur er Jesus talade æ Krossenum, voru tekeñ af Davids Psalmum, þad skal miña oss æ ad vier lætum oss þessa Book Bibliuñar einkañlega kæra vera, jæ kærare eñ morg Stycke Gulls og Silfurs; hun er sem eirn Mid-Punctur Bibliuñar, ein Paradiis, full med Liiffsens Aldene, og eirn Himeñ, med fogrum og stoorum Stiarna-Skara, hun er sem ein liitel Biblia full med þeim allra-andriikustu þaunkum, kroptugustu Huggunum og sætasta Kiarna allra Guds Orda; og hvörsu kær ætte ei su Book ad vera oss, er siælfur Guds Son valde sier til Brukunar, odrum framar æ siñe Daudastundu! og hvörsu dyrmæt skulu þaug Ord ei vera oss, sem Guds Sonur hiellt dyrmætare eñ siin eigeñ Ord! Lætum

Lœtum oss nu gaanga nær þeim fyrra Parte Ræduñar, og Ord fyrer Ord, grandgæfelega yfervega þesse siidustu Christi Ord; Fader i þiinar Hendur fel Eg miñ Anda; Fader, seger hañ; nylega hafde hañ kallad hañ siñ Gud, þaa Gud ei ææleit hañ sem siñ Son, heldur straffade hañ riett allt eins sem eirn Syndara, þaa hañ fañ aa sier liggiande allt Guds Rettlæte yfer Syndeñe, þaa talar hañ til Guds sem eins Rettferdugs og vandlætande Guds, þo ei aan Trausts, heldur sem siins Guds, segiande; Gud miñ, Gud miñ! eñ nu var Sooleñ tekeñ aptur ad skiina, og hin bitrasta Saalar-aangist umliden, og nu heiter þad; Fader! þetta Fodur-Nafn brukade Jesus þrisvar i siñe Piinu, þaa hun byriadest, þaa hun stood sem hædst, og þaa hun endadest; J Grasgardenum sagde hañ; Fader! Ef þad er mogulegt, þaa tak þeñañ Kaleik fraa mier, siidañ, þaa bued var ad negla hañ aa Krosseñ; Fader fyrergef þeim; og nu loks aa siidasta Augnablike hañs Piinu; Fader i þiinar Hendur fel Eg miñ Anda, til ad siina þarmed, ad hvorsu þung sem Guds Hond var yfer honum, þaa þeckte hañ þo i ollu þessu Gud, sem eirn naadugañ Fodur; hañ hafde lifad sem hañs hliiden Son, þañeg vilde hañ og deja, og vera siinum Fodur hliiden, allt til Krosseñs Dauda. Phil. 2. v. 8. Uppaa þad vier læra skyldum ad horfa i gegnum oll vor

N 4 dimmu

dimmu Sorga sky iñ i Guds Fodurs Hiarta, og þeckia hañ alltiid fyrer þviliikañ, jafnvel þo hañ siineft læta allar siinar Vatnsbylgiur yfer oss gænga; siinu eigeñ Nafne kañ hañ ecke ad neita, og eñ siidur siinu eigeñ Hiarta, Liikasem Fadereñ er Børnunum, liknsamur, eins er Drotteñ Miskunsamur vid þaa sem hañ Ottast. Ps. 103. v. 13.

Sierilage villde Jesus deja med þetta Fodur Nafn i Muñenum, þvi þad var hin hardasta Sakargift Gydingaña aa moote honum, ad hañ sagde Gud være siñ Fader, þessvegna villdu þeir eitt siñ griita hañ; og yfer þessu sem añare Gudlastan sundurreif hiñ ypparste Prestur siin Klæde. Matth. 26. v. 65, og sia! þessa siina Sañleiks Medkeñing villde Jesus hier iñsigla med siinum Dauda, med þvi sæta Fodurs Nafne upplauk hañ siinum Muñe aa Krossenum i þvi fyrsta Orde, og med hinu sama apturlætur hañ nu siñ Muñ i þessu siinu siidasta Orde. Fader!

J þiinar Hendur fel Eg miñ Anda; fyrer Christi Anda aa hier ad skiliast hañs Saal, hvad þvi framar er athugaverdt, sem þar hafa vered nockrer af þeirre fraaleitu Meiningu, ad Christur hefde aungva Saal, og fært þad til siins Maals ad Skrifteñ sege, Christur hafe uppaa sig teked Hold og Blood, eñ giere hvørge

um̃ Saalena; hañ hafe ei heldur þurft Saalar vid, annarrar eñ siins Guddooms er sameinadest Holde og Bloode; eñ þesse Meining er berlega raung; þvi hvorneñ maatte Christur kallast sañur Madur, ef hañ hafde ei bæde Saal og Liikama, þar tvo verulegu parta Mañsens, og hvorneñ kañ þar ad segiast, ad hañ sie ordeñ oss ad ollu liikur ad Syndeñe fraatekeñe; þar ad auk, hafe Guddoomureñ alleina vered hañs Saal, sem þesser faaviisu Siervitringar halda, þar hefde hid Oupplevsañlega Einingarband millum̃ þeirrar Guddoomlegu og Mañdoomlegu Naatturu Christi, uppleist orded i Daudanum̃, þar hefde Christur daaed sem eintoomes Mañeskia, og hvorneñ kuñe þar hañs Daude ad afreka vora Endurlausn? Hieraf er audsæet, hvorsu hætttuleg þesse Meining er, eñ hitt er viist ad Christi Saal i Daudanum̃ var Guds Sonar Saal, og hañs Liikame Guds Sonar Liikame, so þar Saaleñ var Gude afhendt, og Liikameñ lagdur i Grofena, vard þo engeñ Skilnadur at mille Guddoomsens og Mañdoomsens, eñ Guddoomureñ fylgde baadum̃, og hielt baadum̃ vid Magt.

J Hofudtungumaalenu hefur þetta Ord, jeg fel (at Hendur) twofalda merkingu; fyrst merker þad ad bidia eirn Gott fyrer eitt hvad, bæde þar vier tolum̃ til añars besta, edur gefum̃ vor Maalefne og Naudsyniar odrum̃ i vald til bestu Um̃sorgunar, liiksem þar vier ad skilnade

selum̃ Gude vora Vine, þad er, med vorum̃ Fyrerbænum̃ afhendum̃ þær Guds Varatekt; þañeñ brukar Paulus þetta Ord, i Kvedju siñe til Brædraña i Ephesv; og nu, kærer Brædur sel jeg ydur Gude og Orde hañs Naadar, hvør mættugur er ad gefa ydur arftoku medal allra Heilagra. Post. G. 20. v. 3. æ þañ hætt kañ þad og hier ad skiliast, ad Jesus hafe faled, þad er afhendt, sina Saal i Guds Varatekt, uppæ þeñañ mæta meiguñ vier og bruka þetta Ord æ vorre Dauðastundu, þæ Andskoteñ um̃situr oss, og sæker epter Sælum̃ vorum̃ sem grædugt Lioon, og hungradur Ulfur ad vier þær bidium̃ vorn himneska Fodur, ad taka vorar Sælar til siin, og læta þær af Englunum̃ bornar verda i Abrahams Skaut.

Þarnærst merker þetta Ord og so, ad nidursetia, edur leggia, sosem þær eirn pantur edur viss hlutur, er einum̃ fengeñ til triggrar Geimslu, iñtil honum̃ er skilad aptur æ siinum̃ Tiima. So brukar Paulus þetta Ord, segiande til Timotheum, ad hañ skule vardveita þad gooda sem hiæ honum̃ er nidurlagt, þad er, honum̃ æ Hendur faled, tiltruad. 2 Tim. 1. v. 14. Og Christur, er hañ seger; hvørium̃ miked er i Hendur seldt, af honum heimtest miked. Luc. 12. v. 48. Eins og þær eirn reyser længt i burt, eñ gietur ei med sier

hast

haft allar siinar Eigur, þa setur hañ siina æ-giætustu Dyrgripe til geimslu hiá siinum bestu Vinum, med þeim Skilmala ad þa hañ kemur aptur, mege hañ faa þa heila og haldna; og þad er Ordsens Merking i þessum Stad; Christur atte nu fyrer Daudañ, ad reisa ut af Veroldeñe, hañs dyrmætaste Fiesioodur var Saaleñ, og vilse hañ aungvañ trufastare Vin ad faa þeñañ Fiesiood til Vardveitslu eñ siñ himneska Fodur; honum afhender hañ nu siina Saal, og framleggur þarmed fulla Roksemd siñar upprisu, þvi hvad eirn þañeg fær Vin siinum til Vardveitslu þad ætlar hañ sier siidar meir aptur ad taka. So og þa vier æ vorre Daudastundu hofum þesse Ord epter Jesu, so gefum vier þarmed tilkynna fullvissu vorrar upprisu, og ad vor Saal ei deye i Daudanum, heldur fare til siins Heimkynnes, og Guds tryggvustu Vardveitslu, þartil henne verdur æ siidasta Dege aptur skilad til siins gamla Herberges Liikamañs.

Eñ hier er eñ þa fleira i þessu Jesu Orde iñefaled, nefnelega, ad Jesus hefur og hiermed afhendt siinum himneska Fodur vorar Saaler; allt eins og hañ bar vorar Synder, leid vort Straff, og do fyrer oss, so felur hañ Gude æ Hendur siina Saal, ásamt allra þeirra, er fyrer hañs Dauda skulu Saaluhoolpner verda; þad vottar hañ sialfur hiá. Johannem 17. v. 24. **Fader! Eg vil ad þeir ed þu gafst mier,**

mier, sieu þar sem jeg er, og i Krapte þessarar hañs Fyrerboonar, meguñ vier a vorre Daudastundn Ohullter fela vorar Saaler i Guds Hond, ja, og hvad meira er, Jesus hefur allareidu afhendt honuñ þær, þvi vier erum ei einasta hans Limer, og vorar Saaler Limer hañs Saalar (ad jeg so ad Orde komest), heldur ad vitne Pauls ef vier Christo tilheiruñ, þa eruñ vier eirn Ande med honuñ. 1 Cor. 6. v. 17.

Hond edur Hendur sem Ritningeñ tilleggur Gude hvor þo er eirn Ande, merker stunduñ hañs Ørlæte og Goodgyrne; Hañ uppliikur siñe Hende og sedur allar lifande Skepnur med siñe blessan, seger David Ps. 145. v. 16. Stunduñ hañs Forsorgun og Umhyggiu sem hia Esajam; hañ hefur teiknad oss i siinar Hendur. Es. 49. v. 16. Stunduñ hañs Almætte sem hia David; hægre Hond hiñs Hædsta kañ Ollu ad umbreyta. Ps. 77. v. 11. Stundum Guds Vernd og Vardveitslu sem Christur seger; Miiner Sauder heira miina Rødd, og engeñ kañ ad sliita þa af miins Fodurs Hende. J þessare Meiningu sem og hinuñ ødruñ afhenduñ vier asamt Jesu, Saaler vorar til Guds, bæde i Liife og Dauda, þvi seger Postuleñ; Þeir sem lifa epter Guds Vilia, skulu honum siinar

nær Sæler æ Hendur fela, sem tru-lyndum Skapara i goodum Verkum. 1. Petr. 4. v. 19. Hingad til hafde Jesus vered under Mañaña Hondum, þvi so er adkveded, ad hañ skylde i maña Hendur Ofurseljast, og er þad kuñugt hvørsu þær Hendur hondludu med hañ. Eñ nu þæ hañ hafde allt þad lided sem hañ liida ætte, og var allareidu komeñ ur Mañaña Hondum so heiter þad; Fader, i þiinar Hendur fel eg miñ Anda; og þañeg var nu hid siidasta Ord og Andvarp af Jesu blessada Muñe; læturñ oss eñ framar yfervega

II. Hañs siidustu Hegdan þæ hañ talade þesse Ord; Texteñ seger; Hañ kallade hærre Røddu, hneigde Høfuded, og gaf upp Andañ; þæ vier hofum vered stadder vid Goods Viner andlæt, og sied uppæ hañs hærda Daudastriid, þæ plagar ei einasta hvort hañs Ord ad gænga oss miog til Hiarta, heldur er hañs æsiind og Hegdan, oss lenge æ epter fyrer Hugskots Sioonum, og ber jafnvel fyrer oss þæ vier sofum, so nær vier vøknum, er þad sem þeim framlidna bregde fyrer Augu vor. Nu, kæru Viner, ydar Frelsare deyr, vier stondum i Dag, og liiktsem storum æ hañ med vorum Hugskots- og Truar-Augum, vier heirum hañs mikla Hroop, hañs siidasta Andvarp, og vier merkium hvørsu rooſamlega hañ uppgefur Andañ. Er þad nockud sem æ ad vera oss miñes-stædara?

stædara? Hañs Bloodskraptur er eñnu so fer-
skur sem hiñ fyrsta Dag til hreinsunar voruñ
Saaluñ; Laatuñ þvi Jmind hañs Dauda ætiid
vera ferska, og nya i voruñ Hiortuñ, og laa-
tuñ hañ alltid vera oss fyrer Auguñ afmaala-
dañ; heiruñ þaa hvorsu hañ kallar, siaauñ
hvorsu hañ hneiger sitt Hofud, og adgætum
hvad roolega hañ uppgefur Andañ.

1.) Hañ kallade haarre Roddu; medal
þeirra Sio Orda er Jesus talade aa Krossenuñ,
voru þar tvo sem hañ talade so med haarre Rod-
du, nefnelega hid fiorda og þetta siidasta, sem
hin vigtugustu og merkelegustu; hafde hañ aadur
med haarre Roddu hriggt siina Elskendur, sem
saa er af Gude være yfergefeñ, og ei mætte len-
gur til Guds tala sem Fodurs, so vilde hañ nu
aptur gledia þeirra Saaler med eins haarre Rod-
du, og loksens aavarpa Gud sem siñ Elskulegañ
Fodur; Hañs Fiandmeñ hofdu aadur þaa hañ
sagde Eli, Eli, teked sier efne til ad spotta hañ,
sem þañ ed være yfergefeñ af Gude, og leitade
Traustsʼ hiaa moñuñ, þessara Hææfugla muñ
villde hañ nu med þessu Kalle tilbyrgia, og laa-
ta þaa siaa ad hañ eñnu treiste aa Gud eñ ecke
Meñena. Hier er og ad fiña eina stoora Rok-
semd hans Guddooms og Almættes, þvi þad
var sañarlega ei naatturlegt, ad eirn Madur,
Ormæddur af Kvol og Bloodraas, og uppþur-
kadur af Hita og Þorsta, sem ad miñsta Koste
i þriaar Stunder hafde haangt aa Krossenuñ,

ad

ad hañ, sege eg, gæte talad hætt eñ siidur kal-
lad, og þad under siælfañ Daudañ; þvi meñ
siær ad vid længa Sostt dregur sovel af Mañe
Mæl sem Megn, og þyker þad vera merke til
Skamliifes, þæ Tungañ drafar i veikum Mañe,
og hañ loks, i Daudañs Ofbode, eckert kañ ta-
la. So er þæ þetta Jesu Kall eitt Vitne þar
til, ad þad var ei eintoomes Mañeskia sem hier
do, og ad hañ hafde eñnu Krapta til ad lifa
lengur; þad sañadest og hiervid sem adra hañs
Hegdan i Daudanum, er hañ ædur sagt hafde;
Engeñ tekur mitt Liif af mier, heldur
legg eg þad fræ mier siælfur. Joh. 10. v.
18. Þvi tekur Gudspiallamadureñ Marcus til
þess, ad þetta Kall æsamt hinum Ordum Tæk-
nunum, hafe sañfært Hofudsmañeñ þarum ad
Jesus være Guds Sonur, segiande; Eñ er
Hofudsmadureñ sæ þad hañ kallade so
þegar hañ lietst, sagde hañ; sañarlega
hefur þesse Madur vered Guds Sonur.
Marc. 15. v. 39. Hañ hroopade, sem eirn
Sigurvegare, sem ein voldug Hetia er sigrade
Daudañ, midt i Daudanum; þvi mega hier
heimfærast Esaiæ Ord; Drotteñ mun utfa-
ra sem ein Hetia, hañ mun gledia sig
sem eirn Striidsmañ, hañ mun siina
Ovine yferviña; hañ mun þegia um
Stund, og vera hlioodur, eñ nu vill
hañ hætt hroopa og þæ uppsvelgia.

Esai.

Esai. 42. v. 13. 14. Ei er oss þad mogulegt, ad breyta epter vorum Jesu med hvilliku Hroope a Daudastundeñe, og er liiklegt vier verdum meir ormagna eñ so, ad vier þad getum, ef vier dejum nátturlegum Dauda, eñ þad er Hugguneñ ad Drotteñ heirer einsvel, vorar Andvarpanar, sem vort Hroop; þa Moses var staddur mille þess Rauda Hafs, og Pharaonis Herlids, þorde hañ ei ad tala hátt, so hañs eged Folk skyllde ei ædru-Ord a honum heira; heldur andvarpade hañ einasta til Guds um Hiálp, so lágt og lidlega i siinu Hiarta; þa sagde Drotteñ til hañs; Mose! þvi kallar þu so til miin? 2 B. Mos. 14. v. 15. So er og vor Andvarpan, þa hun framkemur af Hiartanu og Trunne eitt oflugt Hroop i Guds Eyrum. Framveges seger Gudspiallamadureñ

II. Ad hañ hafe hneigt sitt Hofud; hvarmed Jesus liiktsem gaf Daudanum Teikn, ad hañ mætte nu giarnañ koma, þvi nu vilde hañ skilia vid; hiá odrum Mañeskium merkest, ad Dauda-Striided framar reyser Hofuded og uppretter Háalseñ, eñ under eins og Ondeñ er utfareñ, þa linast Sinarnar og Hofuded hniigur; Jesus þar a moot hneigde Hofuded siálfur fyrr eñ hañ deyde, og liikasem þreittur madur, lagde sig til Hviildar i Ormum siins himneska Fodurs; A Guds Siidu var þesse hans siidasta

Hegdan

Hegdan eitt Audmiiktar Merke, ad Jesus være siinum Fodur hliideñ alt i Daudañ; i Tillite til hañs aastvina var hun eitt Skilnadar-Teikn, hvarmed hañ liet sia siñ Kærleika til Mañeskiuñar og siina Lyst til Mañaña Barna, og var þad liiksem hañ hier med vilde luuta nidur ad þeim, og bydest til ad heira ef þeir vildu eñ þaz bidia sig nockurs; ad siidustu heiter þad.

III. Hañ gaf upp siñ Anda; hvarmed eñ aptur aviisast, hvorsu viljugur hañ do, ei sem eirn er hlaut ad deja, heldur sem sa er sialfur utgefur sitt Liif; um oss heiter þad, ad vor Ande takest fra oss, vorrar Saalar sie krafest af oss; a þessare Noottu munu þeir þiñar Saalar af þier krefia; Luc. 12. v. 20. Edur ad Ondeñ utfare, Saaleñ burtviike af Liikamanum. Ad soñu bruka ei aller Gudspiallameñerner hier um sama Ord, en þo verda þeir aller þar i samhlioода, ad hañ do viljugur. Johannes seger; Hañ gaf upp siñ Anda; Mattheus, hañ utsende (hañ) Marcus og Lucas; hañ utblies siinum Anda. Joh. 19. v. 30. Matth. 27. v. 50. Marc. 15. v. 37. Luc. 23. v. 46. so ad Augustinus hefur rettelega sagt; hvør fær so sofed nær hañ vill, sem Christur dejde nær hañ vilde? Allar þessar Kriingumstædur vitna, ad Christi Daude hefur vered hægur og rooleгur, ad so beisk sem hañs Piina var, hañs

Kvøl megn, og hvor hans Andardrættur Pungur, so liett, sætt, og roosamlegt hefur hans Andlaat vered, so ad, epter pad han sagt hafde; pad er fullkomnad, skyllde æ hans utvortes æstande audsied vera, ad Guds Reide yfer Syndunum være ad fullu forliikud; pad vere langt fraa mier, ad Eg vilie giora liited ur Jesu Piinu; æ Ney! pvi stærre sem hans Piina var, pvi stærre er og vor Glede og Saaluhiaalp; pad vere langt fraa mier ad segia; Jesus hafe ei smackad Daudans Beyskleika, pvi hvornen skylde Daudans Broddur vera burttekeñ, ef Dauden hefde ei stunged hañ med siinum Brodde? Ney, til Daudans Beyskleika hefur hañ ad fullu kiendt i allre siñe Piinu, i siinu Striide vid Daudañ i Grasgardenum, og i pær priaar Stunder er hañ hieck æ Krossenum, paa aller Oviner og allt Syndareñar Straff piinde hañ og kvalde æ Saal og Liikama; heldur vil Eg petta einasta sagt hafa, ad nu, epter pad Jesus hafde sagt; pad er fullkomnad, paa hefur Dauden ei siint neina Magt edur Vald yfer honum, pvi añars hefde hañ af Daudanum sigradur vered, nu hefur hañ miklu framar bendt Daudanum sem einum Pienara, ad hañ mætte nu koma, og er pad langt fraa, ad Daudeñ hafe paa hrifed hans Saal ut af Liikamanum, heldur hefur Christur med stoorre Rooseme lagt hana fraa sier i Daudanum, hvad oss eñ nu skal aa pad miña, ad upphroopa med Balaam;

Miin

Miin Saal deye Dauda þeſſa eñs Rett-laata, og mitt ſidarſta verde liikaſem hañs Siidaſta.

So hafa nu Gudſpiallameñerner, til vorrar Andagtar allar Kringumſtædur ſo grandt upp-teiknad, ſem og eirneñ ad hañ hafe daæd uñ þaa Niundu-Stund, þad er, uñ Noon, edur Klu-ckañ 3 Epter middege, þaa vered var ad foorna Kvolld Offrenu i Muſterenu, og Meñ voru far-ner ad ſlaatra Paaſkalambenu, þeir hafa tilteked Dageñ, ſem var Adfaangadagureñ fyrer Paaſka, og Foſtudagur, aa þeim ſama deige ſem hiñ fyr-re Adam var ſkapadur, deyde hiñ añar Adam; aa þeim ſama Dege ſem Skopunar-Verked var fullkomnad, var og fullkomnad Endurlauſnar-Verked, eñ þad er merkelegt, ad þo þeſſar Kriingumſtædur ſieu ritadar med ſoddañ Gaum-gæfne, þaa er þo hvorge nefnt aared; hvorke Veralldareñar aar, ſem þeſsvegna ei kañ utreik-naſt til neirnrar viſſu, nie Chriſti Aldurs aar, ſo ei verdur viſt ſagt, hvad gamall ad Chriſtur deyde; og er þeſſe Kriingumſtæda þvi athuga verdare, ad vier i þvi gamla Teſtamente, fiñum hartnær allra Forfedra og Mikelshaattar Maña Alldur tilgreindañ, þaa þeir hafa burtkallaſt, eñ i ollu Niia Teſtamentenu fiñſt ei nockurs Mer-kesmañs, Piiſslar-votts, nie Chriſti ſiaalfs, ad þvi geted, hvad gamler þeir orded hafe; og er þad ſañlega ei aan Orſaka, maaſke ei ſiidſt þeſs-

vegna, ad þaug stooru Fyrerheit hiñs Gamla Testamentes, voru mest uñ tiimañlega blessan, sem Skugga og Fyrermyndan uppa ouur betre giæde, eñ nu i þvi Niia Testamente, nu ad vier hofum Fyrerheiteñ so miklu ypparlegre, og veglegre von til eins añars betra Liifs, so þurfum vier ei framar ad aliita þetta Tiimanlega, sem er forgengelegt, seger Paulus, nu vill Guds Ande ei aliita tiimañlegañ Aldur fyrer nein gæde. Jesus do a hañs besta Alldre, og þo heiter þad so, ad hañ skylde verda gamall og lifa lenge, þad er, um ar Eyliifdareñar; so megum vier ei heldur aliita Guds Naad epter arafiolldanum; nu er þad eins stoor Guds blessan, ad hañ burttekur ofs a unga Aldre, sem hitt ad hañ lætur ofs verda gamla; O! sieum vier truud Guds Born, so kuñum vier ei ad hafa mikla Lyst epter laungum Liifsdogum, edur akta þa fyrer stoor gæde, heldur gledia ofs þarvid, ad vier jafnvel a þeñañ hatt kuñum ad deja med Jesu; þad ætla Meñ almeñelega, ad Christur have vered hier um þriatiin og fiogra ara, þa hañ deyde. Nu var þad i Gamla Testamentenu halded ein blessan fyrer þa Froomu, ad þeir skylde verda laangliifer a Jordeñe, og þad var Straff þeirra Ogudlegu, ad þeim yrde svipt i burt ad haalfnuduñ þeirra Liifsdogum; **þeir skulu ei faa haalfnad siina Liifdaga;** seger David. Ps. 55. v. 54, og er þa Jesus i þessu Medal Ogudlegra reiknadur þvi hañ haalfnade varla siina Liifsdaga, edur hid fulla

Mañe-

Mañeskiuñar Liifdaga Skeid sem er Siotiiu aar, og nær þad kemur hætt, ættatiu, sem Moses vottar Ps. 90. v. 10., þvi seger Daniel, ad Christur skule upprættur verda, Dan. 9. v. 26., og Esaias, ad hañ skule burtryckiast af Lande lifande Maña, fyrer Foolksens Misgiorda Saker. Esai. 53. v. 11. Hvarmed hañ hefur og þaa Logmaalsens Bolvan iburt teked, so þad er nu framar engeñ bølvan edur Straff ad deja ungur, þvi Jesus hefur eirneñ helgad þañ Dauda med siinum Dauda.

1 Nu Jesus er daudur, og nu skulum vier til lykta af þessu hañs siidasta Orde sem hinum odrum, draga oss nockud til Lærdooms og Huggunar; Eñ hvor kañ i saum Ordum ad skyra þaa Huggun sem er i Jesu Dauda? Añadhvort skyldum vier uppreikna allar þær Hugganer sem fiñast i Guds Orde, þvi þær allar eru samañkomnar i þessu eina Orde, Jesus er daudur; edur og þad er oss noogleg Huggun ad segia einasta i Truuñe; Jesus er daudur; og hviliikrar Huggunar skyldum vier oss framar æskia? Hvør vill fordæma, Christur er hier sem dæed hefur seger Paulus Rom. 8. 24. Hañs Daude er oss, sem Mosis Stafur er opnar fyrer oss þad Rauda Haf, 2. M. B. 14. v. 21. ad vier kuñum diarflega ad gaanga igegnum allar Hørmungar. Hañs Daude er

saa Jacobs Stige, sem leider oss til Himens. 1. M. B. 28. Ebr. 6. v. 19. Hañs Daude er sem Siaasar gruñur i hvorn vor Vón varpar siinu Atkere, hañ er stytta vorrar Truar og Friistadur vorra Eymda, hañ er Daude vors Dauda, **þvi Danden er uppsvelgdur i Sigur.** 1 Cor. 15. v. 54.; Hañs Daude er ordeñ Helviites Olyfian, Broddur i Auga Andskotans, og hiñs Nya Testamentes Iñsigle. I einu Orde ad segia hañ er vort Æskelegasta Athvarf, ef vier ad eins yfervegum hañ rettelega, og tileinkum oss hañ med lifande Tru.

Vor helste og stærste Lærdoomur skal hierut af vera, ad vier ad Jesu Epterdæme sorgum vandlega fyrer vorre Saal, vorum dyrmætasta Fiesiood; Vel mætte siinast ad Jesus hefde miñe Ordsøk hast ad sorga fyrer Saaleñe eñ Liikamanum, heñe var altiid vel borged i hañs Fødurs Geimslu, Liikameñ þaraamoot var epter i Ovina Hondum; eñ vier heirum Ney, hañ talar hier ei eitt Ord um siñ Liikama, þad mæ allt vera under añara Umsioon komed hvorneñ um hañ fer; Heldur einasta um siina Saal, **Fader i þiinar Hendur fel eg miñ Anda.** Gud gæfe vier vildum af Jesu Dauda læra þetta hid eina Naudsynlega, ad bera þvi framar aahyggiu fyrer vorre Saalu, sem hun er Liikamanum ypparlegre, og þar hofum vier vel lært; Hvad gagna oss aller Veraldareñar Saalusorgarar, nema vier siaalfer viliumi vera vorer eigeñ

geñ Saalusorgarar? Jaa hvad gagnar oss Frelsare vorrar Saalar, ef vier afrækium hana med Andvaraleyse? O! ad Meñ þeynktu þartil! eñ þar er graatlegt til ad ad vita, ad Meñ leggia heldur allt Kapp og aahuga aa sierhvad añad eñ þeirra eigeñ Saaluhiaalp. Hvada aahyggiu hofum vier ei fyrer þessum Auma Orma-Seck Liikamanum, ad fæda hañ og priida, samt af honum ad metnast? eñ vor Saala er alls-nakeñ og berr; þo medkeñum vier ad vier hofum ypparlega Saal, **ad þad gagne eckert þo Madureñ viñe allañ Heimeñ, eñ liide tioon aa Saalu siñe.** Matth. 16. v. 26, eñ þarmed er ogso bued, meira vilium vier ei til þess viña. Þaa nockur vill gefa ad merkia hvorsu heitt hañ elske siñ Vin, plagar hañ ad segia; Jeg elska þig, sem miina eigeñ Saal; En honum mætte svarast; O Ney! elska mig heldur sem þiñ egeñ Liikama, þvi jeg sie ad fyrer honum berdu gooda Umoñun; Giorum vier ei miñst ur vorre dyrmætustu eign, Saaleñe, er ei so ad hun sokum Liikamans maa hvervetna sitia i Missernum? O! ad vier þaa i Dag lærum oss þad af Jesu Dæme sagt vera, ad sorga fyrer Saalum vorum, og þad strax hier i Liifenu, skule þad hiaalpa oss i Daudanum; Ef vier hofum ei aadur fullvissu þarum med Jesu ad Gud sie vor Fader, þaa er jeg hræddur um ad vier hofum ecke Hug til ad segia med Jesu, **Fader, i þiinar Hendur fel eg**

miñ Anda; Hitt er liikara ad Samvitskañ mune spyria; Hvort er þad viist ad Gud vill nu taka vid þier og kañast vid þig? og ad hañ þa svara mune sem Jephta forduñ Olldungunuñ i Gilead; **Erud þier ecke þeir ener somu, sem hafed utreked mig af Husenu, og nu komed þier til miin, þvi ad þier erud i Neid staddur.** Doom. B. 11. v. 7. Læruñ og af Jesu, ef vier eruñ truader, ad ottast ey fyrer Daudanuñ, æliituñ hañ heldur sem vorn besta Vin, Jesus took gladur æmoote hønuñ, sem siinuñ Frelsara, er goodañ enda giørde æ hañs Piinu, Eñ siidur þurfuñ vier hañ ad ottast, þar vier nu høfuñ Jesu Dauda oss til Huggunar.

Nu, Jesus er daudur, og vier! hvad skuluñ vier nu adhafast? Læituñ oss giora sem þeir Truudu er stoodu hiæ hañs Krosse; þeir gretu, bordu sier æ briooſt, og sneru heim aptur; Læituñ nu vorn Jesum i Fride hviila, gæinge nu hvør eirn heim til siin, og buunst vid vorum D[illegible]da i Tiima; Beriuñ oss æ briooſt, ei med hendeñe heldur Samvitskuñe, ihugande, ad vier høfuñ og vered med ad leggia Hendur æ Jesum, og græituñ vorar Synder, sem hafa afliifad Drotteñ Dyrdareñar; Ei er þad noog ad vier medkeñuñ oss seka i Jesu Dauda., nema vier og eirneñ snuuñ tilbaka, med ydran og

yfer=

yferboot fraa þeim Synduñ og Gyrndum ſem giort hafa oſs ſeka i hañs Bloode, ſo þaa vier fyrer Krapt hañs Dauda eruñ dauder ordner fraa Syndeñe, vier þaa mættuñ i Krapte hañs uppriſu framganga i niiu Liiferne.

Nu, Jeſus er daudur, og hvør er þaa Skylda vor ſem epter lifuñ? Hun er i ſtuttu maale, ad gaangaſt fyrer hañs greptran, og þad ſkuluñ vier nu ſem hañs Viner ei vanta laata vid vorn framlidna Sæla Jeſum. Jeg vil ſegia til ydar þad ſem Abraham forduñ ſagde til þelrra Hethita. 1 Moſ. B. 23. v. 45. Kæru Viner giefed mier greftrunarſtad, hiaa ydur, ſo jeg mege greftra þar miñ framlideñ ſem liggur fyrer miinuñ Auguñ; Jeg vona hier ſie eingeñ, ſem ei giarnañ vilie verda vid þeſſare Boon miñe, heldur ad hvøreirn mune ſvara mier med þeim Hethitum: Heir oſs hvad vier ſegiuñ, greftra þu þiñ Framlidna hier i eirnre af vorum heydarleguſtu Grøſuñ, engeñ af oſs ſkal meina þier ſiina Grøf, til ad leggia þiñ Framlidna þari. 1 B. M. 23. v. 6. Vel ſie þvi ef þetta er ydar hrein Alvara, og fullkomed Leiſe, og veit jeg þaa aungva betre Grof til, eñ ydar Hiørtu, þar vil eg diupt nidurſockva miinuñ Jeſu. Ein Drottning forduñ viſſe aungva heidarlegre greftran ad veita ſiiinuñ Konge eñ i heñar egeñ Liikama, þvi liet hun epter þeirrar Aldar plagſid

brenna hans Liikama til Ösku, og blandade Öskunne i eirn Dryck, sem hun siidann afdrack, enn jeg mæ med heilu og höldnu greftra minn Jesum i ydar Hiortum, minn Dauda Jesum i ydar lifande Endurminning. Læted hann þar hviila, innsigled Grofena, og læted aungvann stela honum burt þadann, ad nær Jesus hviiler i ydar Hiortum fyrer sameining hans Piinu, hann þa og so mege uppriisa i ydar Hiortum, og giora ydur Hluttakande i Krafte sinnar uppriisu.

O Jesu! Andlaats Orded þitt, i miinu Hiarta eg geime, sie þad og liika siidast mitt, nær sofna eg burt ur Heime. Amen.



